# MANUALE,

Þad Er

# Handbok-
# arkorn,

Hvørnen̄ Madur eige ad LIFA
CHRISTELEGA, og DEYA
GUDLEGA.

Skrifad i Þysku Maale
AF
D. Martino Mollero,

Med hans eigen̄ Formaala,

EDITIO 3.

Selst Alment Inbunden̄ 16. Fiskum.

Þryckt ad Nyju a Hoolum i Hialltadal
Af Halldore Eriks-Syne,
ANNO M. DCC. LIII.

BERNHARDUS.

Ef margur villde trwa, ad eilijft Lijf sie, þa munde hañ ecke liggia dauður i Syndunum, i moote Lijfenu.

HIERONYMUS.

Añad hvort hlijtur Maður ad lijda hier, eda grꜳta þar (Añars Heims.)

CLEMENS.

A þeim mun alldrei Pijslum liña, sem alldrei villdu lꜳta af ad syndga.

GREGORIUS.

Sꜳ hleipur forgiefens, sem giefur fyrre upp, eñ hañ er komeñ ad Merkenu.



# Formaale
## Hans Sem Bookena
### hefur giørt.

ALLT hvad Madurenn Christenn a af Guds Orde ad læra, Vardveita og giøra, Þad er saled og bunded i Tveimur Greinum, Sem Er

1. Ad LIFA GUDRÆKELEGA.
2. Ad DEYA CHRISTELEGA.

Þetta hvørttveggia Samanbindur sa Kønunglege Spaamadar David i Eitt, Þar hann seiger: Psalmenum 90.

DRottenn kienn þu oss ad hugleida, þad vier eigum ad Deya, So ad vier verdum Forstaaler.

Soddann Aminning giører og lijka sa Wijse Madur Jesus Syrach, Þar hann seiger:

Hvad helldst þu giører, Þa hyxa umm þinn Enda-Dag, Og muntu alldrei giøra þad sem Illt er, Syr. 7.

Þviad Gudrækelegt Lijf og Framferde er ecke ånað eñ hetta, ad hyra uñ sitt fallvallt Lijf, og siñ Ovissañ Dauda, Jdka sig Daglega i Riettre Guds Kyñingu, Lifa i sañre Ydran, Jdka sijna Christelega Trw, Vardveita sijna Samvitsku, So ad hañ (seger Syrach) gioerer alldrei nocknd Jllt, Þad er, Hañ lætur alldrei þa Stund yfer sig koma, Giorer alldrei þad nocknd, ad hañ hafe ecke Trw og Traust til ad verda Saaluhiaalplegur, Og slijkt kallast Christelega ad Deya, Þegar Christeñ Madur Hugleider Daglega, ecke þad alleinasta, Ad hañ er Daudlegur, Og kañ sig fyrer Daudanum ecke ad veria, Helldur hyrar hañ Æ og alla Tijma ad skilia hier so vid þetta Lijf, Ad hañ er viss uppaa sijna Eilijfa Saaluhiaalp.

Af slijkre Heilagre Konst Christelegs Dauda, hafa Heidingiar Fordum Daga ecke þar vitad, Og eñ er þad huled fyrer ollum þeim sem ecke vilia hafa og hallda vorn HErra JEsum Christum fyrer siñ Endurlausnara. Þviad þo Heidner Vijsenda Meñ hafe af Reynslu hallded, Ad epter Ærlegt Lijf og Framferde kome Ærlegur Daude alla Tijma. Lijka eirneñ þa kome Smaanarlegur Daude, epter Skammarlegt Lijf og Framferde. Þa er þo mioeg mikell og stoor Mijsmunur aa mille Heidursamlegs og Ærlegs Framferdis, hid Ytra fyrer Moeñunum, Og aa mille Christelegs og Gudrækelegs Framferdis þess Riettlaata. So er og lijka stoor Mismunur aa mille Ærlegs Dauda, Og Christelegs Dauda. Augustus Keysare i Room hafde hast þa Daglega Ost, Ad hañ mætte Deya vel, Eñ hier med meinte hañ ecke añad, Eñ ad hañ vegna sijns Framferdis, mætte epter sig laata Eitt Ærlegt og Heidarlegt Nafn. Eñ þegar þar kiemur ad Heidner Meñ slijker skulu Deya, Þa er þar eingeñ Huggun aa Ferdum, Eingeñ Von, Helldur Deya þeir sem Skynlausar Skiepnur,

ur, Eda þeir taka Enda med Angist og Skielfing: So sem Virgilius skrifar um Turnum.

Vitaqve cum gemitu, fugit indignata sub umbras.

Þad Er.

# Til Heliar Myrkra, Hatre med, Harmþrwngeñ Saaleñ flija rted.

Hier af kiemur þad, Ad i Heidena Vijsenda Maña Bookum, Er ecke añad eñ sijfelld Klogun um Mañsins Neyd og Eymd, Hañs stutta Lijfdaga, og Daudans Grimd og Beiskleika, Eñ um Huggun og Hugar-Boot stendur þar ecke Eitt Ord. Einn af þeim hefur sagt: Allt hvad Madureñ er, Pa er hañ ei añad eñ Eymd og Hørmung. Xerxes Kongur, Pa hañ af Haud nockre leit yfer allañ siñ O-telianðe Her, Ungra og Hraustra Strijds-Maña, Pa er skrifad hañ hafe grꝏtet, Pa hañ Hugleidde, ad epter Hundrad Ar munde ecke Eitt Mañs-Barn lifa, af þeim O-tolulega Her. Sꝏ Vijsenda Spekingur Aristoteles klagar yfer Daudanum, Og seger: A medal alls þess sem a Jordune er Grimlegt og Hrædelegt, Pa er ecke neitt Hrædelegra eñ Daudeñ. Slijkar Huggunarlausar Eymder og Harma-Klaganer, Standa allvijda i Heidena Maña Bookum.

Nockrer af þeim hafa bored sig ad Rañsaka og leita Einhvers Raads og Huggunar i giegn Ogn og Skielfingu Daudans, Hvort ecke munde Eitthvad vera, hvar med þeir giæte stillt Skielfing Samvitskuñar; So þeir kyñe þvi betur ad lijda Daudañ, Eñ þad hefur ecke komest leingra fyrer þeim, Eñ so sem Seneca seiger. Hugleid þu Daudañ jafnañ, og maala þu hañ vel upp fyr-

er þijnum Hugskots Augum, so ad þu þess vilingre sierð ad gaanga under haň, Pegar þar kiemur.

Hier uppa hlijder þad vier lesum af þeim i Egypta Lande Fordum, Peir høfdu haň Sid, ad i Giestabodum og Stoor-Veitslum, Lietu þeir Eirn Maň gaanga uň Bord, Sa hafde Dauds Maňs Mynd i Hende sier, Og synde hana hvørium Maňe med þessum underskrifudum Ordum. Skiemtu þier hier vid, Et og Dreck og vert Gladur, þviad epter Daudaň verdur þu eins. Og med þessum Hætte hugdust þeir ad giøra sig Reidubwna til Daudans. Slijka Konst brwkade sa Ogudlege Agag Amalechita Kongur, Pvi þa haň merkte ad Samuel Spaamadur ætlade ad høggva haň i Sticke, Gieck haň Fullhugadur fram fyrer Spaamaňeň, Og sagde: So skal burtdrijfa Daudans Beiskleik, 1. Sam. 15. Sem haň villde so sagt hafa: Einusiňe verd eg ad Deya, Pvi er þad ei betra seirna eň nu, Hier er uň Eina illa Stund ad giøra.

Eň jafnfraumt þessu, Pa hafa þeir i sijnum Hiørtum øngva gooda Huggun hast, Eru med O-Poleňmæde og Møglan i giegn Gude med øllu nidur sockner. Pviad hvørsju leinge sem þeir leitudu Huggunar til ad stilla sijn Hiørtu, Pa gieck þeim uň sijder so sem Cicero skrifar: Eg hefe (seger haň) fraňlagt alla mijna Konst og Kuňattu, og stundad þar uppa, so sem mier er møgulegt, Ad eg mætte fa og fiňa nockra Huggun, Eň eg fiň hana øngva.

Eň sæe þeir þaň Maň nockurn, Sem var skielfdur og hræddur, Pa haň aatte ad Deya, Pa spottudu þeir haň, Og søgdu: Pu Narre, hefur þu ecke huxad þad fyrre, Ad þu ætter ad Deya, Villtu nu hid Fyrsta hrædast Daudaň?

Eň uň eilijft Lijf ad tala, þa hafa þeir Plato, Cicero og fleire Spekingar adrer, møg og mikelega mædt sig og mooda giørt, ad bevijsa þad, Ad Saaler

Maňa

Maña være O-Daudlegar, og epter þetta Lijf hefdr goodra Maña Saaler Roo og Hviild, J Einhvørium Stad. Eñ um Lijkamañ, ad hañ munde upprijsa nockurn Tijma og verda lifande, Pad hefur alldrei nockrum þeirra i Hug nie Hiarta komed.

Cicero, þykest vera Fullhugadur, og lætur sem fare hañ feigeñ þangad sem Saalernar eru, Segiande: O! Hvørsu Dijrdarlegur Dagur mun þad vera, þegar eg skilsi vid þetta Auma Lijf, og kiemst i Saalnaña Selskap. Eñ med þvi i hønum var eingeñ riett Trw, Eingeñ Verkan hiñs Helga Anda, Eingeñ Von nie stødug Huggun, þa kuñe soddañ Hugar-Hreyste ecke hafa Afl, Pad var allt Ostødugt og fullt Efasemdar, So sem merkia maa af hañs Ordum, i Ødrum Stad, Þar hañ seger: Fare eg villt i þessu ad eg helld Saalernar Odaudlegar, Pa er mier sw Villa liwf og kiær, Og eg læt ecke taka hana fraa mier, so leinge sem eg life.

Leingra eru Heidner Meñ ecke komner, og frekare Huggun hafa þeir ecke feinged. Og med sama Hætte og Moote deya aller Hræsnarar, Peir Trwna hafa alleinasta i Muñenum, Aller Ogudleger og Ydrunarlauser Sioolar, sem ecke hafa saña Trw a Medalgangarañ JEsum Christum.

Hier skulu aller Hræsnarar, Vantrwader og Ydranarlauser, a medal Christeña Maña vita og vel merkia, ad þeirra Fyrerdæming a Dege Doomsins, mun verda miklu þijngre og stærre, helldur eñ Heideña Maña, fyrer þa Grein, Ad Lioos Heilags Evangelii hefur lijst þeim, eñ Heidingium ecke, Eñ þeir hafa øngva Ydran giørt, Peir hafa breitt epter þeim, Uñ hvøria Christur talar: Peir villdu ecke, Pviad so seger Gud sialfur, Matth 10. Cap. Ef nockur er sem ydur ecke medtekur, og ecke hlijder ydar

 Ordum,

Ordum ; Pa geanged wt af þvi sama Hwse eda Stad, og hristed Duſted af ydar Footum. Sañlega sege eg ydur : Lande Sodoma og Gomorra mun lijdañlegra vera æ Siidasta Dege, eñ þeim Stad. Hvør Eyruñ hefur ad heyra, ſæ heyre.

Hier ſkal hvør Madur vel og vandlega Hugleida þañ mikla Mismun, ſem er æ mille þeirra Riett-Trwudu ſem Ydran giøra, og þeirra ſem eru Ogudleger Hræſnarar og Muñ-Christiner, So miked ſem æhrærer beggia þeirra Lijf og Framferde, Og þeirra Enda-Dag og Aſelok : Hvad harla Naudſynlegt er ad Hugleida, ſo ad vier lærum ad þeckia Naad Guds og Giæſku, Sæ oſs hefur giefed ſiñ Son JEſum Christum, med ſijnu H. Orde og Evangelio.

1. J Fyrſtu, So miked ſem æhrærer Lijf og Frañferde Mañaña, hafa þeir Wdutrwudu og Hræſnarar øngva rietta Kyñing æ Gude, Peir glæpa upp i Himeneñ ſo ſem Kaalfar, þa þeir koma wr Stiju ſiñe, Peir hafa Gagn af Skiepnum Guds og nytia þær, og þacka ecke Gude Einuſiñe, hvørke fyrer ſitt Lijf nie ſijnar Gæfur, Peir huxa ecke par uñ Himerijke ne eilijft Lijf, Peir ſegia ſo ſem þar ſtendur : Eige Gud ſitt Himerijke, þegar hañ lætur oſs gæanga vel hier i Heime. Peirra Hiartans Gyrnd og Glede, er ad hafa Daga gooda, og lifa epter Holldſins Munadſemdum. Og ſañarlega hafa ſkynlauſar Skiepnur betra Lijf og Frañferde eñ ſlijker Meñ, Sem þo eru ſkapader epter Guds Mynd. Eñ ſæ Riett-Trwade, og ſæ hañ lifer i ſañre Ydran, hañ þecker ſiñ Skapara Riettelega, Fagnar og gledſt, vegna þeſs, ad hañ er orden Riett-trwadur, Act. 16. neyter Gæfu Guds med Packlæte, Lofar og priiſar Gud fyrer þad, ad hañ hefur alla Hlute giørt ſo Dæadſamlega, og ſtundar þar uppæ Nott og Dag, ad hañ meige Gude

hlijdeñ

hlijden vera, so ad hañ med Utvølldum DRottens meige Gud eilijflega losa og dijrka i Himerijke.

2. Pa Ogudleg Heimsins Børn lesa, eda heyra, ad Gud optlega straffe Synder og Ogudlegt Framferde med illum Dauda og Afgange, Pa meina þaug ad þad duge nuog, Ef Madur bijr sig so til sijns Dauda, þegar hañ stundar ad hafa Ærlegt Framferde, Liker ecke i openberum Løstum og Glæpum, So hañ maa vel segia med Pharisearanum, Luc. 18. Eg þacka þier Gud, ad eg er ecke so sem adrer Meñ, Ræningiar, Rangloater, Hoordooms Meñ, Og meina so ad Gud kuñe ecke, og ei meige hañ med riettu synia so Ærlegum Mønum Himnarijkis.

Par a moot hefur Sañchristeñ og Riett-Trwadur Asiundan þar a, ad læra ad Deya vel og Christelega, Ps. 90. Syr. 7. Hañ ydrast Daglega sijña Synda af Hiarta, Huggar sig vid Fullnadar-Boot og Forþienustu sijns Endurlausnara, hefur Gladværa Von og fullt Trwnadar-Traust þar a, ad Gud mune vera hønum Lijknsamur fyrer Arnan og Medalgaungu sijns Sonar, og lifer Daglega so, ad hañ giete vardveitt rietta Trw og gooda Samvitsku allt til sijns Dauda, 1. Tim. 1.

3. Pegar Heimsins Børnum geingur vel, og allt leikur i Lynde fyrer þeim, þa eru þaug miøg vel Christeñ, Tala margt um Trwna a Gud, Paug kieña ødrum hvørneñ þeir skule vera stødduger, Poleñmooder i Krosse og Mootgaange, Peir eru Ohrædder um sig, Meina ad alldrei mune þeir bila nie forgaanga, Ps. 42. Eñ þegar Hørmungar Tijmeñ kiemur, og Mootgaangs Stormur blæs og dynur a, Pa dettur nidur øll þeirra Hugar Hreyste, Pa þyker þeim so sem Himeneñ vilie hrapa og Jørdeñ søckva, Siaalfer hafa þeir þa ongva Huggun, Og þo ad adrer vilie hugga þaa, Pa kuña þeir þvi ecke ad hlijda, helldur sijngia Gedeons

Kvæde med Ophlenmæde, Sem sagde, Dom 6. Ef Gud er med oss, Pvi geingur oss þa so illa?

Þar þvert a moote hefur Riett-trwad Christelegt Hiarta, fyrer laungu giørt siñ Reikning og bweist þar vid, ad Madur fær ei ad komast i Himerijke, fyrer gooda Daga, Luku og Velgeingue þessa Heims, helldur fyrer Kross og Mootgaang, Act. 14. Þar fyrer, gaange hønum vel, þa tekur hañ þvi vel, og þackar Gude, Sem lætur hañ niootande verda Landsins Giæda, Psalm. 2. Sier vid Synduunum, Þioonar Gude DRottne med Otta, og er gladur med Hrædslu. Eñ gaange hønum i moote, fæe hañ Kross og Mootgaang, Þa seger hañ med hinum Sæla Job: Ef vier høfum medtekid af Hende DRottens þad Gooda, Þvi skulum vier þa ecke lijda þad Illa? Job. 2. Liñe og ecke Krosse og Mootgaange, þa syngur hañ med hinum Gooda David, og seger: Þo Dvøl sw færest frañ, a Naatt, Fraa þvi til Morguns sijdañ, Mitt Hiarta a Guds Ast og Maatt, Efast skal ei nie kvijda, Psalm. 130. Verde Sorg og Mootgaangur eñ þa þijngre, Þa seger hañ med St. Paale, 1. Cor. 10. Gud er Trwr, og lætur oss ecke meir freistast, eñ oss er møgulegt ad lijda. Ef ad Holld og Blood er veikt, Hrædt, og wtleggur Kross og Mootgaang ødruvijs, og a verra Veg, Þa trwer hañ og veit vissulega, ad þeim sem Gud elska, hlioota aller Hluter ad þiena til, hiñs Besta, Rom. 8.

4. Verallðareñar Syner og þeir Vantrwudu, þegar þeir siaa og merkia, ad þeir hlioota ad fara burt, og yfergiefa Konu og Børn, Gootz og Eigner, Vølld og Virdingar, og fara Nakter i burt, Þa taka þeir til ad klaga og ad bera sig illa, og segia: Daude, Daude, Hvad beiskur ertu? og etc. Syr. 41. Þeir verda Efasamer, Huglauser, og segia sem sagde Keisare

Sever-

Severus: Mikill er eg og Veglegur, og Megtugur, Eg hefe vered allt þetta, Eñ nu eg skal deya, Pa er eckert af øllum Hlutum sem mier giete hiaalpad.

Þar aa moote hefur saa Riett-Christne wtvaled sier gott Hlutskipte, Fagnar og gledur sig i yfergnæfañlegum Rijkdoome Guds Giædsku og Naadar, kañ vel ad yfergiefa og forlaata alla Stundlega Hlute aa hvørre Stundu, Og seger med David Kouge: Þo adrer hafe Nægd Korns, Vijns og Vista, Pa ertu Gud Glede og Føgnudur mijns Hiarta.

5. Þegar Ydranarlauser Veralldar Syner og Hræsnarar verda siwker, hyxa þeir alleina þar uñ, af hvørju þeir hafi sijna Sovtt feinged, hafe þeir maatt drecka eda eta nockud Oheilnæmt, og eru illa til Frids, ad þad hefur so tilteked.

Eñ þeir Riett-Trwudu vita, ad ecke hid miñsta Haar aa þeirra Høfde, kañ ad falla aan Guds Vitundar og Vilia, Matth. 10. Auk helldur mundu þeir sijna Heilsu mist hafa, ef þad hefde ei vered Guds Vilie, Þar fyrer giefa þeir Skulldena sijnum Syndum, og medkieña ad þeir med sijnum Syndum hafe þetta Synda Straff forskulldad, Jer. 10. og vita ad Gud med slijku Hirtingar Hrijse, vill þaa locka og leida til Ydranar; Þeir vita og eirneñ þad, og trwa þvi fullkomlega, Ad þegar Gud vill i þañ Maata vitia Mañsins, þa stoda og styrkia aller Hluter þar til, ad þad kome fram sem Gud hefur aasett, Sie þad Sovtt eda Siwkdoomur, og eru þar fyrer vel til Frids, 2. Cor. 10

6. Þeir Ogudlegu Veralldar Syner hyxa ecke par. uñ sijna Saal, Fyrr eñ þeir verda siwker, Pa ed Fyrsta laatast þeir vilia verda Froomer. Adur hefur þeim eingeñ Skiepna vered so leid sem Prestar, Eñ nu þeir sioa hvad verda vill, Pa skipa þeir ad Hlaupa, Rijda

og Reña epter Preste. Adur hafa þeir a þeirra Tun- gu, ecke añad heited, Eñ leider Prestar og Papar; Eñ þa koma aftur Hlivod, Froome Daanumañ, Æruverduge Guds Ords Þienare, Hiaalpa mier og gief godd Raad, So eg verde ecke Fordæmdur. Eñ hier vill optast gan- ga so til, ad þeir sem Guds Raad og hañs Ord fyrer- liita alla sijna Daga, Þeir faa haua ecke þa þeir vilia:

Eñ sa Riett-Trwade Christeñ Madur er alla Daga og alla Tijma Reidubwiñ, ad fara af þessum Heime, Psalm.90. Hañ lætur alldrei nockurn Dag eda Tijma hañ yfer sig koma, og alldrei lætur hañ sitt Hiarta ve- ra i þeirre Skickan, ad hañ þurfe nockra Efasemd ad hafa um sijna Saaluhiaalp, helldur hvar hañ er stadd- ur, þa kañ hañ med fullu Trwnadar-Traustie og orugg- re Von ad segia so, Apoc 22. DRotteñ JEsu Chri- ste, Mijn Huggun og Glede, Eg vænte þijn a hvør- re Stundu, Kom þa þu villt, Eg er til Reidu. Og kome nockur Kross eda Siwkdoomur, Seger hañ strax med hinum H. Simeone, DRotteñ laattu þiñ Þioon fara i Fride, Luc. 2.

7. Þegar þeir Muñ-Christnu Hræsnarar þurfa Raada eda Hiaalpar vid i þeirra Siwkdoome, þa leita þeir Lækninga hvar þeir kuña, Stundum hia Galld- ra-Moñum eda þeim sem fara med Rwner, Ristingar, Forneskiu, Særingar, Marger segia; Vilie Gud ecke hiaalpa, Þa hiaalpe hiñ Añar, Eda hvør sem kañ, So mier batne.

Eñ sa Gudhrædde og Riett-Trwade veit vel, ad øll Hiaa-Gudadyrkan, aller Oleyfelegir Lækninga Hætt- er, Eru alvarlega fyrerbodner, Exod. 20. Hañ þecker Brøgd og Vielar hiñs Vonda Anda, Þad ecke kañ hañ nockrum Mañe ad hiaalpa, med Forneskiu, Galldri, Missijningum, Rwnum eda Ristingum, helldur giører hañ þad uppaa þa Grein, ad hañ meige med þeim

Hætte

Hætte faa Makt og Välld yfer þeirra Saalum, sem slijkar Lækningar þiggia og med Hønd hafa. Jaa, ad vijsu, Saa Riett-Trwade veit þad og trwer þvi, ad betra er ad deya Þusundsinnum i DRottne, helldur en ad verda Heilbrygdur i Dioful sins Nafne, Og lifa. Þar fyrer leitar hann þeirra Raada og Lækninga sem Gud hefur til sett, So ad hann freiste ei sijns Guds. En kunne hann eingenn Raad, Øngva Lækning ad faa, eda ef Gud lætur sijna Blessan ei koma þar til, þa seger hann, DRottenn JEsu, Hier er eg, Giør þu vid mig epter þijnum Vilia, Ef þu villt þa kanntu ad hiaalpa mier, Matth. 8. En sie þier annad þægelegra, Siaa, þa er eg hier, sem þu villt minn Gud og DRottenn.

8. Veralldar Syner huxa i sijnum Siwkdoome, harla lijted umm Guds Ord, Þviad þeir hafa ecke lagt þad uppaa Hiartad, vita ecke ad hugga sig vid þa Heiløgu Skijrn, Ecke helldur vid þa Heiløgu Kvølldmaaltijd. Sumer laata lesa fyrer sier Veralldlegar Historiur, Sagna-Bækur, Æfenntijr, Hvar med þeir vilia hamla Daudanns Hugreeningum, Og laata sier ecke þykia laangt.

En Riett-Trwadur Christenn Madur, er froodur i Guds Orde, Veit vel ad Lida og Lifa i sundur Løgmaaled og Evangelium, og Riettelega med þad ad fara. Hann gledur sig vid þann Naadar Saattmaala, sem hann hefur bunded vid Gud i Skijrneñe, Hann laangar og þyrster epter Kvølldmaaltijd DRottenns, So hanns Saal meige þar vid Endurlijfgast og nærast, og hefur Glede og Huggun i HErranum Christo. Hann huxar ecke par umm þenann Heim, Eda Heimsins Skiemtaner, helldur er hanns Ræda alla Tijma umm Lausnarann JEsum og eilijft Lijf, og gledur sig þar vid allt i Daudann.

2. J Annare Grein, Þegar so laangt kiemur, ad Madur verdur ad deya, og ecke er annad aa Ferdum,

Þa

Pa tekur sa Heidne eda Vantrwade til, Fastlega ad klaga Mañeskiuñar Eymd og Neyd, og siuttañ Sorgar Alldur, hier i þessu Lijfe, Hvad hañ giører ecke Rаanglega. Eñ hañ bijr sig ecke til Daudans, giører hvørke Ydran nie Yferboot, helldur møglar og mæler Gude i moote, ad hañ giøre Oriett, Þar hañ lætur Meñ ecke leingur Lifa.

Þar þvert aa moote hurar Riett-Trwadur Christeñ Madur uñ siñ Dauda, Hañ Harmar af Hiarta þad Fyrsta Fall, Er Hryggur og Sorgande vegna siña eigeñlegra Synda og Misgiørda, Og ad soddañ Refsingar Straff Daudans hlijtur yfer oss ad koma, Syndaña vegna, og seger þar fyrer af Audmiwku Hiarta: Eg vil giarnañ bera Reide DRottens, Þviad eg hefe Syndgad aa moote hønum, Mich. 7. Og eñ aptur: Riettlaatur er DRotteñ, og riettur er þiñ Doomur, Ps. 119. Giefande so Gude Dijrdena, ad hañ giøre oss øngvañ Oriett og bijr sig so til, og bijdur siñar Saalugu Dauda-Stundar.

3. Þegar sa Vantrwade hurar uñ Daudañ, Pa hrædest hañ, Skielfur og bifar, og er hræddur fyrer Ognarlegre Daudans Mynd, Holld og Blood kañ ecke añad ad giøra, hefur eingeñ Raad sñnr, Þviad Daudeñ er Mañlegrar Naatturu Ovinur, Seiñ rijsed tekur af oss øllum

Eñ sa Riett-Trwade lætur upp siñ Trwar Augu, og lijtur aa Daudañ, Ecke epter Løgmaale Guds, helldur epter þvi Heilaga Evangelio, Hefur Glede og Huggun i sijnum Endurlausnara JEsu Christo, Hvør ed Beiskleika Daudans hefur smackad fyrer oss alla, og hefur giørt hañ ad sætum Svefne. Hañ hefur þa Gledelegu Von, ad hañ mune ecke deya, helldur sofna wtaf, og ecke verda var vid Beiskleika Daudans, vegna

Sætleika þeirrar Huggunar, sem hañ hefur i Christo JEsu.

Þegar þeir Vantrwudu og Ogudlegu hura uñ, hvad Oskaplega liootañ og Vidurstyggelegañ Daudeñ giører Mañeñ, Hañ giører hañ Steindaudt Lijk, Kastar høñum i diwpa Grøf, og eys hañ Ohreiñre Molldu, Pa taka þeir til ad verda Dapier og Hryggver, Pa fellur øll Kiæte, Øll Hreyste, Peir taka adra Rædu, Sem giørde Xerxes Kongur, þa hañ heyrde talad uñ Daudañ, sloo hañ af þeirre Rædu, Segiande: Tølum ecke uñ Daudañ nie adra Hryggelega Hlute, Helldur hvad Gaman er og Skiemtelegt (Alijka er hiaa oss Heimskra Mañа Tal: Eg skal Lifa aa medañ eg lifi, Pess er gieted sem giørt er) Eñ sjaa Riett-Trwade hugar añad, Sier leingra frañ i Veigeñ, Giefur sig ecke par ad þvi, hvørsu Hrædeleg, Afskapleg og Griñ Daudañs Mynd er, Hugar ecke par uñ þad hvørneñ Daudeñ wtleikur Lijkamañ, og hvørneñ hañ hlijtur ad Rotna og Fwna, Job. 17. Helldur þeinker hañ og sier fyrer Hugskots Sioouer setur, hvørsu ad hañ mun aa Sijdasta Dege Dijrdarlega frañ koma og upprijsa Oforgeingelegur og lijkur Dijrdarfullum Lijkama HErrañs JEsu Christi sijns Lausnara, Philip. 3.

4. Þegar þeir Vantrwudu og Ogudhræddu vilia sem best bwa sig til Daudans, þa komast þeir ecke leingra eñ þad, Peir eru Hrauster, Fullhugader, Segiast ecke hrædast siñ Dauda, Aller verde ad Deya Einusiñe, Pad sie ecke ad giøra nema litla Stund, Par epter sie þad wte, 1. Reg. 15.

Eñ þeir Riett-Trwudu og Riettlaatu, Treysta ei uppaa siñ Holldlegañ Hraustleik, helldur aa hañ Styrk H. Anda, sem med þeim er, Og vita vissulega, ad Fridur Guds, hvørs Smeck þeir hafa fyrer Trwna fenged,

Hvør

Hvør og hærre og hæleitare er, Eñ vor Skilningur, Hañ mune vardveita þeirra Hiortu og Siñe i Christo JEsu til eilijfrar Sælnhiælpar, Philipp. 4.

5. Sæ Vantrwade eda Ogudlege er med ollu Verjulaus fyrer Daudanum þegar hañ kiemur, þar er eingeñ Trw, Eingeñ Von, Ecke nockurt Stadfastlegt Ord, Vid hvørt hañ meige sig stydia, Eingeñ Huggun, hvar med hañ kuñe sitt Hiarta eda sijna Samvitsku med ad stilla, Deyr añadhvørt wt af, sem Skynlaus Skiepna, sem hvørke hefur Mæl nie Vit, Ellegar med Vantrw og Skielfingu, Og vonar sier Einskis Goods af Gude.

Eñ sæ Riett-Trwade Christeñ Madur hefur sitt Hiarta fullt med Trw og Von til Guds, fullt med Ofegiañlegar Andvarpaner, Rom. 8. So hañ er Allareidu meir og framar i Eilijfu Lijfe, Eñ i þessu Stundlega. Þar med hefur hañ þad Huggunarsamlega og sañа Guðs Ord, Sem ei lijgur, Og ecke bregdst, Þad geimer hañ i sijnu Hiarta, Þar vid helldur hañ sig, Þar uppæ Treyster hañ Stadfastlega, Vitande ad þad mune skie, So sem Ordeñ hlijda, Og seger þar fyrer med stødugu Hiartans Trauste, Joh. 8.

## HErra JEsu, hvør sem helldur þijn Ord, hañ mun ecke siæ Daudañ Eilijflega.

6. Sæ Vantrwade klagar, Þegar hañ liggur fyrer Daudanum, hañ sie Alleina, hañ sie Yfergiefeñ, Forlæteñ, Frændur og Viner fordest hañ, Eingeñ vilie hoñum hiælpa.

Þar æ moote seger sæ Riett-Trwade: DRotteñ, Þegar eg hef þig, Þa hyrde eg hvørke uñ Himeñ nie Jord, Og þo mijn Sæl og mitt Lijf veikest og vanmegnest, þa ertu þo miñ Gud og Huggun mijns Hiarta, og mitt Hlutskipte, Psalm. 73. Þviat hañ veit vel, ad Mañleg

Hiælp

Hialp ſiodar ecke i ſlijkre Neyd, hvørſu good ſem hun er; Og þegar øll Mañleg Hialp er wte, Þa trwer hañ viſſulega, ad Gud muune hialpa hønum, Ja, hañ hefur Heilaga Þreñing i ſijnu Hiarta, og Heilaga Eingla i kriŋgum ſijna Soottar-Sæng, Sem vakta uppa hañs Saal.

7. Þegar þeir Ogudhræddu og Vantrwudu heyra ad Saaleñ Mañſins ſie Odaudleg, og epter þetta Lijf ſie añad Lijf, Þar þeir Riettlaatu muuu hafa Fognud og eilijfa Gledi, Eñ Ranglaater eilijfa Fyrerdæming, Kvaler og Pijſler; Þa hrædaſt þeir og ſkielfaſt wr Maata, Oſka ad ſlijkt være ecke ſatt, Og villdu giarnañ ad þeir ſkylldu alldrei af Dauda uppriſa; Þvi þeirra Vantrwad Hiarta ſeiger þeim: Ef ſo er, Þa verdur þu Eilijflega Fyrerdæmdur, Þar fyrer Oſka þeir ſier, ad þeirr hefde alldrei Fædder vered, Matth. 25.

Þar hvert a moote, eru Riett-trwud Guds Børn glød af Hiarta, Ad þeim er Añars Heims tilbwed eitt Lijf ad Eilijfu, Þar epter laungar þeirra Hiarta, Þeſs Oſka þau ſier, og Andvarpa þar epter, ad Chriſtur ſkule koma, og giøra ſnart Enda a þeſſu auma Lijfe, ſo ad þad Eilijfa mætte uppbyriaſt; Þvi þeirra Von er fullvijs þar uppa, ad þad Eilijfa Lijfed er Oumrædanlega betra eñ þetta, Rom. 5.

Soddañ Antitheſes (þad er Miſmunar Greiner millum goodra Maña og vondra) mæga miklu fleire fiñaſt og giøraſt, Af hvørium merkia ma, ad þar er ſtoor Miſmunur a mille Framferdis og Lifnadar Heideña Maña eda Vantrwadra (þo þeir hafe Heidarlega lifad) og a mille Framferdis Riettchriſtens Mañs, Þar med i Ødru Lage, hvad Olijkañ Afgaung hvørutveggiu hafa wr þeſſu Lijfe, Riett-trwader Chriſtner, og þeir Ydranarlauſu Hræſnarar, og Heimſins Syner, Hvad Meñ ættu alvarlega ad hugleida, og laata ecke af, fyrr eñ þeir hafa reynt og rañſakad ſialfa ſig,

hvørt þeir hafa þa sõñu og riettu Trw a JEſum Chriſtum vorn Lauſnara og Frelſara, Ja, Einn Riett-Chriſteñ Madur ætte ecke ſig til Svefns ad leggia fyrr eñ ad hañ med Bæn og Akalle til Guds, Og med Daglegre Uñhuxun og Ydkan Chriſtelegrar Trwar, og fyrer Naad og Styrk H. Anda kiæmeſt ſö langt, ad hañ elſkade meir bad Eiliſſa eñ þad Stundlega, ad hañ hefur meire Aſt og Gyrnd til Riettlætis, eñ Synda og Ranglætis, ad hañ þecker riettelega þetta Syndſamlega Liif, og auma Viſtarveru ſaanijtra Liifdaga, Hafe Gyrnd og Forleinging epter eiliiſu Liiſe, og elſke JEſum Chriſtum af Hiarta, Og Daglega vænte og bidie uñ hañs Tilkomu, Take Vara a ſijnu Kalle og Embætte med Trw og Dygd, Og ſie alla Tijma reidubweñ upp ad leyſa, og fara af þeſſum Heime, iñ i þad ſaña Fødurland Utvalldra Maña, Sem er Himerijke.

Med þeſſum Hætte eigum vier aller ad bwa oſs til eins Chriſtelegs Dauda, Og alla Daga ad giøra oſs Olijka Vantrwudum Heidingium, Tyrkium, Papiſtum, Gydingum, Ydranarlauſum Hræſnurum og Veralldar Sonum, Af hvørium ſumer vita ecke þar af HErranum Chriſto, Sumer vita nockud, eñ vilia þo ecke vita, Sumer vita vel, eñ vilia þo ecke medkieña hañ fyrer ſiñ Lauſnara, Sumer eru forkuñar vel Chriſtner i Muñenum, eñ ecke i Hiartanu, Þeir hrooſa ſier af Trwñe, eñ læta hana þo ecke i Lioosſe med goodum Verkum, Tala uñ eiliiſt Liiſ, eñ kieña ecke ødrum hvørneñ Madur eige þar iñ ad komaſt. Eñ ſkule Meñ allt þetta læra, Þa verda Meñ ad leſa þad, heyra þad og læra, og ydka ſig þar iñe. Þar er fyrer Hende (Lof ſie Gude) ſw heilaga Biblia, Hvøria hvør Madur maa hafa, og leſa ſem vill. Þar eru og margar agiætlegar Bækur, wtgeingnar a Almeñelegt Moodurmaal, wr hvørium Madur maa taka allra Handa Gagnlegañ Lærdoom og heilnæmar Hugganer, og goodar Amiñing-

ar ſem Naudſynlegar eru, til ad liſa Chriſtelega, og deya Gudlega.

Og þo eg reikne mig hiñ allra miñſta aa medal JEſu Chriſti Pienara, og hrooſe mier ei af nockrum Hlut, nema af Naad Guds; Segiande af allre Audmykt med S. Paale: Ecke eg, helldur Naad DRottens ſem med mier er, og etc. Af ſoddañ Naad miins Lauſnara JEſu Chriſti, hef eg þetta fyrer Hiaalp H. Anda ſkrifad, og wtgaanga laated þeñañ Bækling, uñ Chriſtelegt Lijf og Framferde og Saalugañ Dauda og Afgaang, Vonande ad ſlijkt Verk mune verda Gude til Dijrdar, Mier og miinum til Lærdooms og Huggunar, Eñ Einfølldum Saalum til Lijfs, Leidriettingar og Undervijſunar.

Paa Vijſu og Lærdu bid eg, þeir hallde til gooda einfallda Rædu, Pvi þeſſe Bæklingur er ecke fyrer þaa giørdur, Sem bæde eru Vijſer og Lærder, Frooder og Formeñter, og goodra Booka Fiølda haſa, Helldur fyrer Einfallda, Lijtt lærda, Paa bid eg þeir ydke þeñañ Bækling, og elſke og legge aa Hiartad þad hier ſtendur, Pa veit eg viſſulega, þeir munu faa nockud Gagn hier af. Par og ſem Preſtar eru ecke naalæger alla Tijma þeim ſem ſiwker eru, þa kañ ſaa Siwke ſiaalfur ad taka ſier Hugganer wr þeſſum Bæklinge, Eda laata leſa fyrer ſier þad hañ vill, ſo hañ blijfe ſtødugur i Trwñe og Bæna Akallenn, Og bijde ſo ſiñar Saalugu Stundar, med Von og Poleñmæde. Pa Naad veite oſs øllum Myſkunſamur Gud, fyrer ſiñ Son JEſum Chriſtum, Amen.

M. M.



Auguſtinus.

Miñ Gud, Lat mig deya, ſo ad eg meige ſiaa þig. Eg hirde ecke ad lifa, Eg vil helldur deya, ſo eg meige ſiaa miñ Lauſnara JEſum Chriſtum.

Bernhardus.

Ad ſiaa ecke Gud, þad yfergeingur allar Helvijtes Kvaler og Pijſler.

Auguſtinus.

Oh! hvad ſæll er eg þa, þegar eg maa koma ad ſiaa og ſkoda Guddoomlegañ Dijrdar-Lioома.

Lutherus.

Ad ſiaa og lijta Gud i Himnaña Rijke um̃ eitt Augabragd, Þad mun betra vera eñ øll Veralldareñar Glede, Þo ad han ætte ad vara i Þuſund Ar eda meir.

Heilſu-



# Heilsusamleg

## og miøg good og gagnleg Undervijsan, Hvorneñ Madur skal af Guds Orde læra, ad Lifa Gudlega og Deya Christelega.

## I. Capitule.

Hlijder uppaa Iñehalld þessarar Bookar, Og skijrer fraa, Hvørsu ad vier erum, Ei ad eins Daudleger, Helldur erum vier Ovijsser þar uppaa, Hvønær, Hvar, og med hvøriuṁ Hætte vier verdum wr þessum Heime burt kallader.

Seig þu mier i stuttu Maale, hvad eg skal læra af Guds Orde, og øllum þeim Predikunum og Kieñingum, sem eg heyre Ar og Dag:

DU skallt læra ad Lifa Gudlega, og Deya Christelega, Psalm. 90. Eccl. 12.

Þar til hiaalpe mier Gud, ad eg giete so lifad hier i Heime, ad eg meige lifa Añars Heims Eilijflega, Amen.

(1.) Hvad et Gudlegur Lifnádur, Eda hvad er ad Lifa Gudlega?

Pad er ad þeckia Almattugañ Gud Riettelega, og sialfañ sig, Exod. 20. Ps. 76. Jer. 9. Deut. 6. Matth. 28.

1. Fyrst skalltu læra ad vita, ad Gud DRotteñ er Eirn eilijfur Gud i siñe Essentia og Veru, eñ Preñur i Persoonunum, Sem er, Gud Almattugur Fader, Gud Sonur, og Gud Heilagur Ande. Ps. 60. Joh. 17. Joh. 1. Og a medal þessara Þriggia Persoona hefur su sem er i Midcd, pad er Sonnreñ, vered sendur i þeñañ Heim, Og hefur teked a sig Mañdoomlega Natturu, og er ordeñ vor Endurlausnare.

2. Par næst hlijtur hvør og eirn Christ eñ Madur ad þeckia sialfañ sig riettelega, og vita, ad vier erum fyrer Guds Auglite aumer Syndarar, og andstyggeleger Glæpa-Meñ, verduger eilijfrar Glötunar og Fyrerdæmingar, Ef ad vier giørum ecke alvarlega Ydran, og trwum a Christum, og verdum nijer Meñ, Ephes. 2. Elskum Gud af øllu Hiarta, og vorn Sam-christeñ Naunga sem oss sialfa, so leinge sem vier lifum.

Almatt-

O Almættugur eilijfur Gud Fader, Sonur og Heilagur Ande, Preñur ad Personum, Eirn ad Guddoomlegre Veru, Eg bid þig, Kieñ þu mier ad þeckia þig Riettelega, So og lijka siaalfañ mig, og i sijkre Kyñingu ad vara og prooast Daglega, uppaa þad eg kyñe so ad haga mijnum vesolum og stuttum Lijfs-Stundum, ad þier sie þægelegt og Loflegt, og mier siaalfum Haaskalaust fyrer Lijf og Saal, Amen.

3. Hvad kallast ad Deya Christelega?

Ad Deya Christelega, er ad enda sijna Lijfdaga i riettre og sañre Trw, i Hendur ad fela HErranum JEsu Christo sijna Saal, og med Hiartans Girnd og Forlengingu epter eilijfre Saaluhiaalp, hægt og gledelega ad sofna, og i burt ad fara wr þessum Heime, Luc. 2. Phil. 1. 1. Tim. 4.

HErra JEsu Christe, Þu alleina veist nær eg skal deya, Eg bid, Gief þu mier Christelega Dauda-Stund, og tak mijna Saal i þijnar Hendur, Amen. Act. 7.

4. Hlioota aller Meñ ad Deya?

Jaa vissulega, Þvi so stendur skrifad, Aller Meñ eiga Einusiñe ad deya, Eñ þar epter aa er Doomureñ. Heyr þu þad

mijn Saal, Og laat þier þad til Hiartans ganga, Eige aller Meñ Eitt Siñ ad deya, Heb. 9. Þa mun þad og lijka henda þig, Þviad so stendur skrifad hiaa þeim Vijsa Mañe Syrach, J Dag mier, aa Morgun þier, (Seiger hvør Frañilideñ) Merk þad vel Saal mijn sem Ritningeñ talar, ad Einusiñe eige Madur ad deya, eñ ecke i Tvær Reisur. Þviad ef so være aasett, Meñ ættu ad deya i Tvær Reisur, Þa mætte bæta þad i seirna Andlaatenu, sem aabrast i þvi fyrra, og deya þa betur, Eñ þad er ecke so. Hvør hañ deyr illa Einusiñ, Saa er ad Eilijfu illa daudur.

O Drotteñ miñ Gud, Laat þu mig læra, ad mijner Dagar hafa Enda, og ad mijner Lijfdagar sieu aasetter, so eg hlijt i burt ad fara. Miñ Gud, Kieñ þu mier ad Hugleida, Þad eg hlijt ad deya, So ad eg verde Forsiaall, oglære þa riettu Konst, Hvørneñ eg aa ad Deya Christelega, Amen. Psalm. 90.

5. Eñ ef so være, ad Gud opeñberade oss vora Dauda-Stund, so ad vier mættum i riettañ Tijma bwast vid Daudanum, og verda reidubwner.

Mijn Saal, þu skallt vita, Þier er ecke alletnasta þijn Daudastund huleñ og O-

vltañleg, helldur añad fleira þad Daudanum vidvijkur, so sem skrifad hafa þeir Gömlu. Fyrer oss Daudlegum Mönnum er hulen ecke ad eins vor Daudastund, helldur og eirnen i hvörium Stad, a hvörium Tijma, J hvörre Skyckan, og med hvörium Hætte hañ grijpur oss i burt. Uñ þessa Fioora Hlute ætte hvör Madur vel ad huxa.

O HErra Gud, Hvörsu vijdt og breidt eru þijnar Huxaner fra vorum Huxunum, og þijner Veger fiærstæder vorum Vegum? Ja ad vijsu, so hatt sem þad Himenen er fra Jordunne, so haxer og fiærlæger eru þijner Veger hia vorum Vegum, Esa 55. Veit og gief þu, ad eg Daglega kome fram fyrer þig, med Hiartans riettu Trwnadartrauste, og bidie þig uñ Saaluga Daudastund, hafande þad Traust, ad þu muner ecke laata yfer mig koma añad en þad mier gott og gagnlegt er fyrer Lijf og Saal.

6. Hvörnen skal eg hid Einfalldlegasta huxa uñ þaa Fioora ædurnefnda Hlute?

J þañ Maata. 1. Fyrst er þier Saxla mijn Ovitañlegt a hvörium Dege, hvörre

hvørre Stundu, Eda æ hvøriu Angabragde Gud vill þig burtkalla, hvørt þad verdur æ Noottu eda Dege, ad Kvøllde Dags eda ad Morgne. Ad vijsu kañ Gud audvelldlega ad læta oss fæ ad vita þad ædur eñ þad skiedur, Eñ hañ vill ecke giøra þad; Þvi hañ sier þad (mijn Sæl) vier auner Meñ erum so spillter og fordiarfader af Syndeñe, og stundum ecke añad eñ þad sem er Veralldlegt og Holldlegt, So ad ef vier vissum vora Daudastund fyrer, þa mundum vier ecke huxa miked uñ Gud, nie ad elska hañ og Ottast, Eda hañ ad tilbidia og ækalla, eda giøra nockra Ydran, fyrr eñ vor Daudastund kiæme. Skyllde Madur þa hid Fyrsta giøra Ydran, þa hañ veit hañ æ ad deya, Þa yrde sw Ydran miøg vanskickañleg, so sem þad gamla Mæltæke vottar: Sein Ydran er siallðañ soñ. Þar fyrer er oss þad ecke Skadlegt, helldur Gagnsamlegt og gott, Þo Gud læte oss ei vita vora Daudastund, so vier helldur lifum i Otta DRottens alla Daga, So sem Mæltæke vort hlioodar: Þvi dylst Eirn Dagur, ad aller skulu hrædast.

O HErra

O HErra Gud! Hvørsu Hiegoomlegur Hlutur er Mañskiepnañ, Eñ lifer þo Athugalaust, huxar ecke par uñ sig, Hañ verdur sem Job talar, Fæddur af Kvinnuñe, Lifer skaña Stund, og er fullur Eymdar, hañ reñur upp sem Bloomstur og fellur af, Og lijdur i burt sem Skugge, og blijfur ecke i sama Stad, Hañ hefur siñ ætsettañ Tijma, og hañs Mæanadar-Dagar eru fyrer þier. Þu hefur sett hønum Takmark, yfer þad kiemst hañ ecke, Job. 14. DRottenñ miñ Gud, Þu sem epter þessu Guddoms Raade lætur mig ecke vita mijna Dauda-Stund fyrer, Laattu mig alldrei so vera, ad eg giøre ecke Ydran og Yferboot. DRottenñ, þu dylur mig þeirrar Stundar sem eg skal burt fara; Gief ad eg hage og hegde so mijnum Lijfdøgum, ad eg Dag og Noott æ hvørre Stundu verde fundenñ Reidubwenñ til ad skilia vid þetta auma Lijf, Amen.

2. Þar næst veitsiu ei mijn Sæl, hvar Daudeñ mune koma og taka þig burt, Hvort þu ert heima, eda i Framande Stad, hvort þu ert wte eda iñe, æ Sioo eda Lande, æ Eing eda Akre. Ad vijsu mijn

Sæl,

Saal, Pitt Glas reñur alltijd, Stendur alldrei kyrrt, Og eingeñ Madur veit hvørt hañ lifer þad wt. Daudeñ fylger oß so sem Skuggeñ, hañ situr um̃ oß hvar hellst vier erum, og leitar vid hvar hañ faae oß høndlad. Ef þu villt nu vera forsiaall Þienare, So vertu bweñ vid hönum alla Tijma og Stunder med saññre Hiartans Ydran.

GJef þu mier DRotteñ miñ, ad eg vite og vidurkieñe, þad eg i øllum Stødum er aumur Madur og Daudlegur, og ecke i nockrum Stad O-hræddur fyrer Daudanum, Þviad Allstadar tekur hañ Vara aa mier og situr um̃ mig. Hiaalpa þu mier, ad eg sem eirn forsiaall Þienare sie ecke var bweñ vid hönum, helldur ad eg alla Tijma hure um̃ hañ, og sie Reidubweñ med riettre Ydran, hvar hellst hañ hitter mig.

3. J Þridia Maata veitstu ei mijn Saal, J hvørre Stickan DRotteñ kallar þig, hvørt þu ert þa Sofande eda Vakande, Kaatur og Gladur, eda Graatande, Druckeñ eda O-druckeñ, Reidur eda Fridsamur, verande i Verалldlegu Starfe, eda Andlegu. Þar fyrer mijn Saal, Vakta

þu

þu þig, og laat Daudañ ecke fiña þig i neckre soddañ Skickan, i hvørre þu villt ecke giarnañ deya. Miñstu hvad Syrach seiger, hura þu uñ ad Daudeñ dvelur ecke, og vel veitstu hvorn Saattmaala þu hefur vid Daudañ bunded. Jaa ad vijsu mijn Saal, J hvørn Handa Maata, eda i hvørre Skyckan Gud fiñur þig, So mun hañ og dæma þig.

MJñ Gud og DRotteñ, vardveittu mig fyrer Athugaleyse, og ollu illu Framferde, so ad eg life ecke epter Muñi og Maga, sem þeir Ogudlegu, sem hvørke hura uñ Himerijke nie Helvijte, Helldur veit þu mier þad, ad eg Nætur og Daga, Life og hegde so mijnu Lijfe og Frañferde, ad eg aa hvørre Stundu sie til Reidu, þegar mijn Dauda-Stund kiemur, Amen.

4. J Fioorda Maata, veitstu ei mijn Saal, hvørt þier verdur auded ad deya aa þiñe Soottar-Sæng, Eda med hvøriu Soottarferle Gud vill þig i burt kalla, Þu veitst ei fyrer, hvørt þu munt falla fyrer Vopnum, farast i Ellde, druckna i Vatne, verda fyrer Skridum, eda Voveiflegum Skada. Margur seger so, þegar eg verd

siwkur,

siwkur, þa vil eg ydrast og betra mig, Eñ hañ veit þo ecke, hvort honum verdur þess auded ad liggia aa siñe Soottar-Sæng. Hvorsu mørg Dæme hofum vier, Hvad mørgum Daudeñ hefur braadlega burt kipt, aadur eñ þad þeir hafa siwker orded?

Gud betre og naade, hvorsu fallvallt er Lijf vort aumra Maña, Eingeñ, Eda allfaaer taka sier Dagleg Dæme og Ofarer añara til Hiarta, Vier erum so sem Saudur i Slaatrunar-Riett, þa Eirn edur Añar verdur wt leiddur under Slaatrunar Hnijfeñ, Pa hura hiner sem epter eru ecke par þar uñ. Fuglarner sem þo eru skynlauser, þeir forda sier Haaskanum, Og ef Eirn af þeim verdur skoteñ, Pa flya hiner adrer i burt, Og fara þaangad sem eingeñ Haaske er. So ættu og Meñ ad giøra, Vier høfum Dagleg Dæme fyrer Sioonum, hvørsu ad Daudeñ skijtur Bana-Pijlu siñe epter þeim og þeim, so þeir falla, samt eru hiner adrer Athugalauser. Eñ nu mijn Saal, Vakta þu þig, forda þu þier, og flij fraa Syndunum, og til Riettlæteslns, wr Helvijte, til Himerijkis, wr þessum Illa og Ogudlega Heime, til þijns

Frelſara, ſem er JEſus Chriſtus. Legge nu Daudeñ Or ad Streing, og ſkioote ſiñe Bana-Piilu ad þier miin Saal, Þa vertu Ohrædd og Okviideñ, og þo hañ take Liifed af þier, Þa halltu þier med faſtre Trw, vid Hertogañ Liifſins þeſs eilijfa, hañ giefur þier meira og miklu betra, eñ Daudeñ nockurn Tijma kañ af þier ad taka.

Þar fyrer miin Saal, Drag þu ecke undañ þijna Ydran, ad medañ þu gietur eñ nu ſyndgad, Skioot þu ecke ad Freſt ad verda Froomur, og biid ecke med þijna Yferboot og Betran allt i Daudañ.

HErra JEſu Chriſte miñ Endurlauſnare og Frelſare, Vardveittu mig fra ſtraungum og ſtriidum Siwkdoome, og hrædelegum Dauda. Fall þu ecke yfer mig i miinum Syndum, og laat mig ecke Ydrunarlauſañ deya, Gief þu mier hæga Daudaſtund, ſo ad eg hafe Vit og Skyn allt i Daudañ, til ad akalla þitt Heilaga Nafn, Og a Hendur ad fela þier miina Saal, Amen.

* * * * * *
* * *

2. Cap.

# II. Capitule.

Hañ Kieñer þa Riettu Konst, Ad Deya Christelega, Og talar um̃ Priæ Parta Eda Greiner sam̃rar Ydranar.

MEd þvi vier erum alldrei Ohrædder um̃ oss fyrer Daudanum, þa er Naudsyn ad aller Meñ, Unger og Gamler, Smaaer og Stoorer, hure Daglega um̃ ad læra sem best þa Konst, ad deya Christelega og Gudlega.

Vijst liggur þar Magt aa, og þad kieña oss Dagleg Dæme þeirra sem burt verda kallader, Þvi seiger Syrach so: Hura þu um̃ hañ, Hvorneñ ad hañ er daaeñ, So blijtur þu i sama Maata ad deya, J Dag mier, aa Morgun þier, Syr. 38. Og eñ aptur seger Syrach: Kongur i Dag, Daudur aa Morgun, Syr. 10. Jaa mijn Saal, Daudeñ er aalijka so sem Slaattumadur i Tune, hañ burt tekur med Liaanum allt þad fyrer verdur, hañ hirder ecke um̃ hvort þad er Gras eda Bloomstur, Roos eda Lilia, hañ Hurar ecke þar um̃, hvort Liliu-Grøseñ eru ung, Rij-vaxeñ og føgur? Eins gløres Daudeñ, hañ hurar hvorke um̃ Æsku eda Elle, Ei um̃ Vort

nie

nie Vænleik, Eckert Slot, Eingeñ Fest-
ing eda Kastale er so sterkur eda hær, ad
hañ komest þar ecke iñ, hañ lætur ecke þijda
sig nie blijdka med Gulle eda Silfre, Eda
nockrum Gæfum, Og þo þu giæter giefed
hønum øll Heimsins Audæfe, þa fær þu
ecke af hønum ad bijda þijn eda giefa þier
Frest hælfa Stund. Slijkt ætte hvør
Madur ad huxa Daglega, og leggia sig ei
til Svefns, fyrr eñ hañ hefur vel og Riette
lega lært þa Sælugu Konst, Ad Deya
Christelega.

MJñ Gud og Fader, Hvad er Madureñ
neina Hiegoome, og ecke par, Hañs
Tijme og Herlegheit lijdur i burt sem Sku
gge, Psalm. 144. Og hañ veit ei hvørt
hañ mun deya Ungur eda Gamall, hañ
kañ hvørke med Magt nie Vallde ad veria
sig fyrer Daudanum. Hiælpa þu mier
miñ Gud, ad eg i fræ Barndoome, huxe
uñ þetta alvarlega, og gænge miñ Veg
Ostraffañlega, og breyte epter þijnu Orde.
Stijr og stioorna mier med þijnum Anda,
so eg treyste ei uppæ mijna Æsku, Heil-
brygde, Styrkleik, Rijkdoom, Eda hvad
hellst añad vera kañ. Gief þu mier ad eg

Daglega Dags hupe um̃ Merg og Mein-ing þijns Lærdooms, og þiña Bodorda, Psalm. 119. Otteſt Gud og halldę hañs Bodord, þvi þad er Skyllda allra Maña. Þviad allar Giørder leider Gud i Lioos, fyrer Doom, og þad leynt er, bæde Gott og Jllt. Miñ Gud, ſkrifa þu þetta a Spia-lld Hiarta mijns, Og gief ad eg ecke ad eins vite þetta, helldur giøre þad, og breyte þar epter alla mijna Lijfdaga.

2. Hvørneñ ſkal eg þa bwa mig til Chriſte-legs Dauda og Afgaangs?

Saa ſañe og riette Underbwningur til Eins Chriſtelegs Dauda, Er Daglegt og Chriſtelegt Ydrande Mañs Framferde, Matth. 24. Villtu nu mijn Saal faa ſaalugañ Chriſtelegañ Afgaang, þa giør-du ſaña Ydran, og drag hana ecke undañ til ſeirne Dagaña, Þviad ſo ſeger Rit-ningeñ: Þu um̃lijdur Mañaña Synder ſo ad þeir betre ſig, Sap. 11. Og eñ apt-ur, Hvør hañ er ſtadfaſtur allt til Aefelo-ka, ſaa ſkal verda Saaluhoolpeñ.

Lofadur ſiertu DRotteñ miñ Gud, ad þu hefur ecke Gyrnd a vorum Dauda, nie vorre Gløtun, helldur villtu ad vier ſkul-

um sitwa oss til þijn og lifa, Ezech. 18. Hiaalpa þu mier miñ Lausnare JEsu, so eg skioote þvi ecke a Frest ad snwa mier til þijn, og drage ecke undañ mijna Ydran fra Einum Dege til Añars, Syr. 5. Þvi hefur þu lofad ad vera Naadugur og Myskunsamur, Eñ Morgun-Degenum hefur þu mier ecke lofad, So gief þu mier ad eg giøre Ydran a þessum Dege, og snwe mier til þijn, So ad eg ecke verde a Morgun hvatskeitlega af Daudanum burt gripeñ.

3. Hvad er sw Rietta saña Christielega Ydran?

Ydraneñ er ecke añad, eñ ad Madur laate af Syndeñe, og snwe sier til Guds af ollu Hiarta. Eñ þo er hun faleñ i þessum Þremur Greinum.

1. Þad Fyrsta, Ad Madur laate og med kieñe sijnar Synder, Og ydrest þeirra af Hiarta.

2. Þad Añad, Ad hañ falle ecke i Orvilnan vegna Syndaña, helldur trwe a JEsum Christum, sa ed bætt og betalad hefur fyrer vorar Synder, treystande med Huggun og Glede Hiartans uppa hañs Naad og Myskun.

3. Pad Þridia, Ad Madur læte i Liooſe ſijna Trw, med Daglegre nijrre Hlijdne og goodum Verkum, bæde fyrer Gude og ſo Mõñunum.

MJñ Gud og DRotteñ, Vel veit eg, ad med eigeñlegre Skynſemd og ſiaalfs mijns eigeñ Kroptum kañ eg ecke ad giora ſaña Ydran, eda ad ſnwa mier til mijns Guds og DRotteñs. Eg bid þig, Kom þu vid Hiarta mitt, med þijnum Hellaga Anda, ſo mijn Ydran ſie eingeñ Hræſne, og mijn Trw eingeñ Hlegoome, Helldur ſöñ og alvarleg, ſo ad hun alla Tijma mætte þeckiaſt af ſijnum riettum Avøxtum.

4. Utſkijr þu fyrer mier, og giør liooſar þær Priaar Greiner ſañrar Ydranar, Og gief mier Avijſun, hvørneñ eg eige Daglega ad ydka mig, og hegda mijnu Framferde, So ſañre Ydran vel hæfe.

Pad vil eg giarnañ giora.

FYRſte PARtur SAñrar YDranar, er alvarlegt Ydranar Angur, Sorg og Hrygd, og Harmur giørdra Synda, Pviad nema Madur jaate og medkieñe Syndena, þa er Trweñ ecke riett, og ecke añad eñ Hræſne, Par fyrer lærdu fyrſt ad þeckia þijna Synd, og ad hura vel uñ Riettlætis

ettlætis Reide Guds yfer Synd þiñe, Og laat þitt Hiartans Angur i Liooſe med þeſſum eda hvilijkum Ordum.

MJñ Gud og DRotteñ, HErra JEſu Chriſte, Mikel er Skielfing mijns Hiarta, Pegar eg hura uñ mijna Dauda-Stund, Stoor er Angiſt Saalar miñar, þegar eg hugleide þiñ ſtraanga Riettlætis Doom, Pviad fyrer Daudanum er eg a..dret Ohræddur, veit og ecke aa hvorre Stundu þu munt kalla mig fyrer þiñ Doom.

Avi! Avi! Hvorſu er mitt Hiarta olldungis ſpillt og fordiarfad, Hvorſu hrædelega og hryggelega hef eg ſyndgad, Hvorneñ kañ eg aumur Madur ad ſtandaſt fyrer Guds Auglite? Miñ Gud! Siaa þu, þar hef eg þijn H. Tiju Bodord mier fyrer Augum, og i miñe Samvitſku, Vitande ad þau eru Regla þijns eilijfa Riettlætis, Sem vijſar mier hvorneñ eg aa lijkur ad vera þijnum Hellaga Villia, So framt ſem eg vil ecke verda eilijflega fordæmdur, Pitt Logmaal þad ſijner mier þa hryggelegu Fordiorfun og Spilling miñar Nátturu, og þañ Fordæmañlega Skada,

hvørn vier feinged hofum af Falle Adams, Og so sem i Arf teked epter hañ, so ad mitt Hiarta og Hugskot er med øllu gagnstæd-legt Guds Heilaga Løgmaale og hañs Vilia.

Og i Sañleika fiñ eg og medkieñe, ad eg er i Uppruna Syndeñe gieteñ og fæddur i Heimeñ, og af Syndsamlegu Sæde er eg asladur, og i Syndeñe hefur mijn Mooder vid mier teked, Ps. 51. Og so sem Spa-Madureñ seiger: Allt Høfuded er siwkt, Allt Hiartad er kraunkt, Esa. 1. Jaa ad vijsu, mille Hæls og Hnacka er eingeñ He-ilsa nie Heilbrygde med mier, So er allt af Syndeñe fordiarfad sem med mier bijr. Skañ! þu Diøfull, Skañ! þu Helvijtske Mordinge, Hvørsu saargrætelega hefur þu wtleiked mig, Miñ Skilning hefur þu for-blindad, Miñ Vilia hefur þu mootþrooañ-legañ giørt, Mitt Hiarta og allañ miñ Maatt hefur þu sært og sundursliteD.

MIñ Gud, Eg medkieñe, Eg fiñ og for-merke, ad i mier, Pad er i mijnu Hold-de, bijr eckert Gott, Rom. 7. Pad er allt-samañ ecke nema Beniar, Saar og Pro-te, Kaun og Kyle, Esa. 1. Og þo ad eg hefde

hefde alldrei syndgad a Efe miñe, Pa er eg þo samt Reideñar Barn, vegna Uppruna Syndareñar, vegna hvørrar eg yrde eilijflega forkastadur fraa þijnu H. Auglite.

Eñ Gud naade, hier er ecke ad eins Uppruna Syndeñ a Ferdum, helldur hefe eg syndgad fraa blautu Barns-Beine, og broted af þijnum Tiju Bodordum, og alldrei þau hallded, og vegna miñar spilltrar Naatturu, hefe eg ei neitt af þeim gietad hallded, Helldur hefe eg þwnglega og hrædelega þar a moote giørt med syndsamlegum Girndum og Fijsnum, Syndsamlegum Huxunum, Ordum og Giørdum, Syndsamlegu Framferde, Athæfe, Hroope, Kalle og Hiegooma moote mijnum Gude og Naaunganum. Eg skil þad og eirneñ og veit, ad eingeñ Synd er so smaa og lijtel, Og þo þad sie ecke nema hin miñsta Huxan, þa hef eg þar med forþienad eilijfañ Dauda og Endalausa Fyrerdæming. Hier med þa er eg hræddur fyrer Otelíañlegum mørgum leyndum Syndum mijnum, Lijka eirneñ fyrer Unadooms Syndum mijnum, sem nu ad þessu Siñe kuña mier ecke i Hug ad falla. Jaa ad

vijsu, Þar eru margar Synder og Misgiørder, sem eg hefe ecke halldeð fyrer Synd, helldur Goodgiørd. Allt þetta nu uppkaled, og eñ fleira mun seirna meir opeñbert og auglioost verda, og faa siñ rietta Lit, og verda Kole svartara fyrer mijnum Augum.

Hvad er til Raada? Avi! Avi! hvørt skal eg flija? Hvørt skal eg fara? Miñ Gud, Ef þu villt gaanga i Doom vid mig, so sem nu er eg, þa verd eg wtskwfadur fraa þijnu Auglite. Avi! mijn Saal, Þu Avartarlaust Trie og fwed, Makleg ertu ad þu siert upphøggveñ og køstud i eilijfaň Elld. Þu ert saa Fortapade Sonur, þad illa og Ohlijduga Barn, Luc. 15. Hvørneñ hefur þu yfergiefed þiñ gooda Fødur? Hefur eted Draf med Svijnum, Og kvolad þig i allskins illa lucktande Saurendum og Syndum, hvørneñ villtu forsvara þig aa þeim Dege, þa þu hlijtur ad giøra Reikning fyrer allar þijnar Giørder, og fyrer hvørt Onytiu Ord, sem þu hefur talad? Matth. 12.

Þu hiñ Jlle Þioon, sem ert skylldugur uñ Tiju Þusund Punda, sem Otelianlega Þusund-

Þusundsinnum hefur syndgad Gude a mote. Þu ert saa Otrwe Raadsmadur, sem illa hefur fared med Gaafur Skynsemdar þinnar og Vits þijns, Bølvadur ert þu, Þviad þu hefur ecke hallded þad sem i Guds Løgmaale skrifad steudur, Deut. 28.

Vei, Vei mier aumum Manne! hvad hef eg giørt, hvørsu saarlega hefe eg syndgad? O! þu Reide Almaattugs Guds, fall þu ecke yfer mig, Þu Grimd hinns Allra Hædsta, Miøg ertu mier O-bæreleg, hier er Neyd og Plaaga, Eymd og Angist aa allar Sijdur. O! þu hin auma, syndsamlega, andstyggelega og illa lucktande Saal, Gramur ætte eg ad vera staalfum mier, ad eg er orden slijk Svyvirding fyrer mijnum Gude, Jaa ad vijsu minn Gud, Overdugur er eg ad eg skule Madur kallast, Eda ad gaanga umm þijna Jord. Þad være eingenn Undur þo Jorden opnade sig, og svelgde mig i sig, sem Dathan og Abiram, Num. 16.

Vertu hrygg og hrædd hin auma Saal, graat þu og veyna vesæll Madur, bloodugum Taarum ætter þu med riettu ad graata þinna Synda vegna, og af ollu Megne

og Mætte ætter þu ad vera hryggur, hrædd ur, skialfande og sorgande, Eñ vei þijnu hardsvijrudu Hiarta, þad kañ ei ad hrædast nie skielfast. Vei þijnu sofande Hiarta, sem ecke kañ ad vakna vid Guds Ognarlegar Heitingar. Slijkt maa heita daudlegur Svefn, hvørium øngvar Elldingar, Reidarþrumur, Skruggur nie Skielfingar straanga Guds Løgmaals faa burt hrunded. Eñ vakna þu mijn Saal, vakna þu nuñ sijder og giør Ydran, so ad þu verder ecke af Guds Reide gripeñ i þijnum Syndum. Siaa þu, Dagur DRottens er i Naand og fyrer þijnum Dyrum, so sem Taal-Snara vill hañ koma yfer þig, Siaa, Daudeñ grijpur þig, og aa Augabragde hreiñer hañ þig i burt.

Þar fyrer giet eg ecke þagad, Eg hlijt ad jaata, og fyrer mijnum Gude i Liooße ad laata, Allt hvad mier bijr i Briooste. Gud giæfe eg hefde gnoog Vatn i mijnu Høfde, Og ad mijn Augu være Taara-Bruñur, So ad eg Dag og Noott kyñe ad Syrgia og Graata mijnar Synder, Oh mijn Saal! Graat þu, laat Ydranar Taareñ reña þier af Augum Daga og Nætur

so sem Lœk, Liñ ecke, og lœt þijna Augna-Hvarma ecke hvijlast, Þviad sa Allra Hædste er gramur vegna þiña Synda.

Aññar Partur sañrar Ydranar.

5. Skal þa Madur i soddañ Angist og Harme Orvilnast og efa Guds Nœd?

Þad forbioode Gud. Helldur fylger nu epter sa Aññar Partur Christelegrar Ydranar, sem er su saña og rietta Trw, a vorn Lausnara JEsum Christum, sa ed hijtalad og borgad hefur fyrer vorar Synder, og oss hefur vid Gud forlijkad. Hier skalltu hressa þig upp aptur, og lœra ad hugga þig af Hiarta i þijnum liwfa Lausnara JEsu Christo, Med þessum eda þvilijkum Ordum.

ELskulege Gud og DROtteñ JESU Christe, þu Allra Sœtaste Endurlausnare, Stoorlega er mitt Hiarta Sorgbited, og þunglega kvelst Saaleñ i mijnum Lijkama. Miñ Gud, hvørsu hefur þu sundurmared øll mijn Bein sem Leon? Eg bid þig af Hiarta, ad þu forsmaaer ei mitt Sundurmared og Hrygdarfullt Hiarta. Miñ Frelsare, Riettu ad mier þijna Myskunar Hønd, Drag þu mig upp wr Saur

Synd-

Syndaña, so ad eg sockve ei nidur i ofmikled Diwp Hrygdareñar. Ad soñu DRottteñ, Eg þacka þier miñ Gud, ad þu hefur aahrært mitt Hiarta, so ad eg veit nu og medkieñe mijna Synd, og þu hefur giefed mier Riettelegt Hiartans Angur, so ad eg er nu Daglega hryggur ordeñ, mier sialfsum til gooda, 1. Cor. 2. Þvi Gudrækeleg Hrygd verkar Ydran til Saaluhiaalpar, hvørrar eingeñ ydrast, 2. Cor. 7.

Hvar mun eg nu eiga ad leita Huggunar fyrer mijna Sorgfulla Saal? Hvar mun eg fiña Frid og Roo, fyrer sundurknosad Hiarta? 1. Tim. 2. Eya! hiaa þier miñ Allra Liwfaste og Sætaste Lausnare, Þviad þu ert i þeñañ Heim komeñ, Auma faatæka Syndara Saaluhoolpna ad giøra, og þar fyrer heiter þu JESUS, Þad er Lausnare, Frelsare, Saaluhiaalpare, af þvi þu frelsar þitt Foolk fraa øllum sijnum Syndum, Luc. 1.

Hier er eg miñ Frelsare, Og þo ad eg sie Eiñ afskaplegur Glæpa-Madur, þa er eg þo med kloeckvu ydrande Hiarta. Eg hefe heyrt þijna Huggunarfullu Gledelegu Rodd, Þa þu kallader upp haarre Roddu,

Og sagder : Komed til mijn aller þier sem Erfided og erud þreytter, Eg skal Endurlijfga ydur, Matth. 11. J þeñañ Marta kiem eg nu til þijn DRotteñ, Jaa eg kiem til þijn med hryggvu, Sorgbitnu, sundur slegnu Hiarta, Endurlijfga þu mijna aumu Saal, græd þu mijna saara og synd uga Samvitsku. Þu Heilaga Hiartans Lambed Guds, sem barst Heimsins Synder, og þær hefur burt teked, Ver þu nu og eirneñ mijnar Synder og Jllskur allar, og tak burt af mier Synd og Sekt, og fyrergief mier allar mijnar Misgiorder.

Þu ert ad soñu miñ Endurlausnare, þu ert sw einka Foorneñ, fyrer hvoria eg er vid Gud forlijktur. Þviad lijka so sem Moyses uppfeste Eirormeñ i Eydemørkuñe, so ertu aa Krossenum uppfestur, Uppaa þad ad eg og aller þeir ed aa þig trwa, skule ecke verda fortapader, helldur hafa og ødlast eillijft Lijf, Joh. 3. Þetta er mijn Trw, Eñ eg bid þig miñ Gud, styrk þu mijna veika Trw. Ad vijsu miñ Gud, Þu veitst alla Hlute, þu veitst ad eg trwe aa þig, Og þo þad sie veik Trw, þa set eg þo med þessare velkre Trw, allt mitt Trwnadartraust

til þijn, Eg trwe og treyste þar uppa, ad allar mijnar Otelianlegar, þwngar og Andstyggelegar Synder, sieu fyrer þitt Blood og þiñ Dauda vissulega betaladar og bættar.

Ja, Eg veit og trwe fullkomlega miñ Endurlausnare, ad þiñ hreiñ og Heilagur Gietnadur, hreinsar miñ syndsamlegañ Gietnad. Þitt Heilagt Framferde bæter mitt syndsamlega Athæfe, Þijn Læckan og Mijnkun er mijn Upphafning, Þijn Bønd eru mijn Lausn, Þijn Smaan er miñ Heidur, Under þijnar og Beniar eru mitt Skart, Þijn Utleidsla er mijn Jnleidsla i eilijft Lijf, Þijn Pijna er miñ Vitalingur, Þijn Forþienan er mitt Lausnar-Verd, Þiñ bloodugur Daude er Forlijkunar Offur fyrer allar mijnar Synder, Þijn Hlijdne er Fullnadar Boot sw rietta fyrer allar mijnar Misgiørder, Þijn Nidurstigning er mijn Endurlausn, og Frelsan fra Vallde Helvijtaña og Diøfulsins, Þijn Upprisa er mitt Riettlæte, Og þijn Himnaført giører mig fullørugga ñ og vissañ þar uppa, ad eg er Erfinge eilijfs Lijfs, Rom. 4.

Ad vijsu, miñ liwfe Lausnare, Allt þetta hefur þu mier skeinkt og giefed, Og þiñ Himneskur Fader reiknar þad allt mijna Eign, Eins og eg hefde þad sialfur forþienad, og so sem eg hefde sialfur wtriett allt Endurlausnar Verked. Þar fyrer skallt þu nu mijn Saal vera med goodu Giede, kvijda ecke, helldur vera gladvær, Þviad þu hefur Fyrergiefning allra þiña Synda, Ert fyrer Gude riettlaat, Hefur Naaduguañ Gud og Fodur aa Himnum, Og ert Erfinge eilijfs Lijfs, og hefur i Hiarta þijnu, Pant Himneskrar Arfleyfdar, Sem er Heilagur Ande, Hvør ed vitnar fyrer þijnum Anda i þiñe Saalu, ad þu siert Guds Barn. Hvør vill nu (mijn Saal) giefa þier nockrar Saker? Hier er Christur sa fyrer þig hefur borgad og betalad, Hvør vill klaga þig? Hier er Gud sialfur sa þig lausañ og liduguñ, Hellaguñ og Riettlaatañ seger.

Ef þu hyxar uñ þañ Skada sem þu hefur feinged af Falle hiñs fyrsta Adams, og ef þu hugleider þa Spilling og Fordiørfun i hvøria þu hefur ratad fyrer Synd Adams, þa fagna og vert glød mijn Saal,

Þviad

Hvïad þu hefur i Christo JEsu þijnum Endurlausnara, miklu meira aptur feinged, eñ þu nockurn Tijma mist hefur i Adam vorum Fyrsta Fodur; Stoor Undur eru þad, Og hvor kañ slijkt ad skilia? Vert þar fyrer med goodu Giede Saal mijn, og hugleid med faam Ordum, hvad þu hefur mist, og hvad þu hefur i Stadeñ feinged aptur.

Hugleid FYRst, hvorsu ad Dioflenum hefur brugdest sitt Slægdar Aform. Hañ hyxade ad koma þier fraa Gude med ollu, og sockva þier nidur i Grimdar Reide Gudꝛ og hañs Oblijdu. Þar i moote hefur þiñ liwfe Lausnare JEsus, ecke alleinasta stillt og stodvad Fodursins Reide, og þig vid hañ forlijkad, og eilijfa Naad og Myskun þier wtvegad, Helldur hefur hañ upphafed þig til slijkrar Oumrædelegrar Dijrdar, og Sæmdar, ad þu ert nu ordeñ Guds Barn og Naafrænde, med þvi ad hañ hefur teked uppaa sig vort Holld og Blood. Stærre Sooma og Heidur kuñer þu ecke ad faa, nema med þvi moote, þu hefder orded sialfur Gud.

2. Satan hafde i Siñe ad koma þier wr Sældar Stad Himneskrar Paradijsar,

og ræna þig Samfielagſkap Heilagra Eingla. Hier þvert aa moote leider þiñ Lauſnare JEſus þig, ecke alleinaſta aptur i þa Himneſku Paradijſar Sælu og eilijft Lijf, helldur hefur hañ giørt þig ædre øllum Einglum, Þvi hañ hefur ecke aa ſig teked Eingelſins Naatturu, helldur Mañdoomlega, vort Holld og Blood.

3. Satan hugdeſt ad ſvipta þig Lijfſins Fædu, og þad tookſt hønum, Þvíad Gud DRotteñ rak Mañeñ wr Paradijs, Synd areñar vegna, ſo hañ ſkyllde ei eta af Lijfſins Trie i Paradijs. Þar aptur aa moote er Chriſtur ſiaalfur ordeñ þijn Fæda, og er ſiaalfur ordeñ Lijfſins Trie, þad miklu ædra og betra er eñ hitt, wtbreidandi ſijna Kviſtu og Greiner, ſo ad vier ſkulum kriwpa þar under, Eta oſs metta þar af, og hafa Skiool og Frid og Fagnud under hañs Skugga Eilijflega.

4. Satan meinte ad taka fraa þier allt Riettlæte, Fellde þig i Synder og Glæpe, Rænte þig þijnu Uppruna Riettlæte, þar tñe þu varſt Skapadur, Riettlaatur og Syndlaus, Epter Guds eigeñ Mind og Lijkingu. Eñ þar aa moote hefur DRott-

eñ skeinkt og giefed þier Aññad Riettlæte
mikln betra, Sem er sijna Forþienan og
Verdskulldan, sijna Fullnadar Boot og
Bitaling, hvør þier verdur giefeñ og til-
reiknud fyrer Trwna aa hañs H. Nafn,
Og er þad Riettlæte sem Gude Almatt-
ugum best þocknast.

5. Satan hefur fyrer Fall Adams
rænt þig þeirre Guds Mynd, epter hvørre
Guds Mynd þu varst skapadur, Hañ hef-
ur veikt allañ þiñ Krapt og Styrkleika,
lemstrad þig Saarum, og laated þig haalf-
daudañ epterliggia, so ad i þier er ecke ept-
er Mattur nie Megn til hiñs Gooda, og
ecke eirn Lidur nie Limur er epter, til ad gi-
øra Gott, Eda þad Gude kañ ad vera þæ-
gelegt. Og i soddañ Maata hefdum vier
aller Adams Nidiar orded ad fyrerfarast
og fordiarfast, hefde þar ecke komed Boot
aa moote. Eñ HErrañ JEsus Christus
hefur skrijdt og klædt þig med sijnu H. Ri-
ettlæte, og hañ hefur grædt Saar þijn med
sijnum bloodugum Undum og Saarum,
og med sijnum H. Anda Endurfæder hañ
þig ad Niju, Og i soddañ Maata vidrietter
og endurnijar hañ Guds Mynd og Bilæ-
te,

te, epter hvørìu þu varst i Ondverdu skapadur, Og aa siidasta Dege mun hañ forklaara þiñ fæniſtañ Lijkama, og giøra hañ lijkañ sijnum Dijrdarsamlegum Lijkama.

Snøgt ad segia, Satans Slægd, Astundan og Vilie er, ad svipta þig øllum Heidre og Sooma, og koma þier med sier i eilijfa Gløtun og Fyrerdæming; Par kiemur nu Christur þier til Hiaalpar, tekur ei ad eins aa sig þitt Holld og Blood, Giører Fullnadar Boot fyrer þig, Forlijkar þig vid Gud siñ Himneska Fødur, Og wtvegar þier Fyrergiefning þiña Synda, Giefur þier sitt Riettlæte og H. Anda og eilijft Lijf, Helldur upphefur hañ þig til soddañ Heidurs, og slijkrar Dijrdar, Ad þu ert nu fyrer Gude Himneskum Fødur Riettlaatur, Syndalaus og Heilagur, Guds Barn, Guds Erfinge og HErrañs JEsu Christi Brooder, Hañs Limur, Hañs Bwdur, Hañs Samarfe, Eitt Mustere og Bw-Stadur, og Heimele Heilagrar Preñingar, Og Verkfære hiñs Heilaga Anda, Joh. 14.

Uñ slijkt maa vel tala og segia, so sem stendur i Gudspiallenu: Allt giørde hañ

 vel;

vel; Þar fyrer sie þijnu Nafne Lof og Dijrd ad Eilijfu! Miñ Gud, miñ DRottteñ, Eg trwe stadfastlega øllum þijnum Ordum og Fyrerheitum, Og fiñ nu hvørsu Sætlega og Huggunarsamlega þu endurnærer og lijfgar mijna Saal og Samvitsku. Oh! hvad sæt er þijn Huggun, Hvørsu feiged er nu mitt Hiarta þiñe Naad og sætre Myskun.

Miñ Gud, Þu ert þad rietta Naadar Port til eilijfs Lijfs. Þu ert Vegureñ, Sañleikureñ og Lijfed, Eingeñ kiemst til Fødursins nema fyrer þig, Joh. 14.

Þu ert Vegureñ, Þviad i øngvuum ødrum er Heilsañ, Og eckert añad Nafn er Møñunum giefed, i hvøriu (eda fyrer hvørt) vier kuñum ad verda Saaluhoolpner, Nema fyrer þitt Nafn, Act. 4.

Þu ert Sañleikureñ, Joh. 1. Þviad hvør hañ mistrwer Ordum þijnum, og ecke helldur sier vid þiñ Lærdoom, sa hefur øngvañ Gud, Eñ saa sem blijfur vid þiñ Lærdoom, hañ hefur bæde þig og þiñ Fødur.

Þu ert Lijfed, Þviad hvør sem trwer aa þig, hañ hefur þad eilijfa Lijf, Eñ hvør sem ecke trwer aa þig, saa sier ecke þad eilijfa

Lijsed,

Lijfed, helldur blijfur Reide Guds yfer honum, 1. Joh. 5.

O HErra JEsu Christe! Pu eilijfe saũe einka Himna Stijge, aan hvørs ad einn geũ kiemst til Fødursins, Veit og gief þu mier þad, ad eg AE og alla Tijma hallde mier vid þig med riettre Trw, og fyrer þig uppstijge i Himerijke, og eignest eilijfa Sæluhiælp.

6. Med þvi ad eg er nu alldeilis og med øllu vid Gud forlyktur, fyrer Christum, og er ordeñ fyrer saña Trw Riettlæatur, Og i Voneñe allareidu Sæluhoolpeñ; Mæa eg þa læata og lifa so sem eg vil, allt þar til Daudeñ kiemur og kallar?

O Nei, Nei mijn Sæl, J aungvañ Mæta so, Pviad hafer þu saña Trw i þijnu Hiarta, og ef þu ert Endurfæddur fyrer Heilagañ Anda, þa fær þu añad Siñe, Adra Huxan eñ ædur hefur þu haft, Pviad sæ hañ er riettelega Endurfæddur, hañ hefur Gyrnd og Lyst æ ad lifa nijañ Lifnad, Og sw saña og rietta Trweñ, hun fordast Syndernar og allt Ogudlegt Framferde, Hatar þad og hefur Andstygd æ þvi, og Madur er Syndeñe gramur og reidur, Flijr hana og fordast so sem Høggorm og siælfañ Andskotañ, Eñ verde so, ad Riett-

trwadur Madur verde yferfalleñ af Diøf-
lenum, Dette og hraſe vegna ſiñar veikrar
Naatturu, Þa blijfur hañ ecke liggiande i
Syndeñe, helldur rijs hañ upp aptur jafn-
ſnart, Klagar ſitt Brot og Fall Daglega
fyrer Gude, Bidur uñ Naad og Fyrergi-
efning Frelſarañ JEſum Chriſtum. Þar
fyrer er ecke neitt Fordæmañlegt at høn-
um, af þvi hañ helldur ſier vid Endurlauſ-
narañ JEſum Chriſtum med ſañre Trw,
Rom. 8.

Þetta er nu ſu Þridia Greineñ, Eda
Þridie Partur ſañrar Chriſtelegrar Yd-
ranar, og þetta heyrer heñe til med riettu,
Sem er nijr Lifnadur, Nij Hlijdne epter
øllum Guds Laga-Bodordum, i þeim ydk-
ar Trweñ ſig Daglega, og øllum goodum
Verkum vid ſiñ ſam-Chriſteñ Naunga.
Og i þeſſu aattu Daglega þig ad ydka at
þeñañ eda añañ þvilijkañ Haatt.

ÞAcker giøre eg þier miñ Gud, Himneſk-
ur Fader, ad þu ſkapader mig epter þiñe
Mynd, Og þegar eg var falleñ i Syndena
og þijna Reide, þa gafſtu mier þiñ Elſku-
lega Son til Endurlauſnara. Miñ Gud,
Hvørneñ giet eg fullþackad þier, Þad þu
hefur

hefur mier veitt? Stijr þu og stioorna mier med þijnum H. Anda, So ad eg hafe Gyrnd og Lyst til þiña Bodorda, Hvad med Mañaña Bodordum og Setningum hioona Meñ hier forgiefens, Matth. 15. Veit þu mier þad, ad eg life ecke leingur epter Holldenu, helldur epter þijnum Anda, Rom. 8.. Verieſt Kallmañlega, og bijhallde ætijd Trwñe og goodre Samvitsku, 1. Tim. 4. Hiaalpa þu mier til, ad eg verde eins Siñadur sem miñ HErra JEsus Christus var, Phil. 2. Hvør ed mier hefur Eina Fyrermynd epterlaated, ad eg skule fylgia hañs Footsporum. Styrk þu mig i Trwñe og Voneñe, so ad eg giete stad ed i moote Diøflenum, Eph. 6. Og filge ecke þessum Dygdarlausa Heime, Hvad hañ hleipur sitt Hlaup til Helvijtes. Veit þu mier þad, ad eg Daglega þvijnge og Krossfeste mitt Syndsamlegt Holld, nidurkiæfe og keyre Holldsins Girnder, Rom. 12. Og deye fra Syndeñe Dag epter Dag, Rom. 6. Eñ stunde epter Dygdum og Mañkostum. Styrk þu mig þar til miñ DRottteñ, ad eg alla Tijma Otteſt þig af Hiarta, og elske þig af ollu Megne og

Mætte, Devt. 6. Og i hier Einum hafe alla mijna Girnd og Glede. Gief þu ad eg Skiepna þijn, þig miñ Skapara Riette lega þecke, sie stadfastur, fullhugadur, og Vandlæte vegna Dijrdar þijns H. Nafns, og ad eg alla Tijma sie þitt Nafn akallande, med sõñu Hiartans Lijtelæte. Gief þu ad eg alla Tijma hafe Gyrnd og Elsku a þijnu Orde, Og sie hlijdeñ øllum þijnum Bodordum, Amen.

O Drotteñ JEsu, Kveiktu upp Hiarta mitt med þiñe Astar Elsku, so ad eg hafe og hallde þig alla Tijma fyrer miñ dijrmætasta Fiesiood, og ad eg vel og vandlega hutte þar uñ, hvørsu þad er einskis vert ad elska Heim þeñañ, Ps. 19. Miñ Lausnare, Hneig þu mitt Hiarta til þijn, so ad eg fyrerlijte Hiegooma þessa Heims. Vardveit mig fyrer liootre Ağirnd og hiaalpa mier ad eg ecke setie Trw nie Traust a nockurn Hlut forgeingelegañ, Matth. 6. Miñ Endurlausnare, Gief þu mier saña Poleñmæde i Krosse og Mootgaange mijnum, stodugt Siñe og stadfasta Huggun i øllum Freistingum og Astrijdum. Hiaalpa mier, so ad eg vijle ecke nie ørvænte i Olucku ñe,

luckuñe, Og ei helldur metneſt þegar vel geingur. Hneig þu Hiarta mitt til ſañrar Gudrækne, og gief ad eg allar Stunder huxe, tale og giøre, þad þier er þægelegt, Og þioone þier med hreinu, Good-ſidugu, Gudhræddu og riettu Hiarta, Og goodre Samvitſku.

Miñ Gud, Laat þu þiñ H. Anda alla Tijma kieña mier, ſo ad eg falle ecke af mijnum Veikleika i Synder og Glæpe. Leid þu mig med hiñe hægre Hende, So ad eg hage mijnum Huxunum, Ordum og Giørdum epter þijnum Vilia.

Gud miñ, hiaalpa þu mier, ſo ad eg ecke verde Drambſamur nie Rijkelaatur, og ad mitt Hiarta og Hugſkot hverfe ei fraa þier, ad Muñur og Tunga tale ei Jllt, og ad Tunga mijn legge ei þitt Nafn vid Hiegooma, ad eg liſe ſparlega, Of-ale ei miñ Lijkama ſo hañ verde Lauslaatur.

Veittu mier þad miñ Gud, ad eg forſmaae ecke miñ Naaunga, Ei laſte hañ nie lijte, Ecke falle iñ i añara Kall og Embætte, Leite ecke miñar Næringar eda Atviñu Oriettferduglega, Sie ecke Ærugijrugur, Eingeñ Hræſnare, Smiadrare, Laat mig

ecke forsinaa þaa sem eru Lijtels-Haattar, Helldur vera Goodsamur, Gustukagiarn, Hrygge ecke nie stigge þa Aumu og Vesolu.

Minn Skapare, Afinaa þu og burttak fraa mier allann Straakskap, Vondslegt Athæfe, Illmannlegt Framferde, Lete og Omennsku, Ohlijdne, Reide, Agyrnd, Ofund, Heipt og Hatur, og alla Ostickanlega Breitne, Gief mier æ og alla Tijma Eitt hlijded Hiarta, og ad eg ydke Kiærleiksins Verkenn vid minn Sam-Christenn Naunga, og sie Good-hiartadur vid hvorn Mann, og Goodsamur. Gief Naad ad eg gialldе Gott fyrer Illt, Giøre Gott Aumum, Veite Heldur hvørium Manne, Epterfylge goodum Monnum, Enn fordest þa Illu og Ogudlegu, Laat mig Vaxa og Prooast i Dygdum og Mannkostum; Enn mijnka i ollu þvi sem Illt er, Og sie Ovinur allra Synda, Lasta og Lijta.

Halltu mijnu Hiarta þar til, ad eg hræd est þitt Heilaga Nafn, uppaa þad eg mætte reyna og rannsaka sialfann mig, So eg gaange aa þeim rietta Vegenum, og laate mijna Trw i Lioose, med allskyns good-

um

um Verkum og goodre Christelegre Umgeingne.

Og ad Sijdustu, Leys mig og frelsa fraa øllum illum Hlutum til Lijfs og Saalar, Og gief ad eg fyrerlijte alla Jardneska Hlute, Eñ aastunde af øllu Hiarta ad naa þeim Himnesku, Amen.

7. Er þad þa noog, Ef ad Madur giører Einusiñe Ydran med soddañ Hætte, sem nu hefur vered uñ talad, Og lætur þad skie Einusiñe aa Are, Eda Tvisvar? Andsvar.

J aungvañ Maata, Pviad HErrañ JEsus kieñer oss alla Daga og Oaflaatañlega ad bidia, Fyrergief oss Vorar Skullder, Matth. 6. Og St. Petur skrifar so: Vaxed i Naad og Kyñingu vors HErra JEsu, 1. Pet. 2. Og St. Paall bidur Gud, og Oskar þeim i Epheso Borg, ad þeir mættu verda styrkver fyrer Heilagañ Anda, i iñra Mañenum, Ephes. 1. David skrifar og so i Psalmenum: Par uñ (Syndaña Fyrergiefning) munu aller Heilager þig bidia, i hæfelegañ Tijma, Psalm. 32.

Hier heyrer þu mijn Saal, ad ecke bere þier Einusiñe aa Æfe þiñe, og ecke Einusiñe aa Are eda Tvisvar, ad giøra Ydran,

og þar epter at ad falla aptur i Syndernar vijsvitande og villande, Helldur hlijtur allur þiñ Lifnadur ad vera sijfelld Ydran, og Dagleg Ydranar Yferboot. Hvad hvar hellst Christelegt Lijferne er, þar hlijtur og ad vera Dagleg Ydran. Hvad þar fyrer ertu fyrer heilaga Skijrn endurfæddur, og ordeñ Guds Barn, ad sa gamle Adam skule i þier fyrer Daglega Ydran og Yferboot verda deyddur og drecktur, so hañ deye (Pad er, hafe øngvañ Krapt nie Maatt) med øllum sijnum vondum Gyrndum. Eñ þar a moote kome Daglega fram, og uppriise eirn nijr Madur sa fyrer Gude lifer heilaglega og riettelega. Uñ soddañ Meñ skrifar Salomon: Vegur Riettlaatra skijn sem añad Lioos, þad sem framllijdur og lijser, þaangad til Dagureñ er, Prov. 4.

O Gud og Fader allrar Naadar og Myskunar! Pu sem i Christo JEsu hefur kallad mig til þiñar eilijfrar Dijrdar, Og hefur veitt mier þad, ad eg fyrer rietta Trw, smacka Sætleik þiñar Naadar og Kyññingar, og er ordeñ Mustere og Bwstadur þijns H. Anda, og Erfinge eilijfs Lijfs i

Boneñe,

Voneñe, Stijrdu mier og ſtioorna alla Tijma fyrer þañ ſama H. Anda þiñ, Ad eg ætijd framgaange i ſañre Ydran, ſtrijde og ſtande Oaflaatañlega i moote øllum Syndum, Vaxe og þrooeſt i þiñe Kyñingu, ſo ſem nijr eda nijfæddur Madur, med øllu Gudlegu og Chriſtelegu Frамferde, og verde þvi ſterkare i Trwñe, ſem eg life leingur. Gief þu mier ad eg frelſt Saal mijna, og lijte ecke aa Bak aptur, epter Gagnſemdum og fallvølltum Hiegooma Heims þeſſa, Gen. 19. Laat mig ecke fara ſem Hundana, Peir ed eta upp aptur þad þeir hafa ſpwed, og ecke ſo ſem Svijneñ, þau ed epter þad þau eru þveigeñ, þa velltа þau ſier og velkia ſig i ſama Saur ſem fyrr, 2. Pet. 2. So mitt ſijd Seinaſta verde ei verra eñ þad Fyrſta. Ad vijſu miñ Gud, Miñ Kraptur, Maattur og Megn duger hier ecke til, Eg er miñ koll þa minſt varer. Eñ þu ert þañ ſem i mier og med mier verkar bæde Viliañ og ad fullkomna þad Gott er, og þier þægelegt, Philipp. 2. So bid eg nu þijna Myſkun, ad þu vilier ſtyrkia, Stadfeſta, Auka, Efla og aavarta þetta þitt Verk, ſem þu i mier hefur uppbyriad

og

og stofnad, allt til miña Æfeloka. Yfergief þu mig ecke, so eg gleyme ecke þier, Tak ecke fraa mier þijna Hond, Gud miñ Hiaalpare, Reyndu til Rottañ, og rañsaka mitt Hiarta, Proofa þu mig og reyndu til, ef eg er aa illum Vege, og leid mig alla Tijma aa eilijfañ riettañ Veg, Psalm. 143. AMEN.

# III. Capitule.

Hefur iñe ad hallda, Og talar um Sex sierlega Hlute, sem heyra til Einum Christelegum og Gudrækelegum Lifnade, og þvi Framferde sem Gude lijkar.

1. Ef eg nu life so, og geing fram i Daglegre Ydran og Otta Rotteñs, og bad kañ til ad bera, ad eg aa þessum þraungva og mioova Vege, faae ad lijda Kross og Moodgaang, Hvørneñ skal eg þa bera mig ad, so mijn Trw bile ecke, og ad eg villest ecke af þem rietta Vege Eilijfrar Saaluhiaalpar?

NO vijsu mijn Saal er þesse Spurning naudsynleg, Pviad þo so sie vier sieum Endurfædder fyrer Vatned Skijrnareñar og H. Anda, Joh. 3. Og erum fyrer Trwna ordner Guds Børn, Þa berum vier þo þeñañ dijrmæta Edla Dijrgrip i Jardneskum Kierum, og veykum

um Lijkama. Par med er Diöfullen Olmur og grimur, og leitar aa allar Sijdur aa oss, med ollum sijnum Pusund Velabrogdum. Heimur þesse giefur af sier morg ill Epterdæme, þau ed vel i Gied falla voru syndumspillta Hollde og Bloode, so þau hleypa og renna þar epter fullum Fet um, ferst og frijmoodug, og hura ecke þar um, ad þad er saa breyde Al-Far-Vegur, sem liggur til Afgrunns Helvijtis. Par fyrer mijn Saal, Ef þu villt vel og Christelega enda þitt Hlaup, og odlast Ending þinnar Trwar, Sem er eilijf Saaluhiaalp, 1. Pet. 1. Pa settu þessa Sex Hlute Daglega þier fyrer Siooner, Jaa, geymdu þaa i Hiarta þijnu, So ad þu þar epter wtender þijna Lijfdaga, nær Dauden kiemur og kallar.

1. Halltu þier fastlega vid Guds Ord, og lærdu Riettelega ad skilia þad, Riettelega ad sundurdeila þad, og Riettelega ad fara med þad.

2. Minnstu Daglega aa þijna H. Skijrn.

3. Gacktu opt og Gudrækelega til Guds Bords.

4. Lærdu ad haga og skycka þier vel og Gud-

Gudlega i Krosse og Mootgaange.
5. Blijf vid þitt Embætte, og þa Kallan, sem þu ert til kalladur.
6. Vert ydeñ i Bæna-Akallenu, og bid Gud Oaflaataũlega.

MIñ Ljwfe Lauſnare JESU Christe, Hiaalpa þu mier, so ad eg Skilnings-lijtel Mañeskia, alla Daga fylge þijnu Orde, og hegde epter þvi mijnu Lijfe og Framferde, Og Trwlega hallde þañ Naadar-Saattmaala, Sem þu hefur i Skijrneñe vid mig uppreist, ad eg opt og verduglega medtake þitt Heilagt Holld og Blood, J Miñing þiñar Pijnu og þijns Dauda, Kome Kross og Mootgaangur ad Hondum, Þa laattu mig hañ bera villuglega med Poleñmæde, þar med standa trwlega i mijnu Kalle og Embætte, og yduglega bidia Gud i Anda og Sañleika, ad eg mætte ala stuttañ Alldur miña Lijfdaga i Daglegre Ydran, og Gudrækelegu Framferde, þioona þier og mijnum Naaunga Riettelega, og blijfe stødugur i sañre Trw, allt til Enda og Æfeloka, Amen.

2. Skijrdu wt fyrer mier þessa Ser Hlute, So ad eg skilie þaa Riettelega, og mætte hura og breyta epter þeim, medañ eg life.

Þad

Pad vil eg giarnañ giora.

# I. Um Guds Ord.

Pad Fyrsta sem heyrer til Christelegum Lifnade.

Fyrst seige eg so, Halltu þier fastlega vid Guds Ord, Og breyt epter þvi alla þijna Lijfdaga, i Ordum og Giørdum, og øllu þijnu Athæfe. Hviad so seiger Ritningeñ, Ord þitt er Lykt miña Foota, og Lioos at mijnum Vegum, Psalm. 119. Villtu þu mijn Saal fylgia þessu Lioose, þa muntu Ostraffañlega gaanga, og ecke falla. Eñ þu hlijtur vel og vandlega læra, ad sundurdella riettelega Ord DRottens, og vita Mißinun aa mille þess Lærdooms sem nefnest Løgmaal, og hins Añars Lærdooms sem kallast Evangelium, 1. Tim. 1.

Løgmaal Guds (þad eru Tiju Guds Bodord, Exod. 20.) þau eru soddañ Guds Ord og Lærdoomur, i hvørium Gud bijdur oß og skipar, ad vier sieum hønum lijker, bæde i Hiartanu, og øllum Lidum og Limum, og øllu voru Lijfe og Frañferde, Pad er ad skilia, Gud vill og hañ bijdur, ad vier elskum hañ af øllu Hiarta, allre Saalu,

øllum Kroptum vorum, Og vorn Naunga so sem sialfa oß, Matth. 22. Devt. 6. Levit. 19. Hvad øllum Møñum er Omøgulegt ad giøra, þo samt sem aadur skall tu Daglega Dags hafa þesse Tiju Bodord i Hiarta og Muñe, so þu lærer af þeim ad þeckia þijna fordiarfada Naatturu, og þijnar Synder, Þar næst skalltu hafa þau so sem Eina Reglu, epter hvørre þu aatt ad hegda og breyta þijnum Nijum Lifnade, Ezech. 20.

Eñ Evangelium er soddañ Ord og Lærdoomur, J hvørium Gud af skiætre Naad og Myskun frambijdur Fyrergiefning Syndaña og eilijft Lijf, øllum þeim sem trwa aa JEsum Christum, Joh. 3. Þvtad um hañ bera aller Spaameñ Vitne, ad fyrer hañs Nafn skule aller faa Syndaña Fyrergiefning sem aa hañ trwa, Act. 10. Þessa Naadar Predikun maattu ei nockurn Tijma laata koma fraa þijnum Hugskots Augum, uppaa þad ad Hiarta þitt hafe vissa Huggun i giegn Syndunum, og Freistingum øllum Diøfulsins, og so ad þu kuñer med goodu og gladværu Hiarta þig Gude i Valld ad giefa, i øllum Neydum

og

og Mootgaunge allt i Daudañ.

Merk þetta vel mijn Saal, hvader Lærdoomarner eru Guds Ord, hvader hafa þeir þegar i Upphafe giefner og feingner vered Guds Christne, og hvader blijfa þeir og vid Magt halldast, og hvørugañ maa þar af taka. Þar fyrer lærdu ad huxa vel um̃ þa hvada, þo so ad þu giører þeirra riettañ Greinarmun, og viter i riettañ Tækelegañ Tijma, hvørn þeirra ad brwka, og Riettelega med hañ ad fara.

Þegar þu mijn Saal, Daglega huxar um̃ Tiju Guds Bodord med þessum Hætte, og lærer af þeim ad þeckia og vita, hvørsu fiarlægur og fiarstædur þu ert þvi, ad vera Gude lijkur, Þu ser og so eirneñ, hvørsu þu ert vegna Adams Falls og Syndar, i þiñe Naatturu og ollum þijnum Kroptum spilltur og fordiarfadur, so ad þu gietur ecke hallded neitt af Guds Bodordum, og hefur þess vegna med þijnum Syndum forþient Reide Guds og eilijfa Fyrerdæmīng, Þa skalltu ecke vera miøg Orvænteñ nie Efasamur, helldur skalltu þacka Gude fyrer sijn Bodord, og ad hañ med þeim hefur leidt þig til Kyñingar þiña Synda, þvi-

ad næst hvi ad þeckia JEsum Christum, Þa er eckert betra nie Gagnlegra, Eñ ad þeckiá Synder sijnar, hviad Christur med sijnum Velgiørningum smackar øngvum Mañe vel, nema hvi ad eins ad hañ aadur þecke Synder sijnar Riettelega, og hafe skodad sig i Speigle Gudlegrar Reide og Løgmaalsins.

Eñ kome Satan, og giøre þijnar Synder miøg stoorar og andstyggelegar, og skielfe þig med breñande Reide Guds, Elldz Helviijtis og eilijfre Fyrerdæmingu, Þa hugga þig med Naadareñar Predikun H. Evangelii, og lijfga þig med þessum og ødrum fleirum Huggunar Greinum Heilags Evangelii. So hefur Gud Elskad Heimeñ, ad hañ wtgaf siñ Eingieteñ Son, til þess, ad aller þeir sem aa hañ trwa fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Item, So sañarlega sem eg life, Vil eg ecke syndugs Mañs Dauda, helldur ad hañ betre sig og life, Ezech. 18. Item, Eg vill leysa þaa wr Helvijte (sem trwa aa mig) og wr Daudanum vil eg frelsa þaa, Os. 13. Item, Hvar Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfer miklu meir Naadeñ, Rom. 5.

Item,

Item, Pad eru vissuleg Sañeude og verdugt dijrmætt Ord, ad JEsus Christus er komeñ i Heimeñ, ad giøra þær Syndugu Sæluhoolpna, 1. Tim. 1. Med þessum Ordum skalltu standa Dioflenum i moote stadfastur i Trwñe, Og þa mun hañ flya frær þier, Pviad þessar og adrar þvilijkar Huggunar Greiner, eru sañar og Obrygdañlegar, og standa þier miklu stadfastare og stødugre eñ Himeñ og Jord, þviad hañs Ord eru Sañleikur og bregdast ecke.

3. Nu ef Satan kiemur uppæ hina adra Sijduna, lætst vera Eingell Lioossens, Giører þijnar Synder lijtels verdar og Lauf-liettar, og ad ecke reidest Gud þeim so þunglega, hvijslar þier i Hugskots Eyru, Synder sie hægt ad bæta, og ad fæ þær fyrergiefnar, Naad Guds sie gnoog fyrer Hende, og etc. Eñ þu mijn Sæl vakta þig, Trw þu hønum ecke, hura þu helldur uñ þad þunga og skarpa Logmæl Guds, J hvøriu allar Synder verda miog so þunglega æklagadar, Par fyrer kuña þær ecke ad vera fyrer Gude so lijtels verdar og liettbærar, sem Satan seiger. Pvi læt þier uñ Hug fara Pijnu og Dauda þijns Lijv-

fa Lausnara JEsu Christi, Og seig þu so i Hiarta þijnu: Skam þier Satan! Þu Ligare leidur. Eg sie vel og merke, hvørsu þungar og saarar vorar Synder hafa vered Lausnaranum JEsu Christo, þa hañ Eitt Siñ gieck under Bølvan Løgmaalsins miña Synda vegna, til ad bæta fyrer þær, og þa hañ bar Guds Fødurs Reide fyrer mig, Þar fyrer so leinge sem eg life, skal eg hata hvøria Eina og Eina Synd, og vera þeim af Hiarta gramur; og fordast þær sem Fiandañ sialfañ; Lof og Dijrd sie mijnum Lausnara JEsu Christo, ad hañ hefur Eitt Siñ leyst mig fra Syndunum, hvøriar ad eru Bønd Diøfulsins, skyllda eg flækia mig og fiøtra ad nyju aptur i soddañ Snørum og Bøndum? Þar sie laangt fraa. Þvi vil eg syngia og seigia med David, Brast Snarañ, og burt sluppum vier, Blessad Guds Nafn vor Ad stod er, Sem Heimeñ og Himna giørde, Ps. 124.

4. Eñ ef Satan sijner þier og fyrer Hug skots Augu setur, Fegurd þessa Heims og Dijrd, og lockar þig til ad gyrnast þar aa, Þa laat þier i Hug koma Guds alvarlegt Bodord,

Bodord, og huxa um̃ Ord hiñs H. Paals, þar hañ seger: Giøred ydur ecke samlijka þessum Heime, helldur vered um̃skipteleger fyrer Endurnijan ydars Hugskots, Rom. 12. O mijn Saal! vakta þig, hier er ecke Okuñugt þitt Holld og Blood, hvørsu þad er Veralldlega siñad. Hvijnga þu þad, og hallt þvi alvarlega i Taume, med Ordum og Hlioodan Gudlegs Løgmaals, og fylg þvi ecke; Hvïad Heimureñ hleypur sitt Hlaup i Helvijte.

5. Kuñe so ad falla, ad Satan bryxle þier, ad þu siert Faatækur, Hungradur, og lijder Neyd, Ha seigdu so sem i Gudspiallenu stendur: Ecke lifer Madureñ af Einusamañ Braude, helldur af hvøriu þvi Orde, sem fram̃ hefur geinged af Guds Muñe, Matth. 4. Og eñ aptur, Hu DRotteñ gledur mitt Hiarta, Ps. 19. Ho hiner ader hafe Nægd Vijns og Korns. Hesse Ord draga øngvañ aa Taalar, þviad so tal ar Gud: Eg vil ecke laata bregdast miñ Sañleika, Psalm. 89.

6. Ef bryxlar hañ þier um̃ þijna Eymd og Neyd, og þad þu ert aumur og yfergiefeñ, Ha skalltu standa hønum i moote og

segia: Satt er þad, Eg er Aumur og Fatækur, Eñ DRotteñ hefur Sorg og Umhyggiu fyrer mier, Þar fyrer þegar eg hefe hañ, og hañ er hiaa mier, þa hyrde eg hvørke um̃ Himen nie Jørd, Þo bæde Lijf og Saal vanmegnest, þa er hañ Huggun mijns Hiarta, og mitt Hlutskipte, Ps. 73. Hier uppaa skalltu mijn Saal forlaata þig so leinge sem þu lifer. Þvi so seiger DRotteñ: Eg vil ecke um̃breyta þvi sem fram̃ er geinged af mijnum Muñe. Og eñ aptur, Eg hefe svared, Og eg vil ecke taka þad aptur, Ps. 89.

7. Ef Diøfulleñ skielfer þig med Daudans Kvijda og Hrædslu, þa skalltu standa hønum i moote med Riett-trwudu Hiarta, Og segia so: So seger DRotteñ Gud, Þijner Fram̃lidner skulu lifa, og med sijnum Lijkømum upp aptur rijsa, Esa. 26. Þar med þa trwe eg Myskunsamlega Fyrergiefning allra miña Synda, Upprisu Holldsins og eilijft Lijf. Þetta helld eg allt samañ vissulega satt, stadt og stødugt, og forlæt mig med øllu moote hier uppaa: Þviad Himeñ og Jørd forgaanga. eñ Guds Ord bregdast ecke. Luc. 22. Helldur vara

ra þau og blijfa eilijflega Esa. 40. Og aller þeir sem sier hallda fastlega vid Guds Ord, og med þvi vernda sig og veria, Þeir munu i Ordenu og med Ordenu verda Sæluhoolpner.

JEsu Christe þu Kongur Eilijfs Sannleika! Gief þu mier þa Naad, og veittu mier þad, ad eg alla Tijma hafe mier fyrer Augum, þitt heilaga Sannleiks Ord, Lögmaaled og Evangelium, og hure jafnan og breyte þar epter. Læittu þinn H. Anda kienna mier þitt Ord riettelega ad skilia, riettelega sundur ad deila, Og i riettann Tijma med þad ad fara; Gief þu mier ad eg þitt Lögmaal Daglega hafe mier fyrer Augum, So ad eg gleyme ecke mijnum Syndum: Skrifa þu i Hiarta mitt, þijn Huggunarsömu Fyrerheit, og laat mier þau til Huggunar koma i öllum Sorgum, Neydum og Mootgaunge, Og ad þau sieu minn Skiolldur og Veria, til ad slaa fraa mier minn Ovin Diofulenn. Sieu þau minn Stafur og Stod, Hvar vid eg maa mig stydia, Mijn Fæda og Næring i hvörskyns Evmdum og Hormungum. Gief þu ad eg med öllu geyme mig og vefie mig i þijnu

Orde (so sem þa Barned er vafed i sijnum Reifum) so ad eg life epter þvi, Deye epter þvi, og upp aptur rijse epter þvi. Og kuñe nockur Efasemd ad slaa mitt Hiarta, vegna miins Beykleika, þa hiaalpa þu mier ad eg sie ei Efasamur, Þitt Ord dregur mig ecke aa Taalar. Miñ Gud! Þu eilijfur Sañleikur, Eg veit og trwe ad þu helldur þijn Ord, Þijn Fyrerheit eru stadføst og stødug, og þu ert voru Hiarta stærre og meire, 1. Joh. 3. Og þijn Ord eru Ofallvalltare eñ mitt Hiarta er. Þar fyrer er eg Ohræddur og med goodu Giede.

# II. Um Skijrnena.

Þad Añad sem tilheyrer Christelegum Lifnade.

I Añare Grein skalltu Saal mijn, Daglega miñast a þijna Skijrn, og hugga þig þar vid, ad i heñe hefur DRottеñ þiñ Gud þvegued þig og hreinsad, Giort þig ad sijnu Barne, Og bunded eirn Eilijfañ Saattmaala vid þig, Ad hañ vilie vera þiñ Naadugur Gud og Fader, Eñ þu skuler vera hañs Barn og Erfinge. Sañlega mijn Saal hefur þiñ Lausnare JEsus i

hellag-

heilagre Skijrn nefnt þig med Nafne, eadur eñ þu þeckter hañ, Jaa ad vijsu, Hañ hefur giefed þier eitt Nafn, og lææted þig epter sijnu Nafne nefnast Christeñ, til eins Sañleiks Merkis og Vitnisburdar, ad þu ert Christi Brooder og Samarfe, og skallt faa og ødlast, og Eigande verda ad øllu þvi sem hañ hefur med sijnu H. Bloode þier keypt og twvegad, Sem er Fyrergiefning Syndaña, Riettlææted, Heilagañ Anda og eilijft Lijf.

Par fyrer mijn Saal, So opt sem þu i þijnum Daglegum Bænum, les þijna Trwarjaatning, Segande: Eg trwe aa Gud Fodur, og etc. Eg trwe aa JEsum Christum hañs Eingieteñ Son, og etc. Eg trwe aa H. Anda, og etc. Pa laat þad vera þijna Huggun, ad þu ert vissulega eirn af þeim, uñ hvøria DRotteñ talar i Gudspiallenu, Segande: Hvør sem trwer og verdur skijrdur, saa skal verda Saaluhoolpeñ, Marc. 16. Par aa moote gierer þu þig fraaskileñ Tyrkium, Gydingum, Heidnum Moñum og øllum Ogudlegum, uñ hvøria DRotteñ talar: Hvør ed ecke trwer, saa skal verda fordæmdur,

Jaa,

Jaa, soddañ þijn Trwarjaatning aamiñer þig, ad þu vegna þiñar Skijrnar og þess Saattmaala sem þu hefur vid Gud bunded i Skijrneñe, ert skylldugur ad lifa ei epter Holldsins Vilia og Gyrndum, helldur ad þioona lifanda Gude i Heilagleika og Riettlæte, so ad honum lijke.

ÞAcker giøre eg þier, miñ liwfe Lausnare JEsu Christe, fyrer þessa þijna Omrædelega Velgiørninga, ad þu ecke alleinasta lietst mig fraa Moodurlijfe lifande koma, Helldur og so, þa eg var daudur i Syndunum, Þa lietstu mig faa þa H. Skijrn, og hefur þar med iñeluckt mig i þeim heilaga Saattmaala, hefur ad niju Andlega endurfædt mig fyrer þiñ H. Anda, og slited mig wr Diofulsins Kverkum, og giørt mig ad þijnu Barne og Erfingia eilijfs Lijfs, aadur eñ eg nockurn Tijma þeckta þig. Miñ Lausnare, Hvad kañ eg ad endurgiallda þier, fyrer allt þad Gott sem þu hefur veitt mier? Psalm. 116. Miñ Lausnare, Eg bid þig, stijrdu mier og vardveittu mig med H. Anda þijnum, so ad eg Daglega stødugur stande i þijnum Naadar Saattmaala, Hugge mig þar vid, og

hallde

halld̄e og ende þad eg hefe trwlega lofad, ad afneita Dioflenum, og øllum hans Verkum, blijfa alleinasta vid Gud, fordast alla Afgudadyrkan, hata Synder og Glæpe, og allt Diøfullegt Athæfe og Syndsamlegt. Ad eg alla Tijma sie glooande i Andanum, Gladvær i Voneñe, Þijnu Nafne þioonande, 1. Pet. 1. Jaa ad vijsu, med þvi eg er fyrer Skijrnena ordeñ eirn nijr Madur, Þa veit þu mier Styrk og Hiaalp þar til, ad eg hier epter gange fram̄ i nijum Christelegum Lifnade, ad mitt Fram̄ferde bere Vitne þar um̄, Bæde fyrer Gude og Møñum, ad eg hefe hloted þa heiløgu Skijrn nytsamlega mier til Saaluhiaalpar. Vertu miñ Leidtoge i giegnum þeñañ Eymdardal, og yfergief þu mig alldrei, þaangad til þu leider mig i Rijke eilijfrar Sælu og Saaluhiaalpar, Amen.

# III. Um þa heiløgu Kvølld-Maaltijd DROTTeñs.

Þad þridia sem heyrer til Christelegum Lifnade.

J Þridiu Grein skalltu Saal mijn opt og ofialldañ, med mikellre Gudrækne,

gaanga

gaanga til Guds Bords, og hallda Kvølld-Maaltijd DRottens, i Minning hans Dauda og Pijnu, Þvi þad er þad Bordhald, sem DRotten hefur tilskyckad og bwed, handa sijnum Andlega nijfæddum Børnum, Þar er sw Fædan, med hvørre han endurlijfgar og styrker sijn nijfædd Børn, Þviad so talar þin Gud og Lausnare, Taked og eted, Þad er min Lijkame, Sem fyrer ydur verdur giefen, Til Fyrergiefningar Syndana. Og en aptur: Drecked aller hier af, Þesse Kaleikur er Eitt nijtt Testament i mijnu Bloode, Sem fyrer ydur verdur wthellt til Fyrergiefningar Syndana. Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22. 1. Cor. 11.

Hier heyrer þu mijn Saal, hvad þin DRotten og Lausnare lætur fram bera aa sitt Bord, ei ad eins Braud og Vijn, Helldur og so sin H. Lijkama, og sitt H. Blood, Þviad þetta Braud sem vier brjootum, er Hlutteknung HErrans Christi Lijkama, Og saa blessadur Kaleikur hvørn vier blessum, þa er han og Hlutteknung Christi Bloods, 1. Cor. 10.

Þar fyrer veit eg og trwe, ad min Drotten

tteñ JEsus Christus, saññr Gud og saññr Madur, er sialfur naalægur þessare siñe Jñsetningu og Skyckan, Og giefur mier aasamt med Braude og Vijne sitt saññarlegt Holld ad eta, og sitt saññarlegt Blood ad drecka, epter Jñsetningar Ordaña Hlioodan. Ad vijsu miñ DRotteñ JEsu, Pu ert Hwssens Herra, eñ eg er Giestureñ; Siaa, hier kiem eg aumur Vegfarande, wr Eydemørku þessarar ørgu og illu Veralldar, hladeñ af Erfide og Eymdum, Verande fram fyrer þig þyrst og hwngrad og veykt Hiarta, Eñ þo Riett-trwad. Miñ HErra JEsu! Endurnær og lijfga þu mig af þijnu Borde, og styrk mig med þiñe Fædu, so ad eg verde saddur og Saalnhoolpeñ.

Kom hier mijn Saal, og flijt þier til Kvølldmaaltijdar þijns DRotteñs, so þijn Trw mætte styrkiast, og þitt Hiarta endurlijfgast, Vert ecke vantrwud, helldur trwud, Pviad siaa þu, DRotteñ þiñ Gud og Endurlausnare, giefur þier hier vijst Teikn, Pant og Jñsigle, ad þu af skiærre Naad og Myskun skallt verda Eigande og Erfinge ad øllu þvi sem hañ hefur med Foorsiær-

ornfæringu sijns Hollds og Bloods wtve-
gad, Sem er Fyrergiefning allra þiña
Synda, og þad Riettlæte sem fyrer Gude
gillder, og eilijft Lijf. Ad ollu þessu skall-
tu eigande verda so sañarlega, Eins og þu
sialfur hefder þad a Krossenum forþient
og wtvegad. Jaa ad vijsu, Hañ vottar
hier med, ad þu fyrer Guds Auglite, siert
hñs vegna so Riettlaatur, so hreirñ, so hei-
lagur hallden, so þægur og þeckur Gude, so
Sæll og Saaluhoolpeñ, Eins og þiñ Her-
ra JEsus Christus er sialfur.

Og ad auk alls þessa, giefur hañ sig nid-
ur i þitt aangrad Hiarta, fyrer Heilagañ
Anda, og vill verka med þier lifande Hugg-
un, nijtt Lioos og nijañ Lifnad ad Eilijfu,
Ad vijsu miñ HErra JEsu, Pañeñ er eg t
þier, og þu i mier, Og so er eg samteingdur
vid þig, Miñ Lausnare, so sem lifande Lim
ur vid lifanda Lijkama, so sem Ein Brwd-
ur vid siñ Brwdguma, Verande Holld af
hañs Hollde, Bein af hañs Beinum, Jaa,
Eg er samteingdur þier, eins og Vijnkvist-
ureñ er vid Vijnstockeñ, og so sem Greiner-
nar vid Adal-Tried, Joh. 15. Og so fæ eg
af þier ad ødlast alla Tijma Vøkvan og
Krapt,

Krapt, Huggun og Glede, nytt Lijf og nija Lijfgan, og so samteingdur og bunden er eg vid þig i Saalu og Lijfe, fyrer sanā Trw, og heilagañ Anda, ad mig og þig kañ hvørke nockur Neyd nie Daude ad skilia.

Lofadur siertu DRotteñ miñ Lausnare, ad þu hefur so Fødurlega forsorgad mig, og hefur slijka Naadar-Maaltijd epterlaat ed, af hvørre eg maa faa og ødlast heilnæma Fædu og Heilsu-Dryck fyrer Riett hungrad og þyrst Hiarta, og sæta Huggun fyrer mijna Saal, so ad eg i Trwñe stødugur og sterkur blijfe, og stadfastur allt til Enda, Amen.

Þu hefur sagt miñ DRotteñ JEsu: Þad Skulu Þier Giøra i Mijna Miñing. Miñ Gud! Hvørsu Liwfleg og sæt er þesse Miñing, hvørsu Gledelega kañ hun ad hugga mijna Saal? Jaa miñ DRotteñ JEsu Christe, Þegar eg Et og Dreck af þijnu Borde, þa helld eg hvørttveggia, Sem er bæde Huggunar Miñing, og Þacklætis Miñing þijns heilaga Nafns.

Fyrst helld eg Huggunar Miñing, og helld i Hiarta og Hugskote mijnu Allar Dijrdlegar Hætijder Arsins, hvar miñ

þijna Velgiorninga, og hugga mig vid þa somu.

1. J Medtekningu þiñar Kvølldmaaltijdar, helld eg Gledelega Joola-Haatijd, Þviad þijn H. Kvølldmaaltijd vottar og ber Vitne, ad þu Sañarlega hefur aa þig teked mitt Holld og Blood, Og ert miklu meir Teingdur ordeñ vid mig, eñ vid heilaga Eingla, Þviad þu hefur ecke þeirra Naatturu, Helldur Mañaña Holld og Blood aa þig teked.

2. Vid þitt Bord helld eg þijna Pijningar Haatijd, Þviad þijn Kvølldmaaltijd vottar þad, ad þu siert ordeñ su Rietta Skullda-Foorn fyrer mijnar Synder, Jaa, hier Et eg þad rietta Paaska-Lamb, sem er þig sialfañ HErra JEsu, hvør ed fyrer mig ert Foornfærdur og Lijflaateñ.

3. Vid þitt Bord helld eg og eirneñ glede lega Paaska-Haatijd, Þviad med þvi eg er ordeñ hluttakande þijns heilaga Hollds og Bloods, og er þiñ Lidur og Limur, Þa er mijn Trw og stadfastleg Von, ad lijka eins sem þu ert uppriseñ af Dauda, og lifer Eilijflega, So mun eg þiñ Lidur og Limur ecke i Grøfeñe liggia ad Eilijfu, helldur rij-

sa

sa upp aptur, Lifa og verda Dijrdarlegur.
4. Vid þitt Bord nær eg geing til þess, Þa helld eg so Hatijd þinar Uppstigning-ar til Himna. Þviad med þvi ad þu med Bergingu þijns Hollds og Bloods vott-ar, ad eg sie i þier, og þu i mier, og sie Limur þijns Lijkama, Þa mun eg vissulega Eitt Siñ med mijnum Lijkama upp fara i Himeneñ, og Oendañlega þar lifa, sem þu miñ DRotteñ og mitt HØfud ert, og lifer Eilijflega, 1. Cor. 15.
5. Nær eg geing til þijns Bords, Þa helld eg og so lijka þa Dijrdarlegu Hvijta-suñu Hatijd. Þvi þijn Kvølldmaaltijd vottar fyrer mier, ad þu bwer i mijnu Hiar ta, og ad eg fyrer heilagañ Anda, sie vid þig samteingdur og bundeñ, og ad hañ sie miñ Pantur og Jnsigle uppaa Himnarijke og eilijfa Arfleifd, saa ed i mier uppvekur og kveiker Lijf og Huggun, Frid og Fognud, Og vottar fyrer mijnum Anda, ad eg er þiñ Brooder og eillijfur Samarfe.
6. Þa eg geing til þijns Bords, helld eg og eirneñ Hatijd H. Þreñingar, og hugga mig þar vid, ad eg hiedañ i fraa og alla Tij-ma, mun vera Mustere Guds, og ad su H.

Prenning mune til mijn koma og hiaa mier bwa, Joh. 14. Jaa, ad eg epter þetta Lijf mune faa og ødlast eilijfa Saaluhiaalp, og siaa minn Gud og DRottenn Andlite til Andlitis ad Eilijfu.

7. Vid þitt Bord helld eg og eirnenn Haatijd Allra Heilagra, Og hugga mig vid þa liwflegu Eining og þad Gledelega Samfielag, sem vier þijn Børn, fyrer sanna Trw eiga munum med þier minn DRottenn, og fyrer þig med Fødurnum og H. Anda, epter þvi sem þu hefur sagt: Hvør hann Etur mitt Holld og Dreckur mitt Blood, Saa skal vera med mier, og eg med hønum, Joh. 6. Og enn aptur, ad þeir sieu aller Eitt, eins og þu Fader i mier, og eg i þier, ad þeir sieu so Eitt i oss, Joh. 17. Jaa minn DRottenn, So sem þad er Eitt Braud, so erum vier marger Eirn Lijkame, þvi vier Etum aller af Einu Braude. Minn DRottenn, Stoora Glede hefur Saal mijn af soddann Himneskum Fielagskap, þvi er eg gladur vid þitt Bord og þijna Kvølldmaaltijd, vitande fyrer vijst, ad eg aasamt med øllum þijnum Elskulegum Heiløgum mune erfa alla þijna Fiesioodu og þijn himnesku Aud-

æfe,

æfe, og ad þeim eigande verda Eillijflega.

8. Miñ Lausnare, so talar þiñ H. Postule: So opt sem þier Eted af þessu Braude, og Drecked af þessum Kaleik, skulu þier kuñañ giøra Dauda DRottens, þangad til hañ kiemur, 1. Cor. 11. Þar fyrer helld eg eirneñ vid þitt Bord, Hatijd þiñar H. Hijngadkomu a Seinasta Dege, og gled mig v:d þijna Aunglijsing, þegar þu munt koma synelega, ad taka af þessa þijna Kvølldmaaltijd, og giørvallt Predikunar Embætted, og taka mig til þijn, so eg sie þar sem þu ert, þar þu hefur mier añad Himneskt og eilijft Bordalag tilreidt og bwed, i R:jke þijns Fødurs', hvar eg mun med Abraham, Isaac og Jacob og øllum Heilogum þijnum, til Bords verda sitiande, og Braud etande eilijflega. Uñ allt þetta er eg hurande so opt sem eg geing til þijns Bórds, og andvarpa af øllu Hiarta, segiande: DRotteñ JEsu kom, Ja kom snarlega miñ Lausnare, og dvel ei leinge, Apoc. 22.

Framveigis miñ Gud og DRotteñ, þa helld eg jafnframt þessare þiñe Maaltijd, Eina rietta Packlætis Miñing þijns H.

Nafns. Hvlad med þvi ad þu hefur so rijk uglega og Dijrdlega Endurnært og mett ad mig, þa ætte mitt Hiarta þar aptur at moote ad verda breñande af riettu Packlæte, þackande þier fyrer alla og sierhvorta þijna Velgiorninga, sem þu mier aumum syndugum Mañe alla mijna Lijfdaga veitt og audsynt hefur, til Lijfs og Sálar.

Jaa ad vijsu, Eg helld hier eñ nu aptur ad nÿju þijna stærstu Haatijd, og þacka þier af Hiarta fyrer Skøpunena, fyrer þijna Openberan, fyrer þijna Holldgan og hingadburd, fyrer þijna Endurlausn, fyrer þitt Ord og þijn Heilogu Sacramenta, fyrer saña Trw sem þu hefur mier giefed, fyrer þiñ H. Anda, hvørn þu hefur sendt i mitt Hiarta, og fyrer allar adrar Lijkamlegar og Andlegar Gaafur og Velgiorder. Miñ Gud og DRotteñ, hvorneñ kañ eg ad reikna þad allt? Hvørneñ kañ eg þad ad mæla eda meta i þessu mijnu Hollde, hvad mikla Hlute þu hefur giefed og veitt miñe Saalu?

DRotteñ miñ JEsu, Miñ Endurlausnare, Hiaalpa þu mier, so ad eg optar eñ sialldnar gaange til þijns Bords, og halldc

de Miñing þijna med Glede og Fognude, Siaa, Eg er þiñ Brooder og þiñ Samarfe, Miñ Gud, Eg er þijn Skiepna, eñ þu ert miñ Skapare, Eg er þitt Barn, og heyre til þijnu Rijke, Þvi ber og hæfer ad eg halldе mier vid þitt Bord. Hiaalpa þu mier miñ Endurlausnare, ad eg jafnlega halldе þar þijnar Heilagar Haatijder, med allre Gudrækne, Til Trwarstyrkingar mijnu Hiarta, og ad þacka þier fyrer þijna Velgiørninga, og þioona þier so leinge sem eg lifi, So ad eg mætte epter þetta Eymdarfulla Lijf, Eta Lijfsins Braud i þijnu Rijke, med øllum þijnum Utvølldum, Amen.

Ad Sijdustu Saal mijn, þegar þu etur af Braude DRottens, og dreckur af hañs Kaleik, þa gleym ecke þijnum Samchristnum Naaunga, sem þier samneyter. Eg medkieñe ad hañ er þiñ Limur, þiñ Brooder, Guds Barn og Erfinge so vel sem eg, Þar fyrer elska eg hañ þiña vegna, Og er reidubweñ ad giøra hønum Gott sem siaalfum mier. Stijr þu mier og stioorna miñ DRotteñ, so ad eg alla Tijma og af Hiarta elske miñ Samchristeñ, og siaae aunnur aa þeim Voludu, og laate mier þeirra Ne-

id gaanga til Hiarta, so ad eg ætijd giefe þeim Hwngrada ad eta, Þeim Þyrsta ad drecka, Hijse þañ Framanda, Klæde þañ Nakta, Hugge þañ Siwka, og giøre nockud til gooda øllum Faatæktum og Naudstoddum. Hiaalpa þu mier ad eg alla Tijma sie miñugur þeß mikla Ords, sem aa seinasta Dege mun framgaanga af þijnum Blessada Muñe. Sañlega seige eg ydur: Ad hvad sem hellst þier hafed giørt mijnum miñstu Brædrum, þad giørdud þier mier. Og þa eñ aptur, Sañlega seye eg ydur: Hvad þier hafed ecke giørt Einum af þeim miñstu, þad hafed þier og ecke mier giørt, Matth. 25.

## IIII. Vm Daglegañ Kroß og Mootgaang Guds Barna.

J Fioordu Grein, skalltu Saal mijn læra ad hwast vid Daglegum Krosse, hvørn Guds Børn verda alla Tijma ad bera i þessum Eymdardal, epter sijnum Lavarde og Lausnara. Þviad so talar H. Ande, Ad fyrer margar Harmkvælingar bllootum vier iñ ad gaanga i Guds Rijke, Act. 17.

Ad vijsu mijn Saal, Þesse Lærdoomur um̃ Krossen̄, er eirn af stærstu Leyndardoomum, i hvorium Man̄leg Skynseme veit sig ecke ad skicka, alleina er þad i Guds Orde open̄berad, so sem an̄ar haaleitur Himneskur Leyndardoomur, og af Guds Orde hlíootum vier þad ad læra. Þetta er Søken̄ og Efned mijn Saal, hvar fyrer vier so gongum nauduger under Krossen̄, og erum hrædder vid hn̄, fordunst han̄, eins og Gud yfergiæfe oss med øllu, eda være vor Ovinur og hatade oss, þegar vier liggium under Krossenum. Þetta er oss kien̄t, og so sem til Dæmis og fyrer Siooner sett, aa þeim tveimur Læresveinum sem geingu fra Jerusalem til Emaus, aa Paaskadagen̄, hafande Hrygd og Motgang, hvørium DRotten̄ byrtest i An̄arlegre Mynd, og þeirra Augu voru so halldeñ, ad þeir þecktu han̄ ecke, Luc. 24. Siaa þar mijn Saal, þad er Mynd Krossen̄s, honum er so haattad, ad i Mootgangenum giorer HErran̄ sig Okien̄dan̄, Lætur ei siaa sig nie þeckia, so ad han̄ Optsin̄is Ovart kiemur med sin̄ Kross, uppaa sijn allra kiærustu Børn. En̄ þetta er han̄s Lyst, ad breyta so vid sijna Ast

vine, og spila og leika vid þaa aa Jardar-Krijngluñe, Prov. 8. Esa. 64. Jaa ad vijsu, hañ breyter Stundum so þunglega vid þaa, ad þeir meina Optsiñis ad Gud hafe allre Giæsku og Elsku til þeirra gleymt. Eñ uñ sijder lætur hñ þeckia sig, so ad þeirra Hiørtu verda full Fagnadar og Glede. Þar fyrer lærdu mijn Saal ad skicka þier Riettelega i þessum Leyndardoome, Og skalltu vel athuga og merkia þessar Sio Kross-Reglur, sem hier epterfylgia, Þa mun hiñ Kross ecke miøg þungur, helldur liettbær verda.

# I. Kross Reglañ.

Aller Riett-trwader eru af Gude þar til skickader, ad þeir bere Christi Kross, Þvi so talar S. Paall: Hvøria Gud hefur aadur fyrerhugad, þa h[illegible]fur hañ til skickad, ad þeir skule verda samlijker hañs Sonar Mynd, so ad hañ sialfur sie saa Frumgietne aa medal margra Brædra. Rom. 8. Hier heyrer þu mijn Saal, ad þad er so tilskickad og aasett, ecke alleinasta i Moodur-Lijfe, Helldur aadur eñ Verølldeñ var Grundvøllud, ad þu skuler lijda Kross og

Mootgaung, uppaa þad og til þess ad þu skuler verda lijkur þijnum Lausnara JEsu Christo. Jaa mijn Saal, þu ert Holld af hans Hollde, og Bein af hans Beinum, Hvar fyrer villtu þa ecke lijda med hønum? Hañ er HErrañ, þu ert hans Læresveirn, Hañ er Brwdgumeñ, Eñ þu ert Brwdureñ, Hañ er Høfuded, Þu ert Limureñ. Villtu þa eiga betra eñ hañ? Þu aatt ad hallda og aalijta DRotteñ JEsum so sem Hertoga Krossens, saa sem med siñ Kross hefur geinged undañ sijnum Læresveinum, Og siaa þu hvørsu aller Heilager hafa i Hørmungunum og Krossburdenum hønum epterfylgt. DRotteñ hefur geinged undañ med siñ allra þijngsta Kross, hønum fylgia Riett-trwader epter, og ber hvør og Eirn sitt Ok, siñ Kross, med þeirre Gledelegre Von, ad fyrst þeir verda hier lijker HErranum JEsu Christo, i Krossburdenum og Hørmungunum, þa mune þeir og so hønum verda lijker i eilijfre Dijrd.

DRotteñ Gud miñ, Þu sem sett og skickad hefur þiñ Son til eins Krossberara, Gief þu mier Skilning, so eg mætte underſtanda og skilia allt þitt Daadsamlegt

Raad og soddañ Leyndardoom, So ad eg gaange Gledelega under Krossen, og epterfylge mijnum liwfa Lausnara, og verde hønum lijkur, hier Stundlega, Eñ Aññars Heims Eilijflega, Amen.

# II. Kross Reglan.

Pad er Skipan, Bod og Bifalning HErrans JEsu Christi, Ad aller Riett-Trwader skuli bera sijna Krossa epter hon um, Pviad so talar hañ: Taked mitt Ok uppa ydur, Matth. 11. Og i ødrum Stad, Hvør hañ vill fylgia mier epter, saa afneite sialfum sier, og take siñ Kross uppa sig Daglega, Og Epterfylge mier, Luc. 6. Jaa mijn Saal, Pesse Skipan og Bifalning klemur ei vid þaa Vantrwudu, helldur alleina vid Heilaga og Riett-trwada. Pviad Kross DRottens er soddañ Edla Clenodium, ad hañ vill aungvum Tyrkia, eda Vantrwudum ødrum trwa þar til. Jaa Krossen er soddañ Skart, ad ecke vill Gud uña þess Ogudlegum. Hugleid þu Simon af Cyrene, hvilijkur Heidur er hønum þad, ad hañ bar Krossen epter HErranum Christo, Og hvad stooran Heidur

og

og Sooma mun hañ hafa þar aa Sijdasta Deige.

MIñ Liwfe Lausnare JEsu Christe, Þu sem oß hefur skipad ad bera þiñ Kroß, Gief mier hlijded Hiarta, So eg gladlega gaange under þitt Ok, og viliuglega epterfylge þier, i øllum Krosse og Mootgaange, Amen.

# III. Kroß Reglañ.

HErrañ JEsus hefur Þriggia Handa Mootgaangs eda Kroß Skoola. Sa Fyrste er Typtunar Skoole, þegar hañ vitiar sijña Utvaldra, Agar þaa og Typtar vegna þeirra Synda og Misgiorda. Sa Añar Skoole kallast Reinslu Skoole, þegar hañ proofar þeirra Trw og Von, so ad þeir ydke sig i Bæna Akalle og ødrum Gud legum Dygdum. Þridie kallast Vijslar Skoole, þegar hañ lætur sijna lijda Offookner og Dauda, Guds Nafns vegna, 1. Cor. 11. Marc. 7. Ps. 119. Esa. 28. Esa. 6. Ps. 44. Rom. 8. Heyrdu þetta mijn Saal, Þu ert og so Eirn Læresveirn, gaangande i HErrañs Skoola, þar fyrer bregdst þad ecke, hañ mun leida þig i þessa

sijna

sijna Skoola, Eirn af þeim eda fleire. Ef hañ straffar þig vegna þiña Synda, so sem hañ giørde þeim gooda David, þa þacka þu hønum fyrer sijna Typtan, Psal. 119. Og seig þu sem David sagde: Fyrer Goodu vard mier þad DRotteñ, ad þu typtader mig. Nu ef hañ setur þig i Reynslu Skoola, og høndlar furdañlega vid þig, so sem hañ giørde Joseph og Job, þa huxa þu ad hañ vill þar med reyna, auka og efla þijna Trw og Von, og uppvekia þig til Bæna-Akallsins, og hallda þier vid Otta DRotteñs, Esa. 16. Eñ ef hañ veiter þier hañ Heidur, ad þu vegna hañs Nafns fær ad lijda Ofsookner eda Dauda, þa vertu gladur af Hiarta, ad þu ert verdugur þess ad lijda Smaan og Vanheidur vegna hañs Nafns, Act. 5.

HErra JEsu Christe, miñ liwfe Lausnare, Þu skamadest þijn ecke med Smaan og Vanheidre ad gaanga aa Krossenum, Veittu mier þad og gief, ad eg skameft mijn alldrei, ad standa under Krossenum med þiñe Moodur. Ef þu villt so Daadsamlegg med mig fara, þa hialpa þu, ad eg og eirneñ þier daadsamlega fylge, og sie rei-

dub weñ

dubwen mitt Lijf ad laata þiña vegna, Ef þad er þiñ Vilie.

## IV. Kross Reglañ.

Kross og Mootgaangur Riett-trwadra er Teikn Guds Astar og Elsku, eñ ecke hañs Reide. Pvi so talar DRotteñ: Hvørn eg elska, þañ hirte eg, Apoc. 3. Og eñ aptur, Heimureñ mun fagna og glediast, eñ þier munud syrgia, Joh. 16. Doomureñ uppbyriast aa Guds Hwse, seger St. Petur, 1. Pet. 4. Heyr þu þetta mijn Saal, Jaa mijn Saal, saa hañ elskar Barn sitt hañ hirter þad, og agar þad med Vendenum. Pviad hvør er sa Fader ad ecke agar sitt Barn; Job. 12. Eñ siertu aan Hirtingar, Hvøria øll Guds Børn smackad hafa, þa ertu Hiaa-Barn, eñ eingeñ riettur Sonur. Siaa þu þiñ HErra JEsum, Eingieteñ Son Guds, hvørsu þwngur Fadereñ var hønum, og sloo hñ hardlega, vegna añarlegra Synda.

HJaalpa mier HErra JEsu miñ Drotteñ, ad eg giarnsamlega lijde þitt Hirtingar Hrijs, og miñest vid þad, so sem giøra good Børn, og ad eg alla Tijma packe

þier

þier fyrer þad, og ſege med David: Gott var mier þad DRottenn, ad þu Lijtelæckader og Agader mig.

## V. Kroſs Reglann.

Hun er þeſſe, Pa er Gud næſt, Bøled geingur hædſt, Pvi ſo talar Gud i Pſalmenum: Eg er hiaa hønum i Neydenne, Eg vil hønum þadann wtryckia, og hann Vegſamleggann giøra, Pſalm. 91. Mijn Saal, Petta ſkilur ecke Holld nie Blood, og ecke trwer þad þvilijku. Vier meinum ſo alla Tijma, Pegar Saar og Pungur Kroſs aa oſs liggur, ad Gud hafe þa gleymt oſs, hann hirde ecke umm oſs, hann hafe kaſtad oſs fraa ſier, giefed oſs Andſkotanum i Valld, til ad plaaga oſs og pijna ſem hann vill, enn þad er ecke ſo mijn Saal, Pvi þo Satan ſie þinn Grimmaſte Høfud-Ovinur, og leite epter Noott og Dag ad giøra þier Skada, og koma þier i Olucku, þa kann hann þo ecke Eitt Haar ad ſnerta aa þijnu Høfde, fyrer utann Guds Villia og Leyfe, Jaa mijn Saal, Hvørnenn gietur Gud gleymt oſs? Hvørnenn kann ſaa ad liwga ſem er Sannleikurenn ſiaalfur? Enn þo hann laate ecke ſiaa ſig umm

litla

litla Stund, Þa vill hañ þo med stoorre Myskun samañ safna oss, Esa. 54. Þeim Goodu geingur upp Lioos i Myrkrunum, fraa þeim Naaduga og Myskunsama Gude. Sie nu Gud med mier, hvør kañ þa ad vera moote mier? Rom. 8. Hvad kañ eg ad missa, þegar miñ Gud er med mier? O Drotteñ Gud miñ, hafe eg þig, þa hirde eg hvørke um̃ Himen nie Jord, Og þo ad hvortveggia, Lijf og Saal vanmegnest, þa ertu þo O Drotteñ Huggun mijns Hiarta, og mitt Hlutskipte, Psalm. 73.

# VI. Kross Reglañ.

Mootgaangur og Kross Guds Barna þienar þeim alltijd til hiñs Besta, eñ alldrei til hiñs Versta, þviad so talar S. Paall: Vier vitum ad þeim Gud elska, þiena aller Hluter til hiñs Besta, Rom. 8. Og eñ stendur so skrifad, Sløg Elskarans eru jafnañ good, Prov. 27. Ad vijsu mijn Saal, Krosseñ þienar margfalldlega til hiñs Gooda, Þviad hañ kieñer oss ad þeckia vorar Synder, so sem skrifad stendur: Eg vil typta þig med Hoofe, So þu hallder þig ei saklausañ, Jer. 30. Hañ rekur Mañ til Gu-

ds Ords, hvriad so er skrifad, Esa. 28. Kroß og Mootgangur kieñer ad merkia Orded. Hañ efler og uppvekur Trwna, so sem skrif ad er, 1. Cor. 11. Slijk Hormung hendte oß þar fyrer, so vier skylldum ecke setia Traust uppa oß sialfa, helldur a Gud, sem þar Daudu lijfgar. Hañ kieñer oß Riettelega ad akalla Gud, Hvriad so lesum vier: Þegar Hormungeñ er a Ferdum, þa leita Meñ þijn, og þegar þu Refsar, þa kalla þeir af Hiarta, Esa. 26. Hañ kieñer ad fordast Syndena, so sem skrifad stendur: Nu ertu ordeñ heilbrygdur, Syndga þvi ecke optar, so þig hende ecke añad verra, Joh. 5. Krosseñ gierer þad, ad oß leidest þetta Lijf, og verdum af þessa Heims Lijfdogum þreytter, og hañ uppvekur i oß For leinging eillijfs Lijfs, so sem skrifad stendur: Vier hofum hier ecke þañ Stad, sem vier eigum ad blijfa, helldur leitum vier þeß Okomna, Heb. 13. Ja ad vijsu mijn Saal, aller Hluter hliota ad þioona þeim Riett-trwada til hiñs Besta, so sem S. Augustinus skrifar, ad jafnvel sialf Syndeñ verde honum ad Goodu. Hvriad fyrer Christum faum vier meira og betra, eñ

vier fyrer Syndena mist hofum.

MIñ Gud og DRotteñ, Skrifa þu þessar ægiætar Hugganer i Hiarta mitt, og vardveit þu mig, so ad eg ervænte mier ecke i nockrum Mootgaange, helldur ad eg alla Tijma allt i Daudañ vone og vænte mier alls Goods af þier. Þviad Dadsamlegt er Ord þitt, og Dadsamlega breyter þu vid þijna Heilaga.

# VII. Kross Reglañ.

Poleñmæde, Bæna-Akalled og Voneñ giøra allañ Kross liettbærañ, So hañ verdur alldrei ofþungur. Þvi so skrifar Spaamadureñ Jeremjas. Pad er eirn merkelegur Hlutur ad vera Poleñmoodur og ad vona uppaa Giæsku DROtteñs, Harmagraat. 3. David seger og eirneñ: Akalla þu mig aa Tijma þiñar Hormungar (seger Gud) þa vil eg frelsa þig, og þu skallt prijsa mig, Ps. 50. Lijka seger Syrach so: Lijted aa Dæme þeirra Gømlu og merked þau, Hvør hefur nockurn Tijma orded til Skamar saa sem vonad hefur aa DRotteñ? Syr. 2. Jaa ad vijsu mijn Saal, Þetta er ei Olijkt, og þa Madur skal

bera Byrde, eda eitthvad pad sem pungt er, Take hañ Riettelega Byrdena upp, og hafe hañ pañ sem hønum hiaalpe og lypte under med, pa verdur Byrdeñ þeß Mun liettare. Pañeñ er Poleñmædeñ, Bæneñ og Voneñ, ecke añad eñ so sem Hendur Mañs eda Armlegger, hvar med Riett-Trwad Mañs Hiarta tekur Byrdena uppaa sig, og ber hana so liettelega sem hañ vill, Pviad Poleñmædeñ giører allt liwflega, pvi verdur heñe eckert ofpungt, Og so sem vort Maaltæke hlioodar, Vilieñ dregur haalft Hlaß. Bæneñ tredur sier fr-añ fyrer Gud, og fær vissulega añadhvo-rt, ad Gud tekur i burt Krosseñ, eda giører hañ liettbæraañ og lijdañlegañ. Eñ Voneñ lætur et til Skamar verda, Rom. 8. Helldur veit hun vissulega ad Gud er Trwr, og lætur aungvañ so punglega verda freistadañ, ad O-møgulegt sie ad bera, 1. Cor. 10. Eñ Opoleñmædeñ hun stigger Gud, hindrar Bænena, og giører allt pungt og Obærelegt. Tak Dæme af pijnum liwfa Lausnara JEsu Christo, 1. Pet. 2. Og lærdu allt petta af hønum. Staa pu hiñ sæla Job, hvørsu hañ var Poleñmood-

ur,

ur, og lærdu i þijnum Krosse og Mootgaun ge ad segia sem hañ sagde: Eñ þo DRotteñ take Lijfed af mier, þa skal eg þo samt vona aa hañ, Job. 19.

JEsu Christe miñ Liwfe Lausnare, Gief mier og veit, ad eg sie alla Tijma Poleñmoodur og Bænrækeñ, og lijde miñ Kroß med goodu Giede, og vænte mier hins besta af þier ad Eilijfu, Amen.

## V. Um Kallan og Embætte hvørs Christeñs Mañs, hvørneñ hañ eige i þvi ad standa.

I Fimtu Grein skalltu mijn Saal blijfa vid þitt Kall og Embætte, til hvørs Gud hefur þig kallad, og standa i þvi sama med Trw og Dygd, so ad þu af øllum þijnum Giørdum kuñer Reikningskap ad standa fyrer Gude og Møñum, þviad DRotteñ Gud vor vill ecke ad vier Meñerner sieum Idiulauser i Heimenum, helldur hefur hñ Erfide lagt uppa hvørn og eirn Mañ, epter sijnum þægelegum Villia. Siaalfur Gud DRotteñ er ecke Idiulaus, Joh. 5. Helldur verkar hañ, Stijrer og stioornar og ber Alla Hlute, Verndar, Vardveiter, Bless-

 ar,

ar, Bænheyrer, og Hiaalpar øllum Riett-Christnum Moñum, epter þvi sem Christur seger sialfur. Miñ Fader verkar allt til þessa, Eg verka og eirneñ, Joh. 5. Jaa mijn Saal, Være Gud DRotteñ Jdiulaus um̃ Eitt Auga-Bragd, þa forgeinge øll Verølldeñ. Eins er ad tala um̃ H. Eingla, allersamañ eru þeir Þioonustusamer Andar, wtsender ad þioona þeim sem Saaluhiaalpena skulu erfa, Heb. 1. Alijttu og eirneñ Soolena, Tungled og allar Stiornur, hvørsu skickañlega þær varðveita sitt Hlaup og siñ Gaang, giøra og wt rietta þad Gud hefur þeim bifalad, Ps. 19.

So skalltu nu mijn Saal, og hvør eiñ Madur sa hañ er heilbrygdur, Daglega vakta sitt Kall og Embætte, med Trw og Dygd, og allre Al voru. Hañ skal so kieña, Predika, stijra og stioorna, straffa, vernda, bwa, byggia og bidia, hafa Um̃hyggiu fyrer sijnum, Eins og hañ ætte æfeñlega ad lifa, og alldrei ad deya. Og þetta er Vilie Guds og hañs Skipan, og allt þetta eigum vier ad giøra i Hlijdne vid Gud, og i Ast og Elsku vid þa sem epter oss koma. Þar med skal hvør Madur Dag-

lega

lega so lifa og trwa, og eina gooda Samvitsku geyma, so ad hañ aa hvørre Stundu sie vel skickadur til Christelegrar Burtfarar wr þessium Heime, so hañ kuñe ad segia med St. Paale: Stund miñar Burtfarar er naalæg, Eg hefe vel barest, og endad mitt Hlaup, Eg hefe hallded Trwñe. Og nu epter þetta er mier fyrerætlud Corona Riettlætesins, hvøria DRottenñ saa riettlaate Doomare mun giefa aa þeim Dege, Ecke ad eins mier, helldur og øllum þeim sem elska hañs Tilkomu, 2. Tim. 4.

Þar fyrer mijn Saal, Taktu vel Vara aa þiñe Kallan, stunda þitt Embætte med Trw og Dygd, til hvørs þu ert af Gude kølluд, so þu gaanger þar iñe; so sem þier ber og hæfer, med allre Poleñmæde og Hoogværd, Eph. 4. Eñ staa þu til ad þu bliifer giarnañ i laagre Stiett, Þad er þier betra eñ allt þad Heimureñ aastundar, Syr. 3. Eñ ef DRotteñ upphefur þig, og setur þig haatt, þa vert ecke stolltur, Helldur þeß hærre þu ert, þeß meir þu þig lijtelæter, þa mun DRotteñ vera þier hollur, Þvi hañ er eirn Gud Lijtelætesins, Og hvør er slijkur sem vor Gud, Hvør sig hefur

so haatt sett, Eñ sier þo þad Lijtilmootlegt er, bæde aa Himne og aa Jordu, Ps. 133.

Stunda þu ecke epter hærre Stiett, og hygg ecke yfer þitt Megn, Helldur, hvad Gud hefur boded þier, þad tak þu þier jafnañ til, Syr. 3. Þviad hønum skalltu standa Reikningskap. Og hvad ei til þijns Embættis heyrer, þar laattu þijna Forvitne epter liggia, Þviad allt til reidu er þier meira bifalad, eñ þu kañt ad fullgiora.

Þreyng þu þier ecke iñ i nockurt Embætte, (so sem nockrer giora) Og laat þier ecke þykia, ad þu siert þar vel til falleñ, Syr. 7. Þviad soddañ Siergiæde hefur margañ sviked, og þeirra Metnadur hefur þeim steypt, Þvi þad batar þig ecke, þo þu gaper epter þvi sem þier er ecke befalad.

Giør þu ecke allt epter þijnu Hofde, i þijnu Embætte, og vert ecke Rijkelaatur þegar Meñ þurfa þijn vid, Syr. 10.

Eñ ef þu ratar Kross og Mootgaung, þa vertu Hughraustur, og forlaat þig uppaa þitt Embætte, Þvi hvør hañ er Dugnadarlaus i sijnu Embætte, Hvør kañ hønum ad hiaalpa?

Vertu i øllum Hlutum Astundunar-

good-

goodur, og bid þu DRotteñ um̃ sijna Blessan, Pvi hañs Blessan audgar fyrer utañ Abyggiu, Prov. 10. Margur lætur sier miked um̃ verda, og stundar ad verda rijkur, Eñ hañ hindrar þar med sialfañ sig. Þar aa moote er saa margur sem lætur sier lijted um̃ varda, saa vel þyrfte Hiaalpar med, Er þar med veykur og faatækur, aa þañ lijtur Gud med Naad, og hiaalpar hønum fraa Eymdeñe, og kiemur hønum til Heidurs, So marger undrast þad, Syr. 11.

Þar fyrer mijn Saal, Blijf þu i þiñe Kallan, og laat þig þad ecke villa, þo Ogudleger Meñ epter Andæfum leite, Treystu Gude og blijf i þiñe Stiett, Pvi harla audvellt er DRottne þañ Faatæka rijkañ ad giøra.

MJñ DRotteñ og miñ Gud, Eg veit þad vel, ad Mañsins Verk eru ecke i hañs Valld, Og ei er nockurs Mañs Makt, hverneñ hañ skal gaanga aa sijnum Vege, Stijr og stioorna þu mier, med þijnum H. Anda, so ad eg take Vara uppaa mijnu Kalle og Embætte, og stande trwlega i þvi sama. Leid þu mig a þeim rietta Vege,

ad eg skeike hvørke til hægre nie vinstre Handar, Psalm. 119. Greid þu mijna Gøtu epter Orde þijnu, og laat eckert Raanglæte yfer mier drottna, Stioorna þu mier alla Tijma, so þier sie þægelegt, Pvi þu ert miñ Gud, og þiñ goodur Ande leide mig aa rettañ Veg. Eg veit vel miñ Gud, ad eg er (med ødrum) kalladur i þiñ Vijngard, Matth. 20. Og i miñe Skijrn hefe eg lofad þier ad þioona, Eg bid þig, Gief þu mier Heilsu og Heilbrygde, og styrk mig, so ad eg faae bored Þwnga og Hita mijns Embættis og Erfidis vilugle-ga, og sie þier mijnum HErra alla Tijma trwr og hlijdeñ.

## VI. Um Daglegt Bæna-Akall.

Ad Sijdustu og i Siøtta Maata mijn Saal, þa gleymdu ecke Bæna-Akallenu til Guds, Pvi hier aa Jørdu er ecke nockur Hlutur so aumur sem saa Madur er ecke talar vid Gud siñ Skapara, med Daglegu Bæna-Akalle. Sañarlega þa hefur eingeñ Madur nockurn Hlut af sialfum sier, Nema hønum verde hañ giefeñ af Himn-

Himnum, Joh. 3. Pvi allar goodar Gaafur og allar fullkomnar Gaafur þær koma ofañ ad fraa Fødurnum Lioossens, Jac. 1. Bæneñ er (til ad jafna) so sem Saalareñar Hond eda Gaupner, med hvorium vier tokum vid þvi sem Gud giefur oss, Hun er og so lijka sem Vatns-Reña, fyrer hvøria Blessan Drotteñs reñur i vor Hws og Hiørtu, Pvi so stendur skrifad: Bæn hiñs Auma þreynger sier i gtegnum Skijeñ, og lætur ecke af, fyrr eñ hun kiemur þaangad, og liñer ecke fyrre eñ saa allra Hædste lijtur þar til, Syr. 35. Jaa ad vijsu mijn Saal, Dagleg Bæn er sw allra Dijrdarlegasta og augiætasta Guds Pioonustugiørd, Hvøria Gud vill hafa af oss Daglega, Hvørs vegna hañ ei alleinasta so opt og alvarlega aamiñer oss og bifalar ad bidia opt og Oaflaatañlega, helldur giefur hañ oss allra sætustu og liwflegustu Fyrerheit, ad hañ vilie Bænheyra oss, og veita oss og giefa þad allt oss er þarflegt til Lijfs og Saalar. Hañs Skipan og Bifalning hlyder so: Akalla þu mig a þijnum Mootgaangs Dege, og eg skal frelsa þig, eñ þu skallt prijsa mig, Psalm. 50. Og eñ aptur: Bidied,

ied, þa munud þier medtaka, Leited, þa munud þier fiñа, Klapped aa, þa mun fyrer ydur verda upplaated. Matth. 7.

Hañs Fyrerheit og Lofan hlyder so: Sañlega, sañlega seige eg ydur: Hvørs hellst þier bidied Fødureñ i mijnu Nafne, þad mun hañ giefa ydur, Joh. 15. Og i ødrum Stad seger Gud so: Þad skal skie aadur eñ þeir kalla, þa vil eg ansa þeim, og aa medañ þeir eru ad tala, þa vil eg Bænheyra þaa, Esa. 6.

Allijt þu mijn Saal, Epterdæme þijns Endurlausnara, hvørsu ad hañ hefur i þessu Efne vered þijn Fyrermyndan, so þu skyllder breyta epter hønum, hvørsu opt og tijdum, rækelega og af Hiarta hefur hañ beded? Hvad opt hefur hañ fared i Eydemørku, so hañ mætte þar wthella sijnum Bænum, til sijns Himneska Fødurs.

Hañ hefur og ecke alleinasta beded fyrer sijna Persónu, helldur hefur hañ og so kieñt sijnum Læresveinum ad bidia, og dicktad þeim þa DRotteñlegu Bæn, Fader Vor, Matth. 6. Hvar med hañ hefur øllum Guds Børnum, so sem Maal i Muñ lagt, med hvørium Ordum þau eige ad koma

fram̃ fyrer Auglit Guds Himneska Fødurs.

Og so ad þu hafer ecke mørg Ord, Pa kieñer hañ þier, hvørneñ þu ꜳtt ad koma fram̃ fyrer Gud, sem er i mijnu Nafne, seiger hañ: Jꜳ, i Nafne þijns Lausnara JESU Christi, skalltu upphefia þijnar Hendur og þitt Hiarta, med sañre Trw og Hiartañs Trwnadar Trauste til Guds, Ad so sañarlega sem Christur er þiñ Endurlausnare, og situr til Guds hægre Handar, so vissulega sie þijn Bæn veitt, og allar þijnar Andvarpaner Bænheyrdar.

Ad auk alls þessa, þa veitstu og þad um̃ hvøriar Giafer þu skuler Gud bidia, Og med hvørium Hætte eda Mismun. Um̃ Lijkamlegar Giafer skalltu bidia, med nockru Fororde, so framt þad er Guds Villie, og þier sie þad gott og gagnlegt, Þvi Gud veit giørst, hvad sijnum Børnum er gagnlegt, og fyrer bestu, og hvørs þau med þurfa, Og hañ er so Giæskuriikur, ad hañ vill ecke giefa þeim þad sem er skadsamlegt, Þo þaug af sijnu Skilningsleyse bidie hañ þar um̃.

Eñ Andlegar Gꜳfur, sem oss þiena til Sꜳlu-

Saaluhiaalpar, Og hañ hefur lofad ad giefa oss, um̃ þær eigum vier ad bidia aan alls Forords, Fullhugader, eins og Guds elskuleg Børn, Gyrnast þad og heimta, so sem være þad vort eigeñlegt Arfa-Gootz, tilreidt og oss wtvegad af Christo, Sem er Fyrergiefning Syndaña, Riettlæted, Heilagur Ande og eilijft Lijf.

Mijn Saal, Hvør vill ecke vera fws til ad bidia, med þvi ad allar vorar Andvarpaner eru vissulega Bænheyrdar? Hvør vill ecke leita þar hañ maa fiña allt gott? Hvør vill ecke klappa aa þar vissulega verdur upplaated? Matth. 7. Jaa, þad sem hleypur i Faanged aa Mañenum, og oss verdur so sem i Kiølltu kastad, med øllu þvi sem oss er gott og Gagnlegt, til Lijfs og Saalar. Þar fyrer mijn Saal, skalltu bidia O-aflaatañlega, so leinge þu lifer, 1. Thess. 5. Akalla þu Drotteñ i øllum þijnum Verkum og Giørdum, leita þu Hiaalpar og Raada hiaa honum i øllum þijnum aaliggiande Naudsyniuni, Ottastu DRotteñ med algiørdre Gudrækne, Vona þu uppaa hañ, Treystu honum, og haf hañ alla Daga og Tijma þier fyrer Augum, þa muntu

muntu fæ og odlast Naad og Myskun, Luckn og Blessan alla Tijma. Hvlad alld ret hefur nockur Madur orded til Skam̄ar, sæ sem Gude hefur treyst, og hañs Nafn hefur ækallad, Syr. 2. Hvi DRotteñ er nælægur hiæ øllum þeim sem hañ ækalla, øllum þeim sem ækalla hañ i Sañleika. Hañ gierer hvad þeir Gudhræddu gyrnast.

Þacker giøre eg þier miñ Gud og DRotteñ, fyrer þessa þijna O um̄rædelega Velgiørninga, ad þu hefur bifalad oss, ecke alleinasta ad iñflija og falla til þijns Nædarrijka Nafns, i øllum vorum Mañraunum og Mootgænge, helldur hefur þu blijdlega i Looße læted þitt Fødurlega og ælstrijka Hiarta, ad þu fullkomlega Bænheyrer oss, og villt oss alla Tijma veita og giefa i hæfelegañ Tijma, hvad hellst oss er gott og gagnlegt, til Lijfs og Sælar. Eg bid þig miñ Gud, wthell þu yfer mig þijnum H. Anda, Anda Bænañar, Zach. 12. So ad eg æ og alla Tijma hafe Lyst og Gyrnd til ad bidia þig, Daglega ad beygia mijn Hiartans Knie fyrer þier, Allra Elskulegaste Fader, þu sem rettur Fader ert allra þeir-

ra

ra sein Børn nefnast, aa Himne og aa Jørdu, Eph. 3. Hiaalpa þu mier, ad eg Daglega kuñe fram ad koma fyrer þig, med fullu Trwnadar Trauste, O-fadur, i Nafne mijns DRottens JEsu Christi, þig biddiande, þig aakallande i hvørskius Neyd og Mootgaange, Eins og elskuleg Børn bidia siñ aastrijkañ Fødur. Gief og eirueñ ad eg alla Tijma upphefie Heilagar Hendur til þijn, aan Reide, aan Efasemdar, og trwe þvi fastlega, ad allar mijnar Bæner, Jaa Andvarpaner allar sem gaanga wt af mijnu Hiarta, mune sañlega verda heyrdar. Veit og gief mier þad, ad eg bijde þiñar Hiaalpar, hafe Poleñmæde, Setie þier hvørke Skamt nie Tijma ad hiaalpa, helldur bijde mijns Tijma, þvi þier þocknast þeir sem þig Ottast, og vona til þiñar Myskunar, Ps. 147. Miñ Gud, Stijr og stioorna þu mier, og laat þiñ H. Anda uppvekia mig, so ad eg Daglega hure uñ mijna Dauda-Stund, og sie alla Tijma Reidubwen, og alla Tijma af Hiarta biddie þig uñ Saalugañ Endadag, Amen.

# IV. Capitule.

Seige fraa hvorneñ Christeñ Madureñ ska sier hegda og skicka, þegar Gud vitiar hañs med Soottum eda Siwkdoome.

1. Hvørneñ skal Christeñ Madureñ haga sier þegar hañ verdur Siwkur?

Ecke veitstu mijn Saal, hvort Gud lætur þig verda siwkañ, Eda kallar hañ þig burt braadlega aan Siwkdooms, Þar fyrer hefe eg so Optlega aamiñt þig, ad þu skuler ecke skioota aa Frest þiñe Ydranar Yferboot, þaangad til þu verdur siwkur, helldur Daglega, aa medañ þu ert Osiwkur, Kosta Kapps aa ad hafa rietta Trw og gooda Samvitsku, og laata alldrei þa Stund, þad Augabragd yfer þig koma, ad þu siert varbweñ vid Daudanum, Ef Gud þig kallar. Tak hier Dæme af þeim Heimska, Druckna og Rijka Nabal, hvørsu DRotteñ sloo hañ skiootlega i Hel, 1. Sam. 25. Gleym ei þeim Rijka Mañe, saa ei villde giefa þeim Faatæka auma Lazaro Braud-Molana, sem fiellu af hañs Bordum, hvørsu braadlega hañs Lijf hafde Enda, Luc. 16. Laat hier og so i Hug koma, þañ Rijka Agyrndar-

Hals, Saa sem ad safnade Vijne og Vist um, og hugdest ad lifa langa Tijma, og hafa gooda Daga, Eñ jafnsnart sagde Gud til hañs: Þu Narre! a þessare Noottu heimta þeir ad þier þijna Saal, Hvør skal hafa þad þu hefur samañdreged? Luc. 12. Set þier og Saal mijn fyrer Siooner, Dagleg Epterdæme þau vid bera, hvørsu marger þeir eru sem braadlega verda burt kallader, aan Soottar eda Siwkdooms, og aadur þeir verda kraanker. Sañlega ertu Saal mijn ecke betre eñ þeir, og ei veistu fyrer, hvad Gud lætur yfer þig koma, helldur eñ þeir vissu þad.

Eñ þegar so ber til, ad Gud vitiar þijn med Soottum og Siwkdoome, þa lærdu ad skicka þier þar iñe, sem þier ber og hæfer.

1. Medkieñdu og jaata þu, Hvør ad sie Søk og Efne til þiñar Soottar og Siwkdooms, Sem er Syndeñ.

2. Leita þu Fyrergiefningar þiña Synda hiaa Gude, og forlijka þig vid hañ.

3. Akalla þu Gud, og bid hañ ad bæta þier, Laat og eirneñ Samkunduna giøra Bæn fyrer þier, Ef þu ert heñe so naalægur, þad verde giørt.

4. Sie

4. Sie Læknaren̄ fyrer Hende, Þa forackta þu ecke Lækningena.
5. Villie þier ecke batna, og Sootten̄ liggur samt æ, þa fordast ad vera Opolen̄moodur, Lijd helldur med Polen̄mæde hvad hellst æ vill gænga.
6. Haf þu þa Trw og þad Traust i þijnu Hiarta, hvørsu veykur sem þu ert og hvad sem æ geingur, ad þu siert Guds Astsamlegt Barn.
7. Freiste þijn Andskoten̄ i Eirn Mæta eda An̄an̄, þa stattu hønum i moote stadfastlega med Guds Orde og Trwn̄e, Og mun han̄ vijkia fra þier.
8. Sie þijn Stund komen̄, Þa gief þig Polen̄moodlega og Liwflega þar til.
9. En̄ ef Gud DRotten̄ bæter þier, Þa vertu hønum af Hiarta þacklætur.

DRotten̄ min̄ JEsu, Geimdu mig fyrer brædum og Ovijsum Dauda, og læt mig ecke deya i mijnum Syndum, Gief þu ad eg Dag og Nott hure um̄ mijna Dauda Stund, Og sie æ hvørium Tijma Reidubwen̄ med san̄re Ydran, Sterkre Trw og stødugre Von, so ad eg mætte sofna i Fride, þegar þad er þin̄ Vilie. En̄ ef þier lijkar,

ar, ad Lijkams Ostyrk, Soott og Siwk-
doom skule ecke liña, Siaa, Pa er eg hier,
Eg veit þu ert so Goodur og Giæskurijkur,
ad þu lætur ecke añad yfer mig koma, Eñ
þad mier er Gagnlegt til Saaluhiaalpar.
Veit þu mier, ad eg hage og skicke mier rett
elega, og sie þoleñmoodur, so muñ Siwkdoo
mur meige verda þier til Dijrdar, Amen.

2. Giørdu lioosar fyrer mier þær Nyju Greiner sem þu
framsetter, so ad eg lære Riettelega hvørneñ eg eige
mier ad skicka, aa miñe Soottar-Sæng.

I.

Fyrst skalltu Saal mijn huxa vel um̃
þad, ad lijka so sem Daudeñ sialfur er
Kaup og Verkalaun Syndareñar, so eru
og allar Sootter, Straff og Refsing Gu-
ds, Hvar med hañ vitiar vor, Syndaña
vegna. Breit þu Saal mijn ecke epter
þeim Vantrwudu Heimsins Sonum, þeg
ar þeir verda siwker, Pa er þeirra Huxun,
ecke Gñad eñ um̃ siñ Aviñing og Fiedraatt,
Adrer huxa um̃ Eitt og Añad, hvar af þeir
hafa maatt faa siñ Siwkdoom, helldur
skalltu laata þijna Huxun vera þad Spaa
madureñ seger: Þijn Jllska og Hreckvijse
hefur Skulldena, ad þu ert so straffadur,
og

og þijn Ohlijdne velldur þvi ad þu ert so Refstur, so ad þu finer og reiner þad, hvöria Sorg og Neyd þad epter sig leider, ad yfergiefa sin Gud og DRottenn, og Ottast hann ecke seger DRottenn Allsheriar, Jerem. 2. Syrach seger og so, Hvör hann syndgar fyrer Skapara sijnum, skal kiemur under Læknarans Hendur, Syr. 38.

Heyr þu þad mijn Sál, og hyxa vel umm ad þegar Gud vill giöra nockud, og sækia oss heim, þa þiena aller Hluter og skicka sier þar til, sem hann vill vera láta, so er og i þessu Efne, þegar vier Menner viluum ecke, eda kunnum ecke ad þeckia Siwkdoom Sálna vorra, þa leggur Gud Siwkdoom uppá Lijkamann, til þess, ad vier skulum hyxa umm Sáler vorar, og giöra Ydran og Yferboot.

Já mijn Sál, Eins og Börnenn forþiena Vöndenn, med sijnum Pilltskap og Avirdingum, so forþienum vier Refsingena og Siwkdoomenn med vorum Syndum. Enn DRottenn! Ef ad þu villder so opt vitia vor, og refsa oss sem vier vinnum til, þá mundum vier ecke Eina hálfa Stund heil brygder vera; Enn allt giörer þu til þess, ad

vier skulum Ottast hitt Nafn.

Optsiñis hirter Gud þau saklausu Børn, so ad þeim Gømlu skule svijda, og þar med til Ydranar uppveklast. So sier þu mijn Sæl, ad Soott og Siwkdoomur, er lijka sem Sendebode Guds til vor, og sem Amiñingar Madur, bloodande oss ad læta af Syndunum, og giøra Ydran. so vier skulum ecke fordiarfast i vorum Syndum.

Eñ glæt ad mijn Sæl, hvørsu athugalauser Meñ lifa i Heimenum vel flester, sem aungvañ Kross, aungvañ Siwkdoom hafa, Þeir hirda hvørke uñ Guds Ord nie H. Sacramenta, Þeir gleyma Trwñe æ JEsum Christum, og Bæna-Akallenu. So ad þeirra Sæler eru staddar i stoorum Voda. Þvi þess midur sem Fadereñ typtar Barned, þess Ohlijdnara og Ofyrerlætsamara verdur þad. So geingur þad til med oss, Þess betre Heilsu og Velgeingne Meñ hafa, þess athugalausare og hirdulausare verda þeir.

DRotteñ JEsu Christe, Hier ligg eg i mijnum Siwkdoome, vitande ad þad er þiñ Fødurlegur Vilie. Þvi ef eg kañ ecke ad missa Eitt Hær af Høfde mier æn þij-

ns Villia, Matth. 10. Pa munde eg ecke hafa mist Heilsu og Heilbrygde, ef þu hefdꝛ er ecke viliad. Siaa þu minn Gud, þu hefur nu so tilreidt mig, sem þu villt hafa mig. Og so sem þu i þinne Kvøl og Pijnu, varst ad siaa Madkur enn ecke Madur, so hefur þu nu giørt mig þier lijkann. DRottenn, þegar þu typtar Manenn sinna Synda vegna, þa fortærest hanns Frijdleikur, so sem etenn af Møl eda Motta, Psalm. 39. Eg þacka þier þijna Refsingar Hirting, minn Gud, Eg er viss uppaa þad þu munt laata mier þetta ad Goodu verda. Þu DRottenn elskar Mennena, og Sløg Elskarans eru æ- tijd good og Gagnleg, Prov. 27. Þar fyrer veit eg vijst, ad þesse minn Siwkdoomur mune mier fyrer Bestu verda, Rom. 8. Þviad hvøria þu Elskar, Þaa Agar þu. Þar fyrer er mier þad Gott, ad þu typtader mig og hirter, og lijtelæckader mig, so ad eg lærde ad þeckia þijn Riettinde, Ps. 119. Hiaalpa þu mier minn Gud, ad so leinge sem eg life, þa lijde mier ecke wr Minne þesse þinn Typtunar Vøndur, so eg vackte mig vid Syndenne, uppaa þad mig hende ecke þad verra er, Joh. 5. Amen.

2.

J Afiare Grein mijn Saal, Med þvi þu merker og lærer af þessum þijnum Siwkdoome Lijkamans, hvørsu ad þijn Saal er siwk i Ydranarleyse, þa siaa þu til og leita þar vid af øllu Megne, ad hun mætte heilbrygd verda. Eñ Saalareñar Heilbrygde er ecke añad eñ søñ Ydran og Yferboot, med riettre Trw aa JEsum Christum, fyrer hvøria þu fær og ødlast Fyrergiefning Syndaña, og hefur Naadugañ Fødur aa Himnum, Þviad fyrer Trwna forlijkast þu vid Gud, Rom. 5. Og verdur fyrer hañs Auglite riettlaatur, og fiñur so Frid og Føgnud i þiñe Samvitsku. Og med þessu moote verdur þijn Saal heilbrygd, hvørsu veykur og siwkur sem Lijkameñ er.

EG jaata og medkieñe fyrer þier miñ DRotteñ JEsu, med Sundurknosudu og Sorgfullu Hiarta, ad eg hefe þeñañ Siwkdoom med mijnum Syndum forþient og verdskulldad, og þess ydrast eg nu af øllu Hiarta, ad eg hefe styggt þitt Guddoomlega Vellde, og komed mier siaalfum i slijka Neyd og Olucku. Eñ eg treyste þar

upp aa,

uppar, miñ DRotteñ, þu muner ei forsmaa sorgfullt og sundursleiged Hiarta, Ps. 51. Miñ DRotteñ, aaliittu mig aumañ, og græd þu mitt Sorgfullt Hiarta, Psalm. 147. Fyrergief mier allar mijnar Synder, og hreinsa mig af øllum Misgiørningum, med hvørium eg hefe þijna Reide uppvaked. DRotteñ miñ Endurlausnare, Þu sem so huggunarsamlega talader til hiñs Limafalls siwka i Gudspiallenu, Huggadu so mijna Saal, Og laat mitt Hiarta heyra þetta Huggunar Ord þitt, Vertu Hughraustur Sonur miñ, Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Oho! hvørsu huggunarsom og liwfleg eru þau Ord i mijnu Hiarta, Hvørsu sætlega Endurliifga þau Lijf og Saal, og Bein og Merg? Jaa miñ Gud! Være þitt heilaga Ord og þijn Naadarfull Fyrerheit ecke mijn Huggun, þa fyrerfæreſt eg med øllu i miñe Eymd. Eñ nu trwe eg og veit vissulega, ad fyrer þig og i þijnu Nafne HErra JEsu fæ eg Fyrergiefning allra miña Synda, og er i Saatt komeñ vid Gud, og verd Erfinge eilliifrar Saaluhiaalpar.

3.

J Þridiu Grein skalltu akalla Drottē þiñ Gud, og bidia hañ ad hiælpa þier og giøra þig heilañ, Þviad so talar Syrach, 38. Son miñ, þegar þu verdur siwkur, forsooma þig ecke, helldur bid þu Drottēñ, og mun hañ giøra þig heilañ. Lææt Kyrkiusøfnudeñ bidia fyrer þier til Guds, Þvi so seger DRottēñ: Hvad sem Tveir af ydur verda samtakande a Jørduñe, hvad hellst sem þeir vilia bidia, þad skal þeim veitt vera af mijnum Fødur a Himnum, Þviad hvar Tveir eda Þrijr eru samañ komner i mijnu Nafne, þar er eg midt a mille þeirra, Matth. 18.

Nu ef þu ert so veikur, ad þu gietur ei beded, med Muñenum, þa lææt þijna Andvarpan wtgaanga af trwudu Hiarta, Þvi hun er sterk og Kraptar mikel, og er Ostegiañleg, Og lætur ei af, fyrr eñ DRottēñ lijtur þar til og hiælpar.

JEsu Christe miñ Endurlausnare, Þiñ Sendebode þesse Siwkdoomur, er til mijn komeñ, og ææmiñer mig ad giøra Ydran. Sia, miñ Gud og DRottēñ, Eg medkieñe þijna Glæsku, Er hlijdeñ, og snij

mier

mier til þijn. Og læt koma añañ Sendeboda til þijn aptur, Sem er mijna faatæka Bæn og Andvarpan. Forsmaa þu ecke mijna Graatbeidne, og laat mijna Andvarpan koma fyrer þig. Sie þad þægelegt þijnu Nafne, Og ef þad er mier gagnsamlegt ad eg life, þa reys þu mig upp og hiaalpa mier, so eg faae Heilsu og Heilbrygde ad nyju, med Christelegu Framferde, allt til Dauda. Eñ sie þier þægelegra, ad eg skule nu enda mijna Lijfdaga, þa gief þu mier Saaluga Burtfarar Stund, og kom snart miñ DRotteñ JEsu, og tak mijna Saal i þijnar Hendur, Amen.

4.

J Fioordu Grein, mijn Saal, þa er þier lofad ad leita tilheyrelegra Lækninga, Þvi so skrifar sa vijse Madureñ: Laat þar næst Læknarañ koma til þijn, Þvi Gud hefur skapad Lækningena, Og laat hañ ecke fraa þier, aa medañ þu þarft hañs vid, Syr. 38. Eñ þad er þier forboded mijn Saal, ad leita fyrre til Læknarans eñ til DRotteñs, So giorde Jsraels Kongur Assa i sijnum Siwkdoome, þar fyrer gaf Gud aungva Blessan til hañs Lækningar, og hlaut hañ

þvi

þvi ad deya, 2. Par. 16.

Leita og ecke þeirra Lækninga sem fyrerbodnar eru, og leita ecke Raada hiaa Galldra Møñum, Afguda Þienurum, eda þeim sem fara med Rwner, Ristingar, Særingar, Eda adrar Vanbrwkaner Guds H. Nafns, Þvi so giørde Israels Kongur Ahasia, og leitade Raada hiaa Afgude þeirra i Ekron, sem hiet Belsebub, Þar fyrer liet DRotteñ segia so til hañs: Er þa eingeñ Gud i Israel, ad þu foorst ad leita Raads hiaa Belsebub i Ekron? Þar fyrer skalltu ecke fara af þiñe Sæng, aa hverre þu liggur, helldur skalltu Dauda deya, 2. Reg. 1.

ÞAcker giøre eg þier miñ DRotteñ JEsu Christe, Þu beste Læknare Saalar miñar, ad þu hefur heñe hiaalpad, og hana hreinsad af Syndunum, Og hefur endurnært og lijfgad mitt Hiarta, med Lækningu lifande Huggunar. Eg bid þig Skapare allra Hluta, Gief þu Blessan til þessarar Lækningar, sem þu hefur skapad. DRotteñ ef þu villt, þa kañ hun ad verda mier til Heilsubootar, Matth. 8. Eñ vilier þu ecke, þa stodar hun mig ecke par. Miñ Gud!

Gud! Hier er eg, giør vid mig ſo ſem þu villt, Og hvad þijnu Nafne er til Lofs og Dijrdar, eñ mier er gagnlegt, til Lijfs og Saalar, Amen.

5.

Poleñmæde er edla Bloomſtur i Siwkdoomenum.

J Fiñtu Grein mijn Saal, þa ſiaa þu vel og vandlega til, ad þu hafer Poleñmæde i Siwkdoomenum, og ad þu bidier Gud ad forda þier Opoleñmædeñe. Pad er merkelegt (ſeger Spaamadureñ) ad vera Poleñmoodur, Og vona uppaa Hiaalp DRottens, Pv/ad Myſkun hañs er hvørn Morgun ny, og hañs Trwleike er mikell, Harm. 3.

Hura uñ Lauſnara þiñ JEſum Chriſtum, og fylg hañs Epterdæme, Pa ſier þu hvørſu Poleñmoodur hañ var, i allre ſiñe Pijſl og Pijnu. Jaa ad vijſu mijn Saal, Giørdu ſo ſem ſinaa Børneñ plaga ad giøra, þegar þeim er Jllt i Høfde, Pa koma þau og klaga þad fyrer ſiñe Moodur, kaſta ſier i heñar Kiølltu, og bidia hana ſier ad hiaalpa. Eins lijka ber þier ad giøra mijn Saal, Klaga þijna Neyd fyrer Gude, og kaſta þiñe þreyngiande Naudſyn i hañs

Skaut,

Skaut, og bijd Poleñmoodlega epter hañs Hiaalp og Hiaastod.

Varastu vandlega ad vera Opoleñmoodur, Pviad Opoleñmæde spiller øllu, Stygger Gud, hindrar Bæna-Akalled, og giører Soottena þvi þijngre, sem hun varer leingur. Poleñmæden er eitt heilnæmt edla Bloomstur, Eñ Opoleñmæden er Eitur Hiartans.

O Drotteñ JEsu, Tak fraa mier og afmaa þu og afplaana af mijnu Hiarta alla Opoleñmæde. Vardveit þu mig alla Tijma, og laat hana ei faa Makt og Valld yfer mier, so hun giøre miñ Kroſs þijngre, Eñ planta þu þa aagiætu Poleñmæde i mitt Hiarta, So ad eg Epterdæme þijnu fylge, Lijde allt þoleñmoodur og þeigiande, og vænte og vone þiñar Hiaalpar. Snw þu Stundar-Glasenu, Laat þijna Hiaalpar-Stund koma, Pviad þijn Stund er saa riette Tijmeñ. Gief þu ad eg hafe ørugga Von og vijst Trwnadar-Traust aa þier, Pu ert Trwr og Merkur, og lætur aung vañ verda freistadañ, framar eñ hønum er møgulegt ad lijda, 1. Cor. 10. So laattu nu Drotteñ JEsu, miñ Kroſs, miñ

Siwk-

Siwkdoom faa hañ Enda, sem er bærelegur og lijdañlegur, Eg veit DRotteñ, þu lætur so skie, Amen.

6.

J Siøttu Grein mijn Saal, Ef so fellur til, ad þiñ Siwkdoomur varer leingur, eñ þu hefur meint, þa hura ecke ad DRotteñ hafe þar fyrer gleymt þier, helldur skalltu þad vita, ad i midium Krossenum og Siwkdoomenum, ertu Guds Barn Elsku legt, og Erfinge eilijfs Lijfs. Þvi so sem þad er O-Naatturlegt og O-møgulegt, ad Mooðureñ gleyme sijnu siwku Barne, so er þad Omøgulegt, ad HErrañ JEsus gleyme þier, Þviad hañ hefur skrifad þig uppaa Hendur sijnar, Esa. 49. Jaa ad vijsu mijn Saal, þess siwkara sem Barned er, þess meire og stærre er Mooðureñar Ast og Elska, Og þess meire er heñar Astundan þvi ad þioona, og þvi til gooda ad giora, eins giører DRotteñ JEsus vid þig, Hañ giefur þessa Huggun i þitt Hiarta, og seger: Ertu ecke miñ Dijrdarlegur Sonur. og mitt æstsamlegt Barn? Þar fyrer kieñe eg i Briooste um̃ þig, so eg verd ad vera þier Myskunsamur, seger DRotteñ: Jer-

31. Og eñ i ødrum Stad seger Gud so: So sem Fadereñ Myskunar sig yfer Barna-Kyndurnar, So Myskunar DRotteñ sig yfer þaa hañ Ottast, Ps. 103.

MJñ DRotteñ og Endurlausnare goodur, Eg klaga fyrer þier mijna Neyd, og þad miñ Siwkdoomur vill so leinge vara. Eg bid þig og Grætbæne, Þu Eilijfa Ord Fødursins, Þu sañur Gud og Madur, Þu Huggunarsame Naudhiaalpare, send þijna Huggun i Hiarta mitt, ad eg alla Tijma, og i miñe stærstu Neyd og Daudans Angist sie þitt Barn, i þijnum Hondum og þijnum Fadme liggiande, Laat þitt Myskunar Andlit, ætijd hafa Auga aa mier. Ad vijsu miñ Lausnare, þa þu hieckst a H. Krosse, Leidst Saara Pijsl og Pijnu, Smaan og Spott, og varst af øllum Skiepnum yfergiefeñ, Þa varstu samt Elskulegur Sonur þijns Himneska Føדurs. Þegar sæ Goode Joseph laa i Myrkva-Stofu; Og fornam ei nockra Mañlega Hiaalp, Þa varstu med hønum, Elskader hañ, og frelster hañ i riettañ Tijma, Gen. 39. Þegar Stephanus var utleiddur, og Steinarner fuku uñ Eyrun aa hønum, þa

hafder

hafder þu hañ samt kiærañ, lietst hañ siaa þig, so hañ med gladværu Hiarta kallade upp og sagde: Siaa, Eg sie Himnana opna, og Mañsins Son standanda til Guds hægre Handar, Act. 7. Þa Lassarus laa fyrer Dyrum hins Rijka Mañs, og eingeñ villde giøra hønum til Gooda, Samt voru þijner heilager Einglar i krijngum hañ, Tooku Saal hañs, og baaru hana i Abrahams Skaut og eilijfa Paradijs, Luc. 16. Miñ Gud og Miñ DRotteñ, Eg er þiñ aume Lassarus, hier ligg eg og klappa aa þijnar Myskunar Dyr, med miñe Boon og Andvarpan. Miøg þung er nu Neyd mijn, og ecke er Sootteñ liettbær, Eñ þo veit eg vissulega, og þar uñ hefe eg Vitnisburd hins H. Anda i Hiarta mijnu, ad þu muner ecke yfergiefa mig. Noott og Dag eru þijn Augu opeñ yfer mier, Ps. 91. Eg er þitt Barn og Erfinge eilijfs Lijfs, Þar fyrer vertu med mier i þessare miñe Neyd, Þu gietur frelsad mig, og laated mig til Heidurs verda, Bæde þessa Heims og Añars, Amen.

7.

Freistingar Satans.

J Siøundu Grein, Saal mijn, þa vertu vidbweñ, Þviad Satan forsoomar sig ecke, hañ mun med sijnum Þusundfølldum Vielum og Brøgdum, giøra þier Aræs, og særa Hiarta þitt med sijnum Elldlegum Skeytum. Hier eru eingeñ øñur Raad eñ þaug, ad þu giefer þig ecke med þijnum Ordum eda huxunum, i nockra Dispúteran eda Orda-Kast vid hañ, þviad hañ er þier yferklookur, þu hefur ecke vid hønum med þijnum Mætte eda Megne. Hugleid þu hvad skiede vora Fyrstu Forelldra Adam og Evu, þau urdu fyrer hañs Slægdaumlega og faarlega sviken, þa þegar þaug voru Syndlaus, og høfdu alla sijna Naattúrlega Krapta Óspillta, Gen. 3. Hvad meinar þu þa ad Eirn faatækur syndugur Madur mune megna hønum i moote?

Eñ huxa þu uñ þiñ Lausnara JEsum Christum, og hugga þig fyrst vid þad, ad hañ vard af Satan freistadur, vañ Sigur aa hønum og hañs Freistingum, Þeñañ Sigur hefur hañ þier giefed, so ad þo Diøfullen være miklu Slægare og Sterkare eñ hañ er, þa mun hañ alldrei þig fella. Þar næst Hugleid og haf i Miñe Epterdæme

þijns

þijns Lausnara, hvorneñ hañ mætte Diof-
lenum med Greinum Gudlegs Ords, so ad
Satan vard ad vijkia, Matth. 4. So
skalltu og lijka giora, Tak þier i Hendur
Sverd Andans, sem er Guds Ord, Eph.
6. Og stattu Dioflenum i moote stadfast-
ur i Trwñe, þa mun hañ vijkia frꝏ þier,
Jac. 4.
1. Nu ef hañ blæs þier i Briooſt þessare
Hugan, Og seger: Þijnar Synder eru
meire, eñ ad þier meige þær fyrergiefnar
verda, Pa slꝏ þu hañ med Guds Orde, og
seigdu so med harrre Roddu, opt og Ofialld
añ: Þu lijgur Satan, Þviad so stendur
skrifad: Hvar Syndeñ er ordeñ megtug,
þar er Nꝏdeñ Guds miklu megtugre og
yfergnæfañlegre, Rom. 5.
2. Ef hañ seiger: Christi Forþienan
kiemur ecke þar vid þig, þu ert ecke af Tolu
Utvalldra, Pa seigdu so, og lꝏt ei af: Þu
lijgur Satan, Þviad so talar miñ Endur-
lausnare JEsus: Komed aller til mijn,
þier sem erfvided og erud þreytter og þiꝏd-
er, Eg skal Endurlijfga ydur, Matth. 11.
Og i ödrum Stad stendur so: So sem all-
er eru dauder i Adam, so munu aller lifan-

de verda i Christo, 1. Cor. 15.
3. Ef hañ setur þier fyrer Hugskots Augu Guds Reide, hvørsu þung og griñ hun sie, þa laat ecke af ad svara hønum aa þeññ añ Hatt: So Elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ Son Eingieteñ, so ad aller sem aa hañ trwa, skule ecke fyrerfarast. helldur hafa Eilijft Lijf, Joh. 3. Og eñ stendur skrifad: J þvi prijsade Gud siñ Kiærleika til vor, ad Christur er dææñ fyrer oss, þa vier vorum eñ nu synduger, Rom. 5. Og eñ seger Christur: Fader þu Elskar þæ, so sem þu Elskar mig, Joh. 10.
4. Sijne Satan þier Helvijte oped, þa haf Guds Ord sem añañ Skiølld fyrer þier. Sonur Guds hefur þar fyrer byrtst, ad hañ nidur brioote Diøfulsins Verk, 1. Joh. 3. Og i ødrum Stad: Eg vil (seger Gud) leysa þæ ur Helvijte, og ur Daudanum skal eg frelsa þæ, (sem aa mig trwa) Daude, Eg skal vera þiñ Bane, Helvijte, Eg skal verda þier Ein Plaaga, Os. 13.
5. Ef hañ setur fram Veykleika Trwar þiñar, Þa svara hønum so: DROTTeñ mun ecke med øllu sundur brioota veykañ Reyr, og Lijtt-logande Kveik mun hañ ecke

wt-

hañ trwad Hiarta, sem sig forlætur uppaa Orded, Treystande uppaa, ad hun mune faa og odlast nockud Gott, vegna hañs Lofanar og Fyrerheita. Ad Sijdustu setur hun frañ honum i moote, Eitt audmiwkt og Lijtelaatt Hiarta, þar hun vill giarnañ nefnast Hund-Tijk, og girnest ad eins þad Hundunum med riettu til kiemur, sem eru Matar-Molarner, þeir ed af Bordum falla, þad er, hun girnest litla Hiaalp, og ecke nema Eirn Huggunar Mola, þad mune sier nægia, og siñe Doottur. Þvi kañ DRotteñ ecke leingur ad hallda sier, Opnar Fiesiood siñar Myskunar og Hiaalpar, Lætur hana faa nooglega Huggun, og seger: Þu Kviña, Mikel er þijn Trw, Verde þier so sem þu villt.

Nu maa skie þu seger so: Þesse Kona var sterk i Trwñe, Eñ eg er miøg veykur, Þa skalltu vita, ad Trweñ er aalijka so sem Eirn Glijmu-Madur, Glijmu-Madureñ er Stundum Efasamur, og Ottast ad hañ mune vera veykur, og hafa ecke vid sijnum Mootstødu Mañe: So giører vor Trw, þegar hun aa ad beriast og glijma, Þa er jafnañ vor Meining, ad hun sie veyk, og

mune

mune liggia under, Eñ þad ſkiedur ecke ſo, þviad Trweñ viñur, hvørneñ ſem þad geingur, þo hun ſie veyk, þa mun hun þo um̃ ſijd er Sigureñ hafa, Og fyrer Guds Krapt, vardveitt verda til Saaluhiaalpar, 1. Pet. 1. Miñſtu aa Glijmu Forfødurſins Jacobs, hvørſu ad hañ glijmde vid Gud, og villde ei undañ laata, Ecke ſleppa hønum, ſegiande: Eg læt þig ecke lauſañ, nema þu aadur giefer mier Bleſſan, Og þad ſkiede ſo, Gen. 32.

O Drotteñ HErra JEſu Chriſte, Þu veiſt ad eg trwe aa þig, Þo þad ſie og veyk Trw, Samt ſet eg aa þig allt mitt Trauſt med þeſſare veykre Trw, Riettu ad mier þijna Huggunar Hønd, og drag mig ad þier. Miñ Gud, Eg er Trwar veykur, auk þu mijna Trw, ſtyrk þu mijna Von, vertu mier ecke Ognarlegur miñ Hiaalpare, þviad aa þig ſet eg mitt Trwnadartrauſt. Blaas ad þeim Trwar-Neiſta, ſem er i mijnu Hiarta, med þijnum H. Anda, Siaa þu, Vilieñ er nockur, Veit og gief þu ad eg þad fullkomne. Jaa, HErra JEſu, Þu ert mitt Lijf, mijn Huggun, mijn Saaluhiaalp, Þegar eg hefe þig, þa hefe eg allt. Eg

helld þier ad viſſu, eñ þo med veykum Hønd um, Sie nu mijn Hønd veyk, þa er þijn þvi ſterkare. Eja! Slepptu mier ecke ur þiñe Hende, So eg miſſeſt ecke ur þijnum Høndum.

DRotteñ JEſu, Lijttu til mijn, ſo ſem þu leitſt aa Petrum, aa Mariu Magdalenam, þa Canverſku Konuna, Rek burt allt Myrkur wr mijnu Hiarta, og laat þar uppreña Reiſta þiñar Huggunar. Hier er eg þijn Hund-Tijk, og bijd epter Molum af Borde þijnu. DRotteñ! Þu badſt fyrer St. Petre, ad hañs Trw ſkyllde ecke bila. Þu ſitur eñ nu til Hægre Handar þijns Fødurs, og ert þar vor Arnadar-Madur, Fyrerboonar-Madur, og Medalgaangare. Eg veit og trwe, þu muner ecke laata veykañ Reyr mijns Hiarta med øllu i ſundur brotna, Og ecke helldur miñ Lijttloganda Trwar Kveik wtſløckna.

Eg ligg i Strijde og ſtoorre Kvøl, Styrk mig Gud Pioon þiñ Veyka, Raad þijn ein hiaalpar øllum vel, Ei laat mig fraa þier ſkeyka. Frelſareñ gief ei falle eg, Freiſtne þegar eg rata, J Einhvørn Maata, Siaaer þu hun mig ſæke møg, Siijſt muntu mig falla laata.

* * * * * *
* * *

7. Capi-

# VII. Capitule

Hefur Iñe ad Hallda Nockrar Sierlegar
ægiætar Greiner, Hvar af Riett-trwad Hiarta kañ
Huggun ad taka i giegn Hryggilegre Asynd og Mynd
dauds Lijkama, og Grimleik þeirrar Kølldu og Diwpu
Grafar, Ei sijdur i giegn Widbioodañlegum Veykleika
og Siwkdoome Mañsins i Andlœtenu, Hvørnen Madur
skule Eudelega, sig med Huggunarsamlegum Lækn-
ingum af Guds Orde vardveita, so ad hañ
kuñe vel ad umbera og lijda Daudans
Grimd og Beiskleika.

1. Nu er þad Augliooft, Ad Madur þlijtur ad
Deya, og missa Lijfed?

MAdureñ Deyr ad soñu, og misser
þetta Lijf vegna Syndareñar, Eñ
hvor hañ hefur sier i Hiarta Sæt-
legar Hugganer JEsu Christi, og gledur
sig vid þad eilijfa Lijf, sæ helldur Daudañ
ei añad eñ so sem Burtfor wr þessum Eym-
dardal, og eirn Skilnad vid þetta Erfidis-
sama, Veyka og Vesla Lijf, og Heimfor i
þad Eilijfa Himneska Fodur-Land vor all-
ra. Þviad Christur sem fyrer Trwna
blijr med Mañenum, Hañ hefur fyrer hañ
Daudañ smackad, og Daudans Magt
burtteked, og hañs Heliar-Brodd i sundur
broted, so ad hañ gietur þeim Riett-trwa-
da ecke til Meins giört, og ei neckurn Hlut

añañ wtriett, Nema ad slijta i sundur Saalena og Lijkamañ, og svipta oss þessu Forgeingelegu Lijfe. Eñ so sem aller Hluter hliota ad þioona þeim til Gooda sem a Gud trwa, So giører og Daudeñ hier, hañ stodar þaa þar til, ad þeir verda Leyster og Frelsader fraa øllu Illu, og koma til eilijfrar Sælu og Hvijldar.

Slijkt vottar H. Ritning allvijda, Þvi so stendur i Book Spekeñar: Saaler Utvalldra eru i Hende Guds, og eingeñ Pijna kiemur vid þær, Spek. 3. Og sialfur Christur seiger so: Eg vil koma aptur, og taka ydur til mijn, so þier sieud þar eg er, Joh. 14. Heyrdu hier og Lærdu mijn Saal, hvad þitt Andlaat er, Þad er ecke añad eñ Skilnadur vid þetta Lijf, og Burt-Før i eilijfa Sælu og Glede; Jaa, Daudeñ er Riett-trwudum Mañe ecke añad eñ þad Christur kiemur aptur, og tekur hañ til sijn.

O Drotteñ JEsu Christe! Sem ert þad Eilijfa og saña Guddooms Lioos, Upplijs þu Hiarta mitt, so ad eg sem riett Endurfæddur Madur og nijr, aalijte Daudañ med nijum Augum, og hallde hañ ecke ad

vera

vera mijna Fordiorfun, helldur þiñ Sendeboda, fyrer hvorn þu mig kallar wr þessum Eymdardal, til Eilijfrar Sælu og Hvijlldar. Eja! So kom HErra JEsu Christe, Kom þa þu villt, Leys mig upp, hafdu mig Heim, Lat þiñ Pioon fara i Fride, Pviad til þiñar Hvijlldar laungar mig.

2. Nu er sart og Hryggelegt ad Deya so i burtu, og Grafeñ er Kolld og Grimleg, J hvorre vier hlivotum ad fwna og Rotna, og verda ad Molldu?

Vijst er þad Satt, Eñ allt þetta er Straff og Refsing, hvoria Gud hefur lagt uppa Lijkamañ Syndareñar vegna, Hañ hlijtur þessa Refsingar Reide Guds ad bera, Pviad hañ hefur Syndgad. Eñ Riett-trwud Guds Born hrædast þad ecke, Huxa ecke par viñ þad, hvorsu Hrædelega og Hryggelega Daudeñ fer med þau, og leikur þau wt, Pau lijta af a medañ þad a geingur, og huxa helldur uñ þad hvad epter kiemur, hvorsu Fagrer og Frijder, Hrauster og Herleger, og hvorsu skiærer og Dijrdarsamleger þeirra Lijkamer munu verda a þeim Dege, þegar þetta Forgeingelega, Jklædest þvi Oforgeingelega, Og þetta Daudlega Holld verdur O-

daudlegt, 1. Cor. 15. Hvïad þa mun þad framkoma sem skrifad stendur: Dauden̄ er Uppsvelgdur i Sigur. Daude, Hvar er þin̄ Heliar-Broddur, Helvijte, Hvar er nu þin̄ Sigur? Os. 13.

Vid þetta huggar sig saa Goode Job, Þa han̄ sat i sin̄e saarlegre Eymd, Hladen̄ Saarum, Kaunum og Kylum, Þad allt bifalade han̄ Gude, Liet han̄ raada, saa lengra fram̄ i Vegen̄, og sagde: Eg veit ad min̄ Endurlausnare Lifer, og hier epter (aa sijdasta Dege) mun han̄ Uppvekia mig aptur wr Jørdun̄e, Job. 19. Oho mijn Saal! Hvørsu Fagrer og Skiærer, og Prijdeleger munu vorer Lijkamer þa verda, aa þeim Dege? Eingen̄ Stiarna aa Himnum, og ecke Sool nie Tungl, munu skijna so sem vorer Lijkamer, þegar Drotten̄ Forklaarar vora Faafeingelega Lijkame, og glörer þaa lijka sijnum Forklaarudum Dyrdarfullum Lijkama, Phil. 3. Jaa, þegar vier verdum lijker, ecke ad eins Einglunum, Helldur sialfum Guds Syne. Vier erum nu Hveite-Korn vors DRottens, Hvøriu han̄ saaer nidur i sin̄ Guds Akur (Kyrkiugard køllum vier) En̄ þegar

þad

þad Lyſtelega Vor kiemur, Og ſæ riette Hiteñ, Pa ſiu ſaña Riettlætis Sooleñ reñur upp, Pa munum vier Vaxa og Uppſpretta, og bera Riettañ og Eilijfañ Avoxt. Hvlad nu verdur þad Nidurſæd Forgeingelegt Holld, eñ þa mun þad Uppſtanda Oforgeingelegt. Nu verdur þvi nidurſæd i Vanæru, eñ þa mun þad Upprijſa Dijrdarſamlegt. Nu er þvi Nidurſæd i Veykleika, eñ þa mun þad upprijſa Kroptugt. Nu ſæreſt nidur Nætturlegur Lijkame, eñ þa mun upprijſa Andlegur Lijkame, 1. Cor. 15.

DRotteñ miñ Gud! Gief þu mier Styrk, ad eg hrædeſt ei þa hryggelegu og ſkleſſelegu Mynd Daudans Lijkama, og ſie Oſkielfdur, þegar eg hura uñ miñ Lijkama, þa hañ er ordeñ Iskallt Lijk, og hlijtur i Grøfeñe ad rotna og fwna, og ad Molldu ad verda, Hiaalpa mier helldur, ad eg med Gladværu Hiarta og goodre Von, hure uñ þa Dyrd og Sælu, og þañ Sooma, ſem opeñber ſkal verda og frañ koma, ei ad eins vid mijna Saal, helldur og ſo vid Lijkamañ, Laat mig þa fa og hafa og fiña Hiartans Glede og Føgnud, og þar uñ

Daglega meiga syngia og seigia.

Avøxt Korned aungvañ ber, Utañ i Jørdu sœer. Um̃ vort Holld eins hœttad er, Adur Himna Sælu nœer. Hlijtur ad verda aptur ad Jørd, Og ødlast sijdañ saña Dijrd, Añad hier ecke tiœer.

3. Nu er þad samt miøg Hryggelegt og Saargrætelegt, ad siaa og heyra, Eg tala ecke um̃ ad reina Daudañ sialfañ, Grøfena, ad Deya, Verda Molldu auseñ, Jardadur, og verda andstyggelegur Madka Matur!

Ad slijkt er so hriggelegt og andstiggelegt fyrer Hollde og Bloode, þad kiemur af þvi til, ad Daudeñ er vor Ovinur, og vier erum eñ nu Daudleger, og vor Daudleg Nattura setur Daudañ sier fyrer Siooner, Eins og vier høfum hañ forþient, i Guds Løgmaale, sem er, ad vier med vorum Syndum høfum forþienad, ecke ad eins þeñañ Stundlega Lijkamlega Dauda, helldur og eirneñ þañ Eilijfa, so ad med Riettu hefdum vier aatt ad verda grafner i Grifiu Helvijtis, og yferausner med helvijtskum Ellde, hefde vor liwfe Lausnare JEsus Christus ecke komed oß til Hiaalpar. Af þessu kiemur nu slijk Skielfing, Ogn og Bidbloodur, sem vier høfum a Daudanum, Og þettä vill loda vid oß allt i Grøfena, þar verdur ecke vid giørt nie vid

sied.

sied. Hvrad lijka sem saa Madur er til Siñis, sem ur Daudlegum Ellds-Voda verdur Einu Siñe frelsadur, hañ hefur so sem Ognu og Kvijda i Holldenu, þa hañ hurar þar uñ, Eins aalijka kvijder øll vor Naattura vid, og øllum vorum Kroptum ofbijdur, þegar vier hurum uñ þa Saargræætelegu Eymd og Neyd, J hvørre vier aattum ad fordiarfast Eilijflega. Og þa vier laatum oss i Hug koma, hvørsu ad vier eñ nu vegna vorra Synda, hliootum med Heliar Spioote Daudans ad verda lagder, og Lijfed ad missa, þa Ognar oss, og þad ofbijdur Mañlegre Naatturu. Eñ hier i moote skulu Guds Børn venia sig til ad læra añad nijtt Tungumaal, i hveriu miklu ødruvijs verdur talad uñ Daudañ eñ nu var sagt: Hvi þad H. Evangelium nefner Daudañ, Riett-trwadra Maña Svefn, og þeirra Grafer Svefn-Hws. Hvrad med þvi Christur hefur lided fyrer oss Straff og Refsing Daudans, og Pijsl og Kvaler Helvijtis, og hefur þar ad auk Fullnægiu giort Guds Riettlæte fyrer oss, og utvegad oss Lijfed, þa hefur H. Ande i Evangelio burt teked þau skiesslegu Nøfn

Daud-

Daudans og Grafareñar, og huggar oss Christna Riett-trwada, med niju Maale, nijrre Tungũ. Pvi so talar Gud: Mitt Foolk (mijner Riett-trwader) Far þu i Svefn-Hws þitt, og laat aptur Dyrnar epter þier, Geim þig þar um̃ litla Stund þaangad til Reideñ er um̃lideñ, Esa. 26. Og i ødrum Stad, Peir mørgu sem under Jorduñe liggia sofnader, munu uppvakna, Dan. 12. Og Christur seger sialfur: Lassarus Vinur vor sefur, og eg fer þaangad ad vekia hañ upp, Joh. 11. Eier Stulkañ daud, helldur sefur hun, Matth. 9. Og i Pijningar-Historiuñe stendur so: Par stoodu upp Lijkamer margra Heilagra sem svaafu, og allvijda talar Ritningeñ i þeñañ Maata um̃ þaa Fram̃lidnu.

So lærdu nu mijn Saal, þetta Nija Tungumaal H. Evangelij, Og huxa hier um̃ med goodre Gudrækne. Siaa þu, DRotteñ hefur fyrer siñ Dauda um̃breitt þijnum Dauda i sætañ Svefn, Og þijna Grøf hefur hañ giørt ad hægre Hvijldar-Sæng. So ad þegar þu deyr, þa er þad ecke añad eñ þu sofnar, Pegar þu verdur lagdur i þijna Grøf, Pa heiter þad ad fara

i Sæng

i Sæng sijna. Þegar þu verdur Molldu yferausen̄, Þa heiter þad ad lꜳta aptur Svefn Hwſs Dyr ſijnar. Þegar Lijkamen̄ Rotnar og fwnar, Þa kallaſt þad ad hvijlaſt og geyma ſig um̄ litla Stund, ꜳ medan̄ Reiden̄ gelugur fram̄ hia, Eſa. 26.

GUD DRotten̄ H. Ande, Tak þu mitt Hiarta ad þier, Og uppfyll þad med Huggunarſamre Rꜳd mijns Lauſnara JEſu Chriſti, Kien̄ þu mier hier i Nꜳad Sin̄, ad giøra Greinarmun ꜳ mille Løgmꜳlſins og Evangelii. Mijnka þu i mier Ogn og Skielfing Daudans, og kien̄ þu mier ad læra og ſkilia, hvørnen̄ þitt Huggunarſama Evangelium talar um̄ Daudan̄, Lꜳt mig ei ad eins heyra þad med Eyrunum, helldur og ad mæla þar epter med Munnenum, og ad eg af Hiarta mætte Trwa þvi og reyna þad, þegar mijn Daudaſtund kiemur, ad eg þa ecke deye, hellvur ſofne, verde ecke i diwpa Grøf lagdur, helldur i Svefn-Hws og hæga Sæng, fwne ei nie rotne, helldur ligge og hvijle mig, þangad til þu vekur mig upp aptur. So legg eg mig nu HErra JEſu i þijna Arma og Skaut, Eins og þa Barned leggur ſig i

Kiolltu

Kiølltu Moodur ſiñar, og bifala þier mijna Saal, Sofna ut af, og tek ſæla Hvijld i þijnu Nafne.

4. Satt veit eg þetta er ſem þu ſeger : Eñ þo maa eg ſiaa a þeim ſem vid Aundena beriaſt, hvørſu þeir þwnglega kveliaſt, Aſmyndaſt i Augum og Andlite, og verdur miøg miked um̃ þa þeir ſkulu deya ?

Jaa vijſt, Slijkt ſkiedur ecke alleinaſta þeſſa Heims Børn, ſem Ydranarlaus deya, helldur hender þetta Optſiñis þa Riett-Trwudu. Þvi þad Synduga og Daudlega Holld, þad hlijtur ſo ad fiña Heliar-Brodd Daudans, og ſo ad faa og medtaka Syndareñar Laun. Eñ um̃ Guds Børn er þad ad ſegia, þo þau fiñe til Saarenda i Daudañs Kvøl og Angiſt, þa verdur þeim þad liettbært, vegna þeſs ad þeirra Hiortu hafa Huggun i Lauſnaranum JEſu Chriſto, fyrer Krapt hañs Naadar og Myſkunar, ſo ad þo Kvøl og Holldſins Pijna ſie ſtrijd og þung, þa yfergnæfer þo ſu Huggun og ſaa Sætleike, ſem Hiartad hefur i ſijnum Lauſnara, hvør Huggun ad i burtu drijfur allañ Beiſkleik Daudañs, og giører þad, ad midt i Daudanum fiñur ſaa Riett-trwade nockurn Sætleiks-

Smeck,

Smeck, og Ilm eilijfrar Glede og Saalu-
hiaalpar.

O Drottenñ, HErra JEsu Christe! Þu sem
smackad hefur Beiskleika Daudans fyr-
er mig, og hefur i piñe Daudans Þijsl og
Þijnu vered miña vegna hryggur, Titran-
de og skialfande, Vardveittu mig fyrer
Ofþwngre Daudans Þijsl og Þijnu, Fyll
þu Hiarta mitt med stødugre Trw, Von
og Huggun, so ad eg hrædest ecke Daudañ
ofmiøg, nie hañs Grimlegañ og Saarañ
Brodd; O JEsu! Laat þitt sæta Nafn
Endurlijfga mijna Saal, Amen.

5. Eru þa ecke Raad þar til, Eda Einhvør Lækning, ad Madur þurfe ecke so Freklega ad smacka Beyskleik Daudans, og hañs Heliar-Brodd?

Vissulega mijn Saal, Þviad so mæler þiñ Endurlausnare: Sañlega, Sañlega seige eg ydur: Ef nockur vardveiter mijn Ord, hañ skal ecke sia Daudañ ad Eillijfu, Joh. 8.

Heyr þu hier, mijn Saal, þa Lækning, uñ hvøria sialfs Lausnarans Muñur talar, Og lærdu ad taka hana Riettelega til þijn, Þvi hun kañ ad mijkia og mijnka Daudañs Beiskleika, Sem er Orded þijns
Laus-

Lausnara JEsu Christi, ecke Moyses Ord, Sem er Guds Løgmaal; Ecke Mañaña Ord, Ecke nockurt Galldra eda Hiaatrwar Ord, helldur þijns liwfa Lausnara JEsu Christi Ord, Sem er sw Naadarfulla og Giædskurijka Predikun hiñs Hellaga Evangelii, J hvøriu hañ bodar, Lofar og Fyrerheiter, Naad og Myskun, Fyrergiefning Syndaña, Riettlæted sem fyrer Gude gillder, Huggun H. Anda, og eilijft Lijf ad giefa, þeim sem aa hañ trwa.

Þetta Ord og þessa Himneska Lækning giefur DRottenn i Muñ og Hiartad aa þeim sem Riett-trwader eru, so þeir heyra þad, hallda þvi og vardveita þad i þeirra goodu Hiarta, hallda sier vid þad, Forlaata sig uppaa þad bæde i Lijfe og Dauda; Jaa, þeir hafa þad i Hiartanu, og hallda þvi med stødugre og riettre Trw, og smacka i Ordenu siaalfañ Christum og hañs sætu Huggun, hvør ed þad giører og verkar, ad þeir smacka ecke Daudans Beiskleika, vegna Sætleiks Ordsins, og Huggunar JEsu Christi. Þvi Christur er i Ordenu og med Ordenu; Hvør sem vill hafa Christum, hañ hafe Orded i sijnu Hiarta, Og
hvør

hvor hañ hefur Orded og vardveiter þad, ſa hefur ſiaalfañ Gud, med øllum hañs Sætleik, Naad og Huggun, Og hañ mun ecke ſiaa Daudañ, Pad er, hañ mun ecke ſiña Beiſkleika Daudans, og ecke verda var vid hañ, Ecke ſmacka hañ, Pviad ſo wtleggur HErrañ ſiaalfur þeſſe Ord, Sañlega, ſañlega ſege eg ydur: Hier ſtanda nockrer ſem Daudañ ſkulu ecke ſmacka, þar til þeir ſiaa Mañſins Son, Komanda i ſijnu Rijke, Matth. 16. Og eñ ſeger hañ: Sañlega ſege eg ydur: Ad nockrer eru af þeim hier ſtanda, ſem ecke munu ſmacka Daudañ, þar til þeir ſiaa Guds Rijke, Luc. 9. Pad er, Peir treyſta og forlaata ſig viſſulega uppaa Guds Ord og i Ordenu ſmacka þeir Chriſtum, og hañs Huggun, og befala ſig Gude med Lijfe og Saalu, og eru hrauſter og glader, hafa JEſu Chriſti Huggun. Jaa þeir veſia ſig i Ordenu, Eins og þa dauds Mañs Lijkame er ſveipadur i Lijk-blæiu, og faa ſo og ødlaſt allt þad hvar uñ Orded hlioodar, ſiñande i Hiartanu Chriſtum og hañs Naadarſamlega Huggun og Smeck eilijfs Lijfs.

Miøg ſæt og Dyrdarleg er þeſſe Lækning,

ning. Og er viſs og ſoñ, og bregdſt ecke. Hvad villtu, mijn Saal, hafa meira? Hvad gyrneſt þu frekara? Tak þu þeſſa himneſka Lækning i þitt Hiarta, Neyt heñar, og haf hana þiñe Sælu til Heilſubootar alla Daga og Tijma. Siaa þu hvørſu vænt þyker Veralldar Børnum uñ, Ef þeir gieta feinged Lækning vid Augna-Verk, Kølldu-Soott, Taña-Verk, Saara-Soott, og ødrum Meinſemdum, So Meñ vita alldrei hvørſu mikels þad er verdt, Hvad miklu meira ſkyllder þu þa hallda af þeſſare Himneſkre, Gudlegre Lækningu þijns Endurlauſnara, hvør ed burt tekur Daudañ, ſem er Root og Uppſpretta alls Siwkdooms, og allra añara Meinſemda.

Spyr þu ecke þar ad, Saal mijn, Hvørt þad er reynt og viſſulega ſatt: Allijt ad eins Dæme þeirra Heiløgu, ſem þeſſa Lækning brwkad hafa. Uñ S. Stephan leſum vier, hvørſu hañ var fullur Trwar og Huggunar JEſu Chriſti, þar fyrer ſofnade hañ ſætlega wtaf, Þa hañ var i Hel grijttur, og ſagde: O Notteñ JEſu medtaktu miñ Anda. Þeſſa Himneſka Lækning hafde S. Paull ſier i Hiarta, hvar fyr

er

er hañ baud Daudanum Traaſs Dagslega, og ſagde: Mig gyrner ad leyſa upp, og vera hiaa Chriſto, Phil. 1..

So hafa H. Guds Piijſlarvottar giort, Peir ed vegna JEſu Chriſti og Sætleika hañs Nafns, hafa med Glede og Fognude lided Grimlegar Piijſler, og acktad þær ad aungvu, vegna þeirrar Huggunar, ſem þeir haft hafa i Hiartanu, af þeſſare Lækningu.

JEſu Chriſte miñ liwfe Lauſnare! Pu hefur Ord eilijfs Lijfs, epter þvi laangar Saalmijna, Hvør hañ helldur þijn Ord, og treyſter uppaa þau, ſaa hefur þa riettu Himneſku Lækning, vid Neyd og Dauda, og ollum Helvijtaña Portum. O HErra JEſu! Eg bid þu ſedier mitt Hwngrad Hiarta med þijnu Orde, og uppfyller þad med þiñe Huggun; Staa þu miñ Gud, Lijka ſo ſem miñ Framlideñ Lijkame verdur vafeñ hvijtre Lijkblæu, og verdur i heñe wtboreñ, ſo ſveipa eg Saal mijna i Orde þiña Huggunarſamlegra Fyrerheita. Pitt Ord er Sañleikureñ, og varer ad Eilijfu, Par fyrer mun eg fyrer Trwna aa þitt Ord, verndadur verda eilijflega; Jaa

miñ HErra JEsu, hvør sem trwer þijnu Orde, hañ trwer a þig, Hvør sem geymer þijn Ord, hañ geymer þig, Og hvør hellst þig hefur, sa hefur Lijfed, Eñ hvør hañ hefur Lijfed, sa smackar ecke Daudañ ad Eilijfu; Þviad so hefur þu talad: Eg er Upprisañ og Lijfed, hvør sem trwer a mig, sa skal lifa, þo hañ sie allareidu Daudur, Og hvør hañ Lifer og trwer a mig, sa skal alldrei deya, Joh. 11. Trwer þu þessu Saal mijn? Ja HErra JEsu, Þu veitst alla Hlute, Þu veitst ad eg trwe a þig, og hefe þig i mijnu Hiarta, og hugga mig vid þitt Ord, og eg forlæt mig þar uppa, og veit þad vissulega, ad eg er eirn af þeim sem ecke munu sia Daudañ, og ecke smacka hañs Beiskleika, og ecke verda var vid hañs Brodd; Þar til hialpa þu mier miñ DRottеñ JEsu Christe, vegna þijns saña og Heilaga Ords, Amen.

## VIII. Capitule.

### J hvørium ad Frameñsettar verda margar Greiner Heilagrar Ritningar, Og nockrar Gudrækelegar Bæner, og eñ fleira þad sem Meñ skulu hafa fyrer þeim Siwka, So og hvørneñ þeir sem nalæger eru skule skicka sier og hegda hia þeim sem fyrer Daudanum liggia.

1. Lauf

1. Læt mig saa ad heyra nockrar Greiner H. Ritningar, so ad eg giøre mier þær kuñugar, og vite ad Hugga mig vid þær, og Lijfga Saal mijna med þeim, þa aliggur?

Fyrst og Fremst skal Madur Christeñ vita, ad hugga sig med Greinum Christelegrar Trwarjaatningar, i hvorium Greinum, Suña, Mergur og Iñehalld alls Christelegs Lærdooms, og allrar Huggunar er iñebunded og faled, Allra hellst og einkum, skal saa Siwke Iduglega uñ huxa og lesa þær Priaar seinustu Greiner Christelegrar Trwarjaatningar, Sem eru þessar: Eg trwe Fyrergiefning Syndaña, Upprisu Holldsins, og eilijft Lijf. Eñ samt skal saa Siwke allar Trwareñar Greiner leggia sier til, Eigna sier þær, og trwa þvi stadfastlega, ad þad er allt skied hønum til Gagns og Gooda, og ad hønum mune þad allt verda til Huggunar og Hiaalpar, Eins og hañ være einsamall i Heimenum, saa allt þetta ætte ad hreppa, og þess niootande ad verda, sem þar stendur.

Og slijkre Trw til Styrkingar, hefur Gud iñsett þau Heilogu Sacramenta, so sem nockur Naadar-Teikn, Iñsigle og

Stadfesting, og hefur sett þan fyrer þessar Triwar-Greiner. Þar af kañ eirn og sierhvør ad hugga sig vid sijna heiløgu Skijrn, ad hañ i Skijrneñe er af Gude medtekeñ, til ad vera Guds Barn, og er so sem Arfleiddur til Himnarijkis, og eilijfs Lijfs, og hefur Orlwfañlegañ Naadar Saattmaala vid Gud giørt og bunded, og er med JEsu Christi Bloode þveigeñ og hreinsadur.

Þar næst skal hañ og lijka hugga sig vid H. Kvølldmaaltijd DRotteñs, J hvørre Guds Sonur hefur hñ so sem GudsBarn, laated vid sitt Bord verda Saddañ, Mettañ og Endurlijfgadañ med sijnu Hollde og Bloode, So hañ er nu viss þar uppaa, ad hñ er JEsu Christi Lidur og Limur i Saal og Lijkama, og fullkomlegur Erfinge alls þess Gooda sem Christur hefur med Foornfæringu sijns Hollds og Bloods forþient og wtvegad. Uppaa þetta skal hiñ Siwke sialfur lesa eda laata lesa fyrer sier, allra Handa Huggunar Greiner wr H. Ritningu, So sem ad eru þessar:

Kviñuñar Sæde skal i sundmola Høgg ormsins Høfud, Eñ Ormureñ mun bijta hañ i Hæleñ, Gen, 3.

Þar

Þar til er Sonur Guds Openber orde̅n, ad ha̅n nidurbrioote Verk Diøfulsins, 1. Joh. 3.

Þijner Framlidner skulu lifande verda, og med sijnum Lijkømum upp rijsa, Lofed Gud þier sem i Jørdu̅ne ligged luckter, Esa. 26.

Far þu mitt Foolk i þitt Svefn-Hws, og laat aptur Dyrnar epter þier, og fel þig þar u̅m Eina litla Stund, aa meda̅n Reid e̅n geingur fra̅m hiaa, Esa. 26.

Nake̅n kom eg fraa Moodur-Lijfe, Nake̅n mun eg i burt fara, DRotte̅n gaf þad, DRotte̅n took þad i burt, sie Nafn DRotte̅ns blessad, Job. 1.

Eg veit ad mi̅n Endurlau̅nsare lifer, og ha̅n mun mig hier epter uppvekia ur Jørdu̅ne, og eg mun þessu mijnu Hørunde verda Jklæddur, Og eg mun i mijnu Hollde siaa Gud, Þa̅n sama mun eg lijta, og med mijnum eige̅n Augum siaa ha̅n og ecke A̅narlegum, Job. 19.

So sa̅nlega sem eg life (seger DRotte̅n) Vil eg ecke Dauda hins Ogudlega, helldur ad sa Ogudlege snue sier fraa sijnum Vege, og life, Ezech. 33.

Eg vil þær Endurleysa ur Helviite, Og frelsa þær (sem æ mig trwa) fra Daudanum. Daude, Eg skal vera þiñ Bane, Helviite, Eg skal vera þijn Plaaga, Ose. 13.

So sem Hiorteñ laangar epter ferskt Vatne, So laangar mijna Saal til þijn miñ Gud. Mijna Saal þyrster epter Gude, Þeim Lifanda Gude, Nær mun þad koma, ad eg fare ad lijta Andlit Guds, Psalm. 42.

Item, Þvi ertu hrigg mijn Saal, Og þvi sturlar þu mig, Vona þu uppaa DRotteñ, Þviad eñ mun eg þacka hønum, þviad hañ er Hiaalpare mijns Andlitis, og miñ Gud.

Þegar eg ad eins hefe þig DRotteñ, þa hirde eg hvorke uñ Himeñ nie Jord, þo ad Lijf og Saal vanmegnest, Þa ertu þo Gud alla Tijma Huggun mijns Hiarta, Og mitt Hlutskipte, Ps. 73.

Saaler Riettlaatra eru i Hende Guds, og eingeñ Pijna snerter þær, Spek. 3. Fyr er þeim Oskynsømu er ad siaa, so sem þeir deye. Og þeirra Afgaangur verdur fyrer Pijsl reiknadur, og þeirra Burtfør fyrer Fordiorfun, Eñ þeir eru i Fride.

Vier

Vier erum Born Heilagra, og vonum epter odru Lijfe, hvort Gud mun giefa þeim, sem sier vid hañ med Truñe fastlega hallda, Tob. 2.

Hvør hñ blijfur stadfastur allt til Enda, saa mun verda Saaluhoolpeñ, Matth. 10.

Komed aller til mijn, Þier sem Ervided og erud Þunga þiaader, Eg vil Endurlijfga ydur, Matth. 11.

Siaa, Þad er Lamb Guds, sem burttekur Heimsins Synder, Joh. 1.

So hefur Gud elskad Heimeñ, ad hañ gaf ut siñ Eingieteñ Son, til þess, ad aller þeir sem aa hañ trwa, skule ecke fortapast, helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3.

Sañlega, sañlega sege eg ydur: Hvør hañ heyrer mijn Ord og trwer þeim sem mig sende, saa hefur eilijft Lijf, og ecke kiemur hañ fyrer Doom, helldur þreinger hañ sier ur Daudanum iñ i Lijfed, Joh. 5.

Eg er Braud Lijfsins, hvør sem kiemur til mijn, hañ skal ecke hungra, og hvør sem trwer a mig, þañ skal alldrei þyrsta, Joh. 6.

Allt hvad miñ Fader giefur mier, Þad kiemur til mijn, Og hvør sem kiemur til mijn, hañ skal eg ecke utreka, Joh. 6.

Pad er Vilie Fødursins sem mig hefur sendt, ad eg glate ecke Einum af þeim sem hañ gaf mier, hellldur ad eg uppveke hañ aa Sijdasta Dege, Joh. 6.

Sañlega sege eg ydur: Hvør aa mig truer, hañ hefur þad eilijfa Lijf, Joh. 6.

Eg er Lioos Heimsins, hvør mier epter fylger, hañ mun ecke gaanga i Myrkrenu, helldur mun hñ hafa Lios Lijfsins, Joh. 8.

Sañlega, sañlega sege eg ydur: Ef nockur hellldur mijn Ord, hañ skal ecke siaa Daudañ eilijflega, Joh. 8.

Mijner Sauder heyra mijna Rødd, og eg þecke þaa, og þeir þeckia mig, og þeir fylgia mier, og eg glef þeim eilijft Lijf, og alldrei skulu þeir fyrerfarast, og eingeñ skal slijta þaa ur mijnum Hondum. Fadereñ sem mier gaf þaa, hañ er øllum meire, og eingeñ fær þaa slited ur mijns Fødurs Hondum, Eg og Fadereñ erum Eitt, Joh. 10.

Eg er Upprisañ og Lijfed, hvør sem truer aa mig, saa skal lifa, þo hañ sie daudur, Og hvør sem lifer og truer aa mig, saa skal alldrei deya, Joh. 11.

Eg er Vegureñ, Sañleikureñ og Lijfed, Eingeñ kiemur til Fødursins, neima alleina

eina fyrer mig, Joh. 14.

Þetta er þad eilijfa Lijfed, ad þeir þecke þig ad vera alleina saññ Gud, og JEsum Christum, þañ þu hefur sendt, Joh. 17.

Fader, Eg vil ad hvar eg er, þa sieu þeir hiaa mier, sem þu gafst mier, so þeir siaae mijna Dijrd, hvoria þu hefur mier giefed, Þviad þu elskader mig, aadur eñ Heimureñ var Grundvalladur, Joh. 17.

Þar er ecke Saaluhiaalp i nockru ødru Nafne, og ecke er nockurt Nafn añad Møñ unum giefed, J hvøriu vier kuñum ad verda Saaluhoolpner, Act. 4.

Uñ þeñañ (HErrañ JEsum) bera aller Spaameñ Vitne, ad fyrer hañs Nafn faa aller Syndaña Fyrergiefning, þeir sem trwa aa hañ, Act. 10.

Hvar hellst Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfer Naadeñ miklu meir, Rom. 5.

Ef Gud er med oss, hvør kañ þa ad vera i moote oss? Hvør ecke hefur hlijft sijnum eigeñ Syne, helldur giefed hañ ut fyrer oss alla, skyllde hañ þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum? Hvør vill aasaka Guds Utvallda? Gud er saa sem þaa giører Riettlaata, Hvør vill þaa fordæma? Christur

er sa sem daɑeñ er, Jaɑ, þad meira er, hañ er saɑ sem uppvaktur er, hvor ad er til Guds hægre Handar, og bidur fyrer oß, Rom. 8.

Eg er vlß þar uppaɑ, ad ecke Daudeñ, og ecke Lijfed, ecke Einglarner, eda Hofdingia-Stietternar, Ecke nockurt Ofrijke, Og et þad Naalæga nie þad Okomna, Ei Hæd nie Dypt, nie nockur øñur Skiepna, fær oß skiled fraɑ Guds Kiærleika, hvor ad er i DROttne vorum JEsu Christo, Rom. 8.

Gud hefur alla iñeluckt under Syndeñe, uppaɑ þad hañ Myskunade sig yfer alla, Rom. 11.

Eingeñ lifer sier sialfum, Og eingeñ deyr sier sialfum, Lifum vier, Pa lifum vier DRottne, Deyum vier, þa deyum vier DRottne: Þar fyrer, hvort vier Lifum eda Deyum, Pa erum vier DROTTeñs, Rom. 14.

So sem þeir eru aller dauder i Adam, So verda þeir aller lifande giørder i Christo, 1. Cor. 15.

Eñ vier vitum, þegar vort Jardneska Hws þessarar Byggingar verdur nidurbroted,

broted, Pa høfum vier Bygging af Gude uppbygda, Hws þad ei er med Hondum giørt, þad eilijft er a Himnum, 2. Cor. 5.

Gud er trwr, saa ecke lætur ydur verda Freistada, Framar eñ ydur er møgulegt ad lijda, helldur giører hañ þad, ad Freistingeñ fær hañ Enda, So þier gieted vel stadest, 1. Cor. 10.

Christur er mitt Lijf, og ad deya er miñ Abate. Eg hefe Gyrnd ad skiliast hier vid, og vera hia Christo, hvad mikln betra er, Phil. 1.

Vor Umgeingne (vort Heimele) er a Himnum, hvadañ vier væntum Lausnarañs JEsu Christi, Sa vora faanijta Lijkame mun forklaara, og giora þa lijka sijnum Forklaarudum Lijkama, og Dijrdarlegum, Phil. 3.

Pad eru vissuleg Sañende og Dijrmætt verdugt Ord, ad Christur JEsus er komeñ i Heimeñ, Synduga Saaluhoolpna ad giora, Medal hvørra eg er hiñ hellste, 1. Tim. 1.

Tijme miñar Burtfarar er naalægur; Eg hefe gooda Baraattu bareft, Eg hefe mitt Hlaup fullendad, og Trwna geymt,

Nu

Nu hiedañ i fraa er mier tilreidd Corona Riettlæteſins, Sem DRotteñ ſaa Riettlaate Doomare mun giefa mier aa þeim Dege, Eñ ecke alleina mier, helldur ollum þeim ſem hañs Tilkomu elſka. Siaa til þu berieſt vel i Trwareñar Baraattu, Høndla ſo eilijft Lijf, Til hvørs þu ert kalladur, 2. Tim. 4.

Blooded JEſu Chriſti hreinſar oſs af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. J þvi hefur birtſt Elſkañ Guds til Mañaña, ad Gud hefur ſendt ſiñ Son i Heimeñ, ſo vier ſkylldum lifa fyrer hañ, J þvi er Elſkañ komeñ, ecke þad vier hefum elſkad Gud, helldur ad hañ hefur elſkad oſs, og ſendt ſiñ Son til Forlijkunar fyrer vorar Synder, 1. Joh. 4.

Vier høfum hier ecke blijfanda Samaſtad, helldur leitum vier þeſs Okomeñ er, Heb. 13.

Vertu trwr allt i Daudañ, þa mun eg giefa þier Coronu Lijfſins, Apoc. 2.

Hvøria eg elſka, þaa aga eg og Typta, Apoc. 3.

Þeir hafa yferuñed hañ fyrer Lambſins Blood, og fyrer Ord hañs Vitnisburdar,

og

og hafa ecke elſkad ſitt Lijf allt i Daudañ, Sæler eru þeir Framlidnu ſem i DRottne deya jafnſnart, Apoc. 14.

Ur þeſſum og ødrum þvilijkum Greinum, þa ſkalltu Saal mijn wtvelia þier nockrar ſierlegar wtvaldar Greiner, ſem þier þykia Huggunarſamlegar vera, og lærdu þær vel, og giør þier þær kuñugar fyrer utañ, ſo ſem Fader Vor, Þviad ſo ſem ſumra Mañ a Sidur er, ad laata ſmijda og tilbwa þeirra Lijk-Kiſtu eda Leg-Stein, eda Lijk-Blæu, nockrum Tijma fyrre aadur þeir Andaſt, og vardveita þad, ſo þad ſie til Reidu, þegar Lijkamañ þarf ad grafa. So ſkalltu wtvelia þier nockrar ſierlegar Greiner og Maaltæke H. Ritningar, og lær vel ad ſkilia þær, So ad þu aa þiñe Soottar-Sæng, kuñer ad Styrkia og Hugga þijna Saal. Þviad i moote Daudanum mijnkar Mañe optaſt bæde Miñed og Skilningureñ, Þa er og ecke Tijme til ad heyra laangar Predikaner, Eda margar Amiñingar. Ein Huggunar Grein, og Eitt Guds Ord, ſem fram̃ er geinged af Guds Muñe, Deut. 8. Matth. 4. Þad gledur og Huggar, Lijfgar og Endurnærer, og

K ij ſedur

sedur Hiartad, Lijfed og Saalena. Eñ vilie Madur ad Soottar-Sæng siñe, fyrst taka til ad læra þetta, Pad vill vera Torvellt, og kiemur siallðañ til Gagns, Og er þa Of-seint.

HErra JEsu Christe! Upplijs þu mitt Hiarta, med þijnum H. Anda, so eg giarnsamlega Heyre og Lære goodar Greiner þijns H. Ords, huxe epter þeim, hafe þær Optlega yfer, og giøre þær mijnu Hiarta vel kuñugar, Gief þu ad eg geyme og vardveite þitt Ord, og sie ecke so sem broteñ Pottur eda braakad Kier, sem Vatne kañ ecke ad hallda. Upplijs þu miñ Skilning, Styrk þu mitt Miñe, og laat mig miñast aa þijnar Hugganer. Hiaalpa þu mier so eg geyme Ord þitt i goodu og Sidsömu Hiarta, og bere Avoxt i Poleñmæde til eilijfs Lijfs, Amen.

2 Kieñ þu mier nockrar Bæner, sem eg meige bidia i mijnum Siwkdoome, mier til Hugguunar, Pær eg meige og eirneñ hafa fyrer ødrum, þeim sem Siwker eru?

Eg hefe allt hijngad til lagt fyrer þig margar goodar Gudrækelegar Bæner, sem þu maatt lesa hier til Gagns og Gooda. Po vill eg nu eñ auka þar nockru vid,

sem

sem Gooder og Gudhrædder Men hafa dicktad, Og so a þeñañ Hautt beded.

I.

Su hellsta og Sierlegasta Bæn, Er vor Drotteñleg Bæn, Fader Vor, hvoria Lausnareñ sialfur hefur kleñt oß, hvor ed iñe hefur ad hallda i stuttu Maale allar vorar Naudsynjar, og allt hvad vier þurfum vid i Lijfe og Dauda. Þegar þier vilied bidia (seger DRotteñ) þa taled þessum Ordum : Fader vor sem ert a Himnum. Helgest þitt Nafn. Tilkome þitt Rijke. Verde þiñ Vilie, so a Jordu sem a Himnum. Gief oß i Dag vort Daglegt Braud. Og fyrergief oß vorar Skullder, So sem vier fyrergiefum vorum Skulldunautum. Og eige leid þu oß i Freistne. Helldur frelsa oß fra Illu. Þviad þitt er Rijked, Kraptureñ og Dyrdeñ, um Allder og ad Eilijfu, Amen.

II.

DRotteñ, Laat nu þiñ Þioon fara i Fride, So sem þu hefur talad, Þviad mijn Augu hafa sied þitt Hialp-Raad, Luc. 2.

III.

Fader i þijnar Hendur, Fel eg miñ Anda, Luc. 23.

IV.

J þijnar Hendur fel eg miñ Anda, Þu hefur mig Endurleist, DRotteñ Gud Sañleiksins, Psalm. 31.

V.

DROTTENN JESU, Medtaktu miñ Anda, Act. 7.

VI.

DRotteñ, vertu hiaa oss, þviad Kvøllda tekur, og aa Dageñ er lided, Luc. 24.

VII.

Eg hefe Gyrnd ad skilia hier vid, og vera hiaa Christo, Phil. 1.

VIII.

# Huggunar Psalmar fyrer þa Siwku.

Med sijnum eigeñ Ton,

MJñ HErra JEsu Madur og Gud, Sem Mædu, Þijnu, Spott og Deyd, Fyrer mig þolder, og Krossens Kvøl, Og kvittader mig vid eilijft Bøl.

Fyrer Kvøl þijna bid eg nu, Mier aumum ad hiaalper þu, Nær Daudans kiemur hin striyda Stund, Stoorlega grim aa alla Lund.

Nær Augun missa alla Sioon, Eyrunum kiemur Heyrnar Tioon, Tungañ ei leingur mæla maa, Mitt Hiarta tekur ad þrotna þa.

Nær allur miñ Maattur eydest so, Eingeñ Madur mier hiaalpa maa. O HErra JEsu þijn Hiaalpeñ blijd, Hugge mig þa i Daudans Tijd.

Leið

Leid mig af þessum Eymdar-Dal, og styttu mijna Daudans Kvøl; Andskotans Reide frels mig frꜳ, Fyrer þiñ Anda, Og vert mier hiꜳ.

Eñ þegar skiliast Lijf og Ønd, O Gud! tak hana hier i Hønd, Hvijld Hollde af þier eg þiggia vil, Þar til Dooms Dagur tekur til.

Glada Upprisu gief þu mier, Geim mijn þa Dagur Doomsins er, Mijnar Synder ei miñstu ꜳ, Milldur gief mier Lijf eilijft þa.

Lijka sem fyrre lofader þu, Legg eg ꜳ Ord þijn mijna Trw. Sañlega, Sañlega sege eg þier, Sꜳ mijn Ord helldur og treyster mier.

Ogn Daudans reiner aungva hañ, Eilijfañ Dauda ei smacka kañ. Lijkamlegt Andlꜳt Eitt Siñ fær, Vid Andar Daudañ ei verdur vær.

Vil eg m ed Vollduge Hønd, Wijst skilia hañ vid Daudans Bønd, Arf mijns Rijkis skal eignast sꜳ, Æfeñlega mier sialfum hiꜳ.

Og lifa i Sælu og søñum Frid. Sæmd þa veittu oss Milldur Gud, Allar Synder oss forlꜳt þu, Poleñmooder vier bijdum nu.

Med hreinre Ast og traustre Trw, Til þess ad kiemur Stundeñ su: Og feingium þiña Orda giætt, Allt þang ad til vier sofnum sætt, Amen.

## IX.

### Med sijnnin Ton.

Þa liñer hier mijn Lijkams Vist, Og leider þu mig frꜳ Heime, Hiꜳstod veittu mier HErra Christ, og Hialp þijn alldrei mier gleyme, J Skilnad mijna aumu Aund, Eg gief og fel i þijna Hønd, Ad medtake og geime.

Mig pyna jafnañ Sekt og Synd, Samvitstune fast ꜳmæla, Þær eru fleire Siꜳfar Sand, Samt skal eg uñ Hialp ei vijla. Þvi Dreireñ raude og Daude þiñ, DRott eñ JEsu Frelsare miñ, Er mijn Lijfgiøf og Sæla.

Eg er þiñ eigeñ Limur Eirn, Af þvi fæ eg Hugguñ goo-

da, Alldrei slijtur mig af þier neirn, J Angist og Daudans Voda. Eñ þo eg deye þa er eg med þier, Eilijfañ Fognud fañstu mier, O Kottek med þijnum Dauda.

Eins sem af Dauda uppreist þu, J Grøf mun eg ei blijfa, Himna-Før þijn er Huggun trw, Hrigd Daudans kañ burt drijfa. Hiedañ fer eg med Fognude, Fullviss hiaa þier miñ Laußnare, Ætijd þu lætur mig lifa.

## X.

Ton, Nu bid eg Gud þu næder mig, etc.

Hiaalpa þu mier HErra JEsu Christ, Heimeñ vel vid ad skilia. Þegar Daudastund mig þvijngar mest, Þu munt mig hugga vilia, J Strijde þvi so eg stande vel, Strax mig falleñ añars tel, Ef þijn Hønd ei blijfer mier, Hiaalpande so af Synduum hier.

Po Fiølde miña Synda sie, Sem Sandur aa Haffsins Gruñe, Efa skál eg þo alldreige, Ad þu mier hiaalpa kuñer, Piñ Dauda eg miñest alltijd aa, Med Undum þijnum lieist mig saa, Eilijfañ Frid so Ønd mijn, Avallt blijfe Mýsk-un þijn.

Høfud mitt ertu, Eg Limur þiñ, Æ gledur mig saa Goode, Af þier mig slijta eingeñ kañ, Ognarlaus er þvi Daude, Eign þijn eg er þo falle eg fraa, Frelsare miñ þier verd eg hiaa, Lijka sem þu lofad hefur, Lijf Eilijft fær þvor so sefur.

Hef eg æ þar aa vijsa Von, Vitande þig risen af Dauda, Af Grøf miñe eg so gaanga mun, Guds Vellde kañ þvi rada, Endast þa Daudans Ogn og Kvøl, Ønd mijna eg þier i Hendur fel, Daudañ virde eg vorn Abata, Sem Vist og Sælu hiaa þier hlioota.

## XI.

Ton, Fader vor sem aa Himnum ert, etc.

MJñ sæte JEsu sañe Gud, Siaa mig nu hier i Eymdu Neid, Eins sem þa fyrr eg gieteñ var, Og i Lijfe mig Mooder bar, Eirn varstu Gud mijn øflug Hlijf, Og

Og alla Stund mitt Lioos og Liif.

Pa mig i Fyrstu Mooder bar, J mestu Hrygd og Kvølum var, Af Lisse heñar leyster mig, Lijknsame Gud so beide eg þig, Nu syndie mig þijn Hiaalpar Hønd, Sem hefur þu giørt æ þeirre Stund.

Miñ Gud varstu fra Fyrsta Dag, Fæding mijn var mest Eymdarlag, Pa var eg lagdur hier i Skaut, Peg: ar eg Skijrn i fyrstu hlaut, Pa Mioolk veitte mier Mood: ur Briooft, Mig Huggader og hiæ mier stoodst.

Pa Alnar hær eg orden er, Ongva Biørg kuñe veita mier, Upphellde Vernd og hiaalpeñ mijn, HErra JEsu vár Mystkun þijn, J Kvøl miñe so kalla eg nu, Christe æ þig med Hug og Trw.

Sem veitter i Fyrstu Fæding Lid, Fullting þitt hallde mier adra vid, Skijrnar Fæding fullenda nu, Fyrer Kross og Dauda verdur sw, J þeirre Fædingn þiæest eg hier, Preyr Holld og Ønd mijn epter þier.

XII.

Ton, Gud Mystune nu øllum oss, etc.

LOfande DRottiñ lijkna mier, Laat mig Naad þijna siña, Af þvi mitt Traust er allt æ þier, Eymdaña giættu miña, Synder giøra mier Sorgar-Mood, Saal: eñ er tvist af Angre, Frelsa þu mig fyrer þitt Blood, Fyrna af Pijnu længre, So liñe Strijdu strængre.

Eg berst vid Daudans bitra Mæatt, Brætt verd nu hiedañ hallda, Heimeñ forlæta hlijt eg brætt, Heled mig sæker kallda. Lijkameñ veykur og laseñ er, Lijfs Krapt tekur ad þriioota, Saaleñ af Bwknum flya ser, Fiñst þvi ei neitt til Boota, Laat mig Naad fiña sliota.

Eins geingur mier i Eymdum mijn, Og þvi Barne er fædest, Hørmulegre i Hrygd og Pijn, Hvørku Praung: ingum mædest, Hafande hvørke Mæatt nie Megn, Miw: ka Hiaalp sier ad veita, Utañ Lioos-Mooder linst og giegn, Lúnd-bliid med Astsemd heita, Lidsemdar giøre ad leita.

Af þvi kom Gud miñ Elsku kiær, Uppæ þig nu eg: væle,

væle, Og hijngad þiinar Hendur hrær, HErra miñ JE-su sæle, Fyrer þitt Rauda fossad Blood, Fordum sem wt af dunde, Uñ Trie þijns Kroſs þa Tijged flood, Tafarlaust nidur hrunde, Ad mier þijn Elska grunde.

Vid miñe Saal þijn Hiaalpar Hønd, Hiir sem Lioss-Mooder take, Þa verdur Lijkamañ vidskild Ond, Vijst so ei uppaa sake. J varmre Laug þiins Lijssins Bloods, Laat hana Hreinsan fanga, So Heiptar Þijnu Helvar Moods, Hun kuñe alldrei fanga, Uñ alla Eilijfd langa.

## XIII.

Med Hymna Lag.

HErra JEsu i Hendur þier, Hiedañ þa eg i burtu fer, Fel eg mijna aumu Ønd, Øll so fyrrest Mein og Grønd.

Fødurnum hana færer þu, Faagud er og hreinsud sw, Bloods med Dreyra dijrsium þijn, Daudsom er su Eigañ mijn.

Andast eg og upp til þijn, Etla sviptur Sorg og Þiin, Hiervist Lijfs er lijtels verd, Þo leingur dveliest Hiedañferd.

Hiaalpa mier ad hyra slijkt, Halldest Naad þijn vid mig rijkt, HErra Gud eg trwe traust, Þu taker vid mier Efalaust.

## XIV.

Med Hymna Lag.

LAmbed Guds og Lausnareñ, Lijfs og daudur er eg þiñ, Med þier Arf laat eignast mig, Þar aller Helger gledia sig.

Skyllda eg ecke eignast Lijf, Eilijflegt og fordast Kijf, Hvar være Daude helgur þiñ? Og hellst Bloodrijke Bardagiñ?

Hvar til var þitt helga Holld, Huled og grafed nidur i Molld, Ef þiñ Daude ecke mier, Eilijft giæse Lijf hiaa þier?

O JEsu

O JEsu! vid mig vertu þvi, Wiss og trwr, Eg til þijn flij, Myergief þu alldrei þañ, Sem Unda-Flood þitt hreinsa vañ.

J Fride lꜳt mig sofna sꜳtt, so ad vid øngvu verde hꜳtt, Andlite blijdu og Augum þijn, AEfeñlega snw til miin.

Frelsare miñ af Faare og Neyd, Fyrer þiñ bid eg sꜳraañ Deyd, Lꜳt mig heim Oskum øllum naa, Og AEfeñlega þier Losgiørd tiaa.

## XV.

Ton, J Blæu eiñe er byrgdur i Molld, etc.

Ligg eg hier sem Madkur i Molld, Mitt vill kuolna veyka Holld, Hvørke Foot nie Hønd giet hrært, Helldur giøresst allt Ofært.

Dregst mitt Liissed Dandañ vid, Dapraañ fiñ eg Lim og Lid, Siñe og Ræna rienar allt, Ræder ecke Tungañ sniallt.

Heyrn og Siin mier hverfa vill, Holldenu þyker Soottiñ ill, Hentast være ad hvijlast braatt, Og Heime ad hiooda gooda Naatt.

Skunda JEsu skiott til miin, Skamta af Diøsla Sorg og Piin, Piijlur hañs briout, hañ berst vid mig, Sem Biørn og Leon hrædelig.

Ogn nie Freistne og Eymdar Stig, Ei lꜳttu skilia mig vid þig, Lijt mig Prælen lægstañ þiñ, Lifande JEsu DRotteñ miñ.

Trw, Riettlꜳte, røskva Von, Riikur veit mier Mariu Son, Fyrer þitt rauda Blessad Blood, Biarga af Synd og Vijtis Glood.

Eingla þiña Adstod blijd, AE sie vijs aa siødustu Tiid, Ad flitia wijna auuu Ond, J þijns Fødurs Fadm og Hønd.

So eg Eingla Samlags Pioon, Siinge Los med søgrum Ton, Daadsamlegasta DRotteñs mijns, J Dijrdar Rijke Fødur þijns.

XVI.

Ton ; Mer eg Oluckn ei moote sia, etc.

Gladur nu deya vil eg viijst, Vid Dauda siidst, Megna eg mier ad hliifa, Fordiarfun øngva eg fiña ma, Po falle fra, Miin Saal hia Gude mun bliifa, Pvi Piuon er eg þiñ, Pu HErra miñ, Aetiid hia þier, Eflaust eg er, Ei kaň mig neirn fra þier hriifa.

So leinge sem hier Liifed dreg, Læra vil eg, Gudlega i DRottne ad deya, Og bwast til med beztre Lyst, Bliidañ uñ Christ, Fast Trwar-Faang ad beygia, Mitt Aedst Traust er hañ, Hnd leysa vañ, Fyrer siñ Deyd, Og frelsie af Neyd, Gladur eg þvi vil þreya.

Af Naad hefur Gud mier veitt og skeinkt, A Kross Uppheingt, JEsum Christ Son siñ kiæra, Sa fyrer mig lide Saar og Deyd, Ad svipta mig Neyd, Sie honum þvi Sæmd og Aera, Oh hvilijka Naad! hefur Gud mier tiead, þa kraunku Hnd miin, kallar til siin, i eilijst Lyf iñ ad færa.

Gief mier nu DRotteñ Giæsku ar, Glada Burtfør, Fyrer JEsu biiran Dauda, Ad life og deye eg i þier, Hnd miñe og mier, Boot veit fyrer Blood hañs rauda, Miñ JEsu Christ, Mig hefur keyst, J þiina Hond, Eg fel miina Hnd, Sofna eg so au Nauda.

XVII.

Hiedañ i burt med Fride eg fer, Feigeñ og gladur i Gude. Huggad nu vel mitt Hiartad er, og horfeñ allur Kviide. So sem Gud sialfur fyrerhiet mier, Hviildar-Svefn miñ er Daude.

So bad og Andvarpade Eirn Gudhræddur goodur Madur, a siñe Sottar-Sæng.

Nu gled þig Saal miin, Pu sem þo ert ei miin, helldur HErrañs JEsu Christi, sem þig hefur med siinu Diirmæta Bloode

End.

Endurleyst. Mijn Saal, vert þu nu glod i Gude þijnum Endurlausnara. Gack wt af Sodoma med Loth, og lijt ecke aa Bak aptur. Fliittu þier i giegnum þad Rauda Haf, So þu komest ur Hondum þeirra sem þig offækia, og komer iñ i þad Landed sem flijtur i Mioolk og Hunaange, Haf þig upp i Lopted, Og laat allt fara þad hier er nedra aa Jordune.

Til Himnarijkis ertu skøpud, Til Himnarijkis ertu helgud, Til Himnarijkis ertu fyrerhugud. Þitt Heimele er aa Himnum, þar hefur þu Borgar-Riett feinged, þar er þier fyrer laungu dijrdlegt Herberge fyrerbwed, Laat þig laanga þaangad, legg fraa þier vissulega þa Ohreinu og þungu Byrde Daudlegs Hollds. Laat Ofnuna verda epter under Fiallenu D Rotteñs, eñ far þu upp. Nu verdur oped fyrer þier Skaut Abrahams, so sem soñu Abrahams Sæde. Nu mun Paradijsar Port fyrer þier opnast, Þu sem fyrer Trwna ert Iñplontud HErranum Christo, og ert fyrer hañs Blood hreinsud.

Nu þo ad Skilnadur Saalar og Lijkama sie beyskur og saar, þa halltu þo kyrru

fyrer, Vertu stødugur og med goodu Gie-
de, Pad er ecke nema lijtel Stund, og so sem
Eitt Augabragd, Pa mun DRotteñ leysa
þig, þar fyrer haf Poleñmæde. Betra
er ad þu nu Einusiñe leyser upp, og betaler
Natturuñe þa Skulld, sm̃ þu hlijtur heñe
ad giallda, helldur eñ ad þu skuler leingur i
þessum Heime pijnast, plaagast og velkiast,
Ecke muñtu deya, helldur lifa, og segia fraa
Verkum og Dásemdum DRotteñs.

Eñ þu miñ Jardneskur Lijkame, fyrer
hvørium eg hefe lánga Tijma haft Sorg
og Mædu, Ahyggiu og Omak, og lided
margt Jllt, til ad fæda þig og klæda, næra
þig og lijfga, so eg hefe mørgum Dege þar
til spillt, Og hefe maatt vera mier miklu
Gagnlegre. Pu Lijkame sem vered hefur
Saalu miñe Ein þung Byrde, og hana hef
ur opt og Ofialldañ hindrad og nidur þry-
ckt, so hun hefur ecke gietad med frij og Frel
se stundad Himneska Hlute sem vera ætte,
Pier sege eg: Med þvi Gud hefur þad aa-
sett og skickad, ad þu sem ert komeñ af Moll-
du, Pu skallt nu Endelega leggia þig til
Hvijldar. Gack iñ i þitt Svefn-Hws,
Laat aptur Dyrnar epter þier, geym þig
þar

þar um̃ daalitla Stund, aa medan̄ Reid-
en̄ lijdur fram̄hiaa. Þo þu fwner og rot-
ner i Grøfen̄e, þa er þier þad Ein Purga-
tia og Hreinsun, so þu skallt miøg Dijrd-
arlegur upp rijsa. Þu verdur nidur lagd-
ur forgeingelegur, en̄ þu munt upprijsa O-
forgeingelegur, Þu verdur nidur saadur
Smaanarlegur, en̄ þu munt upprijsa med
Dijrd. Og so sem þu hefur bored Mind
hin̄s Jardneska, So muntu verda berande
Mind þess Himneska, Og i þijnu Hollde
muntu siaa Gud, so þu verder gladur, þeg-
ar þu vaknar upp epter han̄s Mind. Þu
munt vissulega upp aptur rijsa, Og þo þu
yrder ad Ösku og Dupte, eda ad aungvu, þa
mun Gud DRotten̄ þin̄ uppvekia þig,
hvørium þu varst in̄plantadur, og hvør ad
er Holld af þijnu Hollde, og Bein af þijn-
um Beinum. Og þegar hn̄ kallar þig apt-
ur, Þa kan̄ eingen̄ Hlutur þig ad hindra,
helldur hlijtur þu jafnsnart ad koma fram̄.
Þesse DRotten̄ sem uppvakte Lazarum
med Einu Orde, þa han̄ took til ad rotna og
fwna, han̄ mun og eins lijka syna og bevijsa
aa þier Krapt sijns Almættis. Nu hlijt-
ur þu ad fin̄a og lijda Kvøl og Pijnu, en̄ þad
lijdur

lijdur snart, og er ecke neina um̃ litla Stund ad giora, Epter þad eru i burtu aller Verker, allur Svide og Siwkdoomur: Vær vitum epter Ordum S. Pauls, ad alla Naatturuna og allar Skiepnur forseinger, og þær hafa Trega og Andvarpan, Og vilia giarnañ verda lausar vid þessa Heims Hiegooma: Og þvi villtu þa ecke girnast ad hafa Hvijld? Þu Daude maatt vel slijta þad, sem Syndareñar vegna verdur sundur ad slijtast: Ecke muntu afmaa mig, helldur stoda mig til Roolegrar Hvijldar og Oendañlegrar Glede, Feigeñsamlega vil eg aptur laata mijn Lijkamleg Augu, so ad eg siaae þad eillijfa Lioos. Ad eins bid eg þig þu Sonur Guds, miñ Endurlausnare og Saaluhiaalpare, sem mig hefur slited ur Helvijte, og Endurleist fraa eillijfum Dauda. Hafer þu nockurn Tijma staded hiaa mier, so veittu mier nu Hiaalp og Hiaastod, i þessare miñe sijdustu Neyd. Til þijn upphef eg lwnar Hendur, og mitt vanmaattugt og veykt Hiarta, Til þijn kalla eg, Til þijn laangar mig, miñ Kongur og miñ Gud, Þu sem gafst þig nidur i þetta auma Holld, so ad eg þar i gien, skyll-

de faa og odlast Borg og Bwstad i Himna rijke. Þu hefur aa Krossenum uppgiefed þiñ Anda, so ad eg feinge eilijft Lijf. Yfergief þu mig ecke miñ goode Gud og DRottteñ, og vijk ecke fra mier, flijt þier ad hiaalpa mier, miñ Gud og Frelsare, Laat þijn Ord ecke falla ur mijnu Hiarta, þa þu sagder: Þetta er þad eilijfa Lijf, ad Meñ þecke þig saññ Gud, og þañ þu sendt hefur JEsum, ad hañ sie Christur, þad er Kongur og Kieñemadur allra Riett-trwadra. Seig þu til mijn so sem Ræningians aa Krossenum: J Dag skalltu vera med mier i Paradys. Veit og gief Naad þijna, ad þa mijn faatæka Ond skilst vid þeñañ Daudlega Lijkama, ad hun sie þiñe Osegiañlegre Naad og Myskun aa Hendur faleñ. Vertu med goodu Giede mijn Saal, Þvi DRotteñ hiaalpar þier, hañ hefur slited þig ur Daudanum. Eg mun gaanga fyrer DRottne aa Lande lifande Maña. Nu Daude, þu hiñ mikle Leviatan, Gleyp þu Jonam þeg ar þu villt. Fardu vel Heimur, noog hefur þu feinged mier ad giøra, Leita nu upp Aññañ þañ þu villt, DRotteñ eg bijd epter þijnu Hiaalpræde, Kome þitt Rijke, Frel-

sa þu oss fraa ollu Illu, Amen.

Aũars Goods og Gudrækelegs Maũs
Bæn og Andvarpan aa Soottar-Sangeñe.

JEsu Christe Sonur Guds, miñ Endurlausnare, sem ur Myrkrenu giorer Morguneñ, og ur Nottuñe Dageñ, Laattu mig epter umlideñ Myrkur þessa auma Lijfs, faa ad siaa Gledelegañ Dag eilijfs Lijfs, Og epter dima Noott þessa auma Lijfs, ad lijta þañ biarta og fagra Dag Okomeñar Dyrdar.

O Drotteñ JEsu, Miñ Lijkame og mijn Saal verda nu ad skilia, Eñ þu og eg munum ecke skilia, Þvi vid erum miklu fastara samteingder eñ Saal og Lijf, Mitt Hiarta vill i sundur bresta, og kañ ecke ad lifa leingur, Eñ Hiaalp þijn og Huggun brestur alldrei nie bilar.

Eg gyrnest ad leysa upp, og vera hiaa þeim sem mig hefur Endurleyst, ecke med Gulle eda Silfre, helldur med sijnu Dijrmætu Bloode, Hañ sem sijna Saal hefur fyrer mig utgiefed, til Synda Foornar, og mig hefur elskad meir eñ sig siaalfañ, Eg er gladur i Gude, Eg hefe Forleingíng, og mig laangar ad deya, Eg er af Hiarta
gladur,

gladur, ad eg fæ so Gott, ad eg maa Eitt Siñ deya.

Miñ Gud og DRottiñ, Þo eg deye nu, þa veit eg vijst, ad mig hender eckert Illt, helldur muun eg faa og ødlast Eitt Odaudlegt Lijf. Þess fyrre sem eg dey, þess fyrre kiem eg til eilijfrar Saaluhiaalpar, Oh! Hvad sæl eru þau Umskipte, Eg misse eckert, hvort sem eg life eda dey, Ef ad eg life og dey i Christo, Jaa, i Stadeñ allrar Armædu og Eymdar, fæ eg fullkomna Endurlausn fraa øllu Illu, og þar med Fognud eilijfs Lijfs.

O HErra JEsu Christe: Kieñdu mier þa Konst ad deya Christelega, so ad eg med hinum sæla Stephäno, mætte med Trwareñar Augum, siaa i giegnum Daudañs Sky, i giegnum þetta Jardneska, iñ i þad Himneska, þar JEsus Christur situr til hægre Handar Guds, so ad eg gleyme þvi øllu sem er Stundlegt, og girnest alleina þad sem eilijft er.

DRottiñ JEsu, Eg hugga mig vid þijna giegnum lagda Sijdu, af hvorre wt er ruñed þad Blood, sem mijna Saal þvær og hreinsar af øllum mijnum Syndum.

Þijn

Þijn Nagla-Foreñ a Hondum og Footum, vil eg med Trwareñar Hondum snerta, Saalu miñe til Hellsubootar, þar fæ eg Raad, þar fiñ eg Huggun fyrer mijna fatæka hrygdarfulla Saal, so ad eg fyrer þijn ar Under, þijn Saar, þiñ Dauda, vissulega yferviñe og sigre Syndena og Daudañ.

Þu DRotteñ Saññleiksins, þegar mijn fatæka Saal skal reysa þañ langa Veg til eilijfs Lijfs, Þa gief þu mier þiñ Son JEsum Christum, til eins Vegvijsara, so ad eg Haaskalaust komest i giegnum Daud añs Grifiu, iñ i Landed lifande Maña.

Miñ Gud, Mikel Huggun er mier þad, ad med þvi þu hefur skapad miñ Lijkama af Molldu Jardar, Þa veit eg fullkomlega, ad þu muner hañ ecke laata i Jordu liggia ad Eilijfu, helldur muntu sañlega uppvekia hañ, Og med eilijfum Dijrdar-Liooma hañ prijda, og fylla hañ med Himneskum Fognudi.

HErra JEsu Christe, Eg veit þu hefur mitt Nafn uppskrifad a Himnum med þijnu Bloode, og eingeñ Ovinur, Eingeñ Diofull kañ þad ad afplaana, eda afmaa, Þad þacka eg þier, Og þess vegna er eg af Hiarta gladur.

Al-

Almaattugur Gud, med þvi þu bijr i mijnu Hiarta, fyrer þitt Ord og þiñ H. Anda, So hiaalpa mier, ad eg epter miñ Dauda, meige vera hiaa þier i Himnarijke, So ad eg sie þar þu ert, Og alldrei ad Eilijfu vid þig skilie.

Miñ DRotteñ JEsu, Kom þegar þu villt, Eg er til Reidu, Mijnar Hiartans Dyr standa opnar, Þvi bid eg ad þu laater upp fyrer mier Dyr þiñar Giæsku og Myskunar, og laat mig wr allre Neyd, ølluin Siwkdoome, komast til þijn, med hægum Dauda og Afgaange.

Almaattugur Gud! Saalena sem þu gafst mier, hana bid eg þu taker til þijn i mijnu Andlaate, Eg gief og bifala hana i þijnar Myskunar Almættis Hendur, Vardveittu hana, þijnu H. Nafne til Lofs og Dijrdar ad Eilijfu.

Oh! hvad Aumt og Faanijtt er þetta Veralldar Lijf? Þad er ecke añad eñ Neyd og Hørmung, Ein Hørmungeñ kiemur epter adra, Þar fyrer gyrnest eg ad fara i burt i eitt añad Lijf, Þar hvørke er Soott nie Siwkdoomur, Neyd eda Hørmung, Eda nockur Mootgaangur.

Hiaalpa mier DRottenñ HErra JEsu Christe, ad eg alleina og alla Tijma aastunde, ad hafa þijna Naad med mier wr þessum Heime, Eg gyrnest ecke añad, þad næger mier.

Þegar eg kañ ecke leingur ad tala, Þa bid eg DRottenñ miñ, Laat þiñ H. Anda tala fyrer mig i mijnu Hiarta, Kom þu Daude, Kom þa þu villt, Eg hrædest þig ecke, Þu ert Ender allra miña Eymda og Hørmunga.

O HErra Gud! Kom snart, og dvel ei leinge, Kom snart og tak mig burt wr þessu Harmkvælafullu Lijfe, iñ i þitt Rijke, so eg meige lofa þig ad Eilijfu.

J þijnar Hendur fel eg miñ Anda, Þu hefur Frelsad mig, Gud Sañleiksins, Añ.

3. Hvad skulu þeir giøra, og hvørneñ eiga þeir ad hegda sier, sem eru hiaa hinum Siwka, þegar hañ er Framstijgeñ, og hefur vered stadfastur i Bæn og Akalle til Guds, allt i Daudañ, Og er so wt af Sofnadur?

Ad Harma og graata er ecke fyrerboded, og ecke er þad fyrer nockrum illa upptakande, Þvi þad er Naatturlegt, Eñ Heidneña Maña Hrygd og Harm, Hroop og Ylur, og Oskyckañleg Læte, skulu Meñ

fordast

fordast, Pvi vier erum Christner, og eigum ad hugga oss i Gude, Hafande vissa, Fasta, Efalausa og stoduga Von, ad vorer Framlidner eru ei dauder, helldur sofnader, ecke tapader, helldur leyster og frelsader fraa ollu Illu, Og eru heim komner til DRottens, og þo þeim være i Bode ad eignast alla Veralldarennar Dyrd, og koma aptur i þennan Eymdar-Dal, Pa mundu þeir þad ecke vilia.

Miklu helldur ber oss ad þacka Almaattugum Gude, fyrer saalugann Afgaang og Christelega Burtfør hins Framlidna, og laata oss slijkt vera Aminning, ad lifa Gudlega, og deya Christelega, So sem skrifad stendur, þar oss er boded ad athuga Enda-Dag og Afgaang Heilagra eda Riett-Trwadra, Og epterfylgia þeirra Trw, Heb. 13. Jaa, Menn ættu ad falla aa Knie, og bidia Gud med þessum eda þvilijkum Ordum.

Packer giorum vier þier DROtten HErra JEsu Christe, Pu eilijfe Lijfsins Høfdinge, ad þu hefur hallded þessum goda Manne stadføstum i Christelegre Ydran, og sanre stodugre Trw, og giefed honum

Christelegañ Dauda og Afgaung. Oh! Hworsu Gledelega mun hñs Saal nu boreñ vera i Himnarijkis Sælu og Fognud, Pviad so steudur skrifad um Saal Lassari, þa hañ andadest fyrer Dyrum hiñs Rijka Mañs, ad hañs Saal hafe vered boreñ af Heilogum Einglum i Skaut Abrahams. So trwe eg og veit fyrer vissañ Sañ, þo eg hafe ecke kuñad ad sia þad med mijnum Holldlegum daudlegum diñum Augum, Pa hafa þeir H. Einglar vered i krijngum hañs Sæng, og hafa teked Vara uppaa hañs Saalu, Hañ fer nu heim i þa Himnesku eilijfu Paradijs, Hañ hwijler nu i sijns HErra JEsu Christi Skaute, og aa hañs Armleggium. Nu er i burtu oll Hrygd, Siwt og Sorg, Svide og Verkur, Nu mun DRotteñ þurka oll Taar af hañs Augum, og giefa honum eilijfañ Fognud, Glede og Unadsemd eilijflega. Oh þu Elskulega Saal! Sæl vertu. Ok Christs um sijna AEfe droo, Er nu framlideñ, Eñ lifer þo.

JEsu Christe Sonur Guds, Myskuna þig yfer oss sem nu epter lifum. Gief oss Huggun i þessum Eymdar-Dal, og laat oss med Poleñmæde lijda allañ Mootgaang þessa auma fallvallta Lijfs, allt til Dauda. Gief þu oss

ad

ad vier ꝏlijka sem þesse goode Mañ, mættum med Fride og Fognude, i Lausnaranum JEsu Christo burt fara og sofna.

# IX. Capitule.

## Sk'jrer fra Odaudleik Sꝏlnaña, Epter þad þær eru skildar vid Lijkamañ, og hvad um̃ þær lijde. Talar og eirneñ um̃ Uppprisu Lijkamans, Glede og Unadsemd eilijfs Lijfs, Og um̃ Pijnu og Pijsler eilijfrar Fyrerdæmingar.

1. Med þvi ad Sꝏlernar eru Odaudlegar, Hvørt fara þær þa? Hvad verdur af þeim? Hvad lijdur þeim, þegar þær eru vid Lijkamañ skildar?

HAld seiger H. Ritning, med morgum ꝏgiætum og Huggunarsamlegum Ordum, So sem votta þessar Epterfylgiande Greiner.

Hrædest ecke þꝏ sem Lijkamañ deyda, eñ Sꝏlena gi'ta þeir ecke deydt, helldur hrædest þañ sem Lijkama og Sꝏlu kañ ad kasta i Helvijte, Matth. 10.

Mollden hlijtur ad fara aptur i Jordena, af hvørre hun er komeñ, Eñ Andeñ kiemur aptur til Guds sem hañ giefed hefur.

Eg ayrnest ad fara i burt og vera hiꝏ Christo, Hvad miklu er betra, Phil. 1.

Ræningeñ ꝏ Krossenum, þa hañ skyllde giefa upp Ondena, Þa ságde hañ til DRottens: HErra, Miñstu ꝏ mig, þa þu kiemur i Rijke þitt, Og JEsus sagde til hañs: Sañlega seige eg þier: J Dag Skalltu Vera Med Mier J Paradijs, Luc. 23.

23. Sæler Riettlætra eru i Hende DRottens, og eingeñ Kvol kiemur vid þær, Sap. 3. Fyrer þeim Skilningslausu er ad siaa so sem þeir deye, og þeirra Afgængur verdur reiknadur fyrer Pijnu, og þeirra Burtfor fyrer Fordiarfan, Eñ þær eru i Fride.

Þo ad siaa Riettlæte deye fyrer Tijmañ, Þa er hañ þo i Hvijld, Sap. 4.

Þad skiede, ad sa Fatæke andadest, og var boreñ af Einglum i Abrahams Skaut. Og eñ aptur, Nu verdur hañ Huggadur, eñ þu hlijtur ad kveliast, Luc. 16.

Eg fer ad bwa ydur til Samastad, Eñ eg vil koma aptur og taka ydur til mijn, so þier sieud þar sem eg er, Joh. 14.

Eñ vier vitum, þegar vort Jardneskt Hws þessarar Byggingar verdur af broted, þa faaum vier Bygging af Gude Uppbygda, Eitt Hws þad ecke er med Hondum giort, helldur er Eilijft aa Himnum, 2. Cor. 5.

Ef vier erum med goodum Huga, og gyrnunst helldur ad vera fyrer utañ Lijkama, og vera heima hiaa DRottne, 2. Cor 5. Þier skulud siaa mig, Þviad eg life, og þier skulud eirneñ lifa, Joh. 14. Stundid uppaa þad sem þar er uppe, Eñ ecke uppa þad sem hier er aa Jordune, Col. 3.

Kuñañ giorer þu mier Veigeñ til Lijfsins, hiaa þier er Nægd Fagnadar, og Gledeleat Lijf og vera til þiñar Hægre Handar eilijflega, Psalm. 16.

Heyr

Heyr hier mijn Saal, Dædsamlegar, Hæleitslega Huggunarsamar Greiner, sem fram̃ eru geingnar af sialfs Guds Muñe, Vottande fyrer oss ad Saalum Maññana sie odruvlijs hattad eñ Lijkomunum, þær eru Ande eins og Einglarner, og eru Odaudlegar. Og þegar Saaler þeirra Rett trwudu lijda af sijnum Lijkomum, Þa verda þær hafdar til Guds, og eiga heima hia Drottne, hia Christo, og lifa i samre Sælu Himneskrar Paradijsar, i Oseiglañlegre Dijrd og Glede, hafa Hvyld, Frid og Fognud Oum̃rædeleg an, lijda hvorke Kvol nie Pijnu, Neyd nie Angist, Harm nie Hrygd, Eda nockud þad Illt er, Þviad þegar Saalernar skiliast vid Lijkamañ, þa eru þær frij, Frialsar, Lausar og lidugar, og giora betur þad þeim ber, helldur eñ adur, a medañ þær voru i Lijkamanum, Þvi i þessu Lijfe er Lijkameñ Saaluñe til Þijngsla og Hindrunar. J þessu Daudlega Lijfe kañ Mañsins Saal ad soñu ad Lofa og Prijsa Gud, og akalla hañ og þiona honum, og i honum ad Fagna og glediast, Eñ þa þær eru af Lijkamanum, þa kuña þær þetta miklu framar og betur ad fremia og giora, Þvi þær hafa þa aungva Synd, Aungvañ Veykleika, verda þa hvorke hindradar af Hollde, Heime nie Diofle. Heyrdu og Hugleid þetta mijn Saal, slijkt er mioa ægiætlegt og Huggunarsamlegt, so ad hier fyrer skyllde eingeñ Christeñ Madur hrædast siñ Dauda, Eda þykia miked ad deya.

Hier hvert a moote, koma Sæler þeirra Vantrwudu og Ogudlegu jafnsnart i Diofuls Valld og Hendur, sem þær fara af Lijkomunum, og verda dregnar i Kvala-Stade, So sem merkia og læra maa af Dæme hiñs Rijka Mañs. Þær verda ad lijda Pijsler og Kvaler, Ofrid og Angist, Neyd og Plagu, Ach, Vei, i Fijlu og Myrkrum og Helvijtskum Ellde, med Oaflaatañlegu Oope og Gnijstran Taña, allt til sijdasta Dags, a hvorium þeirra Pijsler og Plagur hid Fyrsta uppbyriast Riettelega, og munu Oaflaatañlega vara ad Eilijfu.

HErra JEsu Christe, Mijn Huggun og mitt Traust hid Obrygdañlega, Hvørsu laangar mijna Saal til þijn? Jaa, Lijka so sem Hiörteñ laangar epter ferskn Vatne, so gyrnest mijn Saal ad koma til þijn. Mijna Saal þyrster til þijn þu Lifande Gud, O! nær mun eg koma og sia þitt Andlit? Psalm. 42. Þreyttur er eg leingur ad lifa i þessu Hollde, og i þessum Eymdardal, so ad eg maa vel seigia med hinum Sæla Paale: Eg gyrnest ad skilia hier vid, og vera hia Christo, Phil. 1. HErra JEsu Christe, Þu eilijfa Vitskañ, Þu veitst mijna Stund, Mijner Dagar standa i þiñe Hende, Laat mig fara DRottteñ þegar þu villt, Mitt Hiarta laangar til Hvijldareñar, Jaa til eilijfrar Hvijldar, Mig laangar wr þessu Myrkre til Liooßens, wr Harme og Hrygd, i Gledena, wr Ofridnum til Fridarens, wr Eymdeñe til Dijrdareñar, wr Vesalldar Veykleika, til Fullkomlegrar Sælu. DRotteñ JEsu, þu veitst alla Hlute, Þu veitst ad mijn Saal villde feigeñ elska þig af Hiarta, og hana laangar Hiartañlega ad sia þitt blijda Blessada Andlit; Sia þu Allra Sætaste Endurlausnare, feigeñ villda eg ad Augu mijn være Taara-Bruñur, Og ad

Taareñ

Tœreñ mættu reña ofanepter mijnum Kiñvængum, so ad miitt Hiarta verde siwkt af Ast og Elsku þiñe, Og Pÿrsle, Andvarpe, og hafe Gyrnd og Forleinging ad vera hiœ þier, ad hvijla i þijnu Skaute, Pijnum Hendum. Miñ DRottñ og miñ Gud! Hvad Sæll mun eg þa vera? Pa mun mijn Sœl med miklum Fægnude seigia: Hier er Gott ad vera, Matth. 17. Hier er Gott ad vera, DRotteñ JEsu! Miñstu œ mig i Rijke þijnu, Og seigdu til Sœlar miñar: J Dag Skalltu Vera Med Mier J Paradys, Luc. 23. Amen.

2. Med þvi ad Sœlernar vita, ad þeirra Lijkamer liggia i Jørdu, og eru þar, Fwner og Rotner, Munu þær þa hafa Forleinging nockra epter sijnum Lijkomum, og mun þeim ecke þykia Tijmeñ læengur, ad bijda epter seinásta Dege, Og Upprisu Lijkamans?

Eg hlijt ad medkieña, ad opt kuña slijkar Hugsaner ad koma i Mañsins Hiarta. Eñ þar œ moore skulum vier hugleida og vita, ad med þvi Sœler vorar (epter Skilnad Andar og Lijkama) eru hiœ Christo i Ouñræelegre Dijrd og Glede, þa giefur Gud þeim hæleita og nooglega Vitsku, so ad þær vita vel ad þeckia Guds Dœsemdar Riettlætis Rœd og Vilia, og ad þeirra Lijkamer lijde hvorke Olucku nie Mootgœng, þo þeir hvijle og ligge i Dupte og Mølldu Jardar, þær vita ad Almœttugur Gud mune so vardveita alla þeirra Lidu og Lime, ad sierhvørt hid miñsta þeirra Bein mune ei tijnast, þar til Upprisañ kiemur.

J Añare Grein eru Sœler Utvaldra i soddañ Stad og Skickan, og i slijkre Unadsemd og Glede,

ad þær kuña ecke ad fiña til nockrar hryggelegrar Forleingingar eda Onaadanar, Þviad þo þær Oaflaataña lega huxe um̃ sijna Lijkame, og Oske ad sia Seinaste Doomsins og Endurgiallds Dagur kome, so sem sia og merkia maa i Openberan Johañis, þa fylger þeirra Huxan og Osk eingeñ Hrygd eda Osognudur, helldur Glede og Fognudur, Gude Almaattugum til Lofs og Dijrdar, hvorium þær giefa Prijs og Æru, og laata sig alla Hlute epter þvi sem hañs Guddoomlegur Vilie er til, og hañ hefur skickad, Apoc. 4.

Þetta sama giora Guds Born i þessu auma Lijfe, aa medañ þau eñ nu gatnga i Holldenu, Þau laangar epter sijdustu Endurlausn, og Andvarpa epter Tilkomu Christi, og hvorn sem ecke forleinger eda laangar þar epter, sa same hefur aungva Ast nie Elsku aa sijnum Endurlausnara, Skylldu nu Heilagar Saaler sin̄ eru hiaa Christo ecke Oska, ad þad Syndsamlega þessa Heims Athæfe faae Enda, og su fullkomlega Endurlausn meige sem fyrst koma? Eñ ad soddañ Forleinging, Osk og Girnd Heilagra Saalna, mune giora þeim nockra Hrygd eda Leida, Þad kañ ecke ad ske, Þviad þær eru hiaa Gude i hañs Himneskre Dijrd og Paradysar Sælu, þar eingeñ Tijme er, og eingeñ Mismunur Daga og Tijma, Eñ hvar eingeñ Tijme er, þar er eingeñ laangsamleg Forleinging. Þvi so stendur skrifad: Þusund Aar eru fyrer þier so sem Eirn Dagur, sa i Giær um̃leid, og sem Ein Nætur-

Vaka,

Vaka, Psalm. 90. Og i odrum Stad: Eitt sie Ooulev fyrer ydur Elskañleger, Ad Eirn Dagur er fyrer DRottne, so sem Pusund Aar, og Pusund Aar so sem Eirn Dagur, 1. Pet. 3.

Par fyrer mijn Saal, Laat soddañ Huxaner ecke sturla þig, helldur gief og befala þig i Hendur DRottens, sem er þiñ Skapare, Piñ Gud, Pijn Hyggun, þitt Traust, þitt Hlijfdar-Skiool, bæde i þessa Lijfe og Okomnu Eilijflega.

JEsu Christe miñ Endurlausnare, Pu sier og þu veitst, ad eg Elska þijna Tilkomu, Bidiande þig af ollu Hiarta, ad þu vilier med þiñe Dijrdarfullre Hijngadkomu, nidurbriota og Enda giøra a ollu Syndsamlegu og Ogndlegu Athæfe þessa Dygdarsnauda Heims, og laata riettañ og maklegañ Doom gaanga yfer Disfuleñ og alla vora Ovine, og laata uppbyriast þa Oendañlegu Fagnadarrijku Farsælld himnesktrar Paradijsar, þar þu munt vera allt i ollum. Jaa ad vijsu, miñ Lausnare, Ef ad allar Skiepnur hafa Angist og Forleinging ad meiga frelsast fra Hiegooman-um, hvørinm þær eru undergiefnar, uppa Von Endurlausnareñar, ættum vier þa sem erum Guds Børn, Rom. 8. Ecke miklu framar ad laata oss med Hiartañs Gyrnd og Glede, langa epter vorre Oendañlegre og fullkomeñe Endurlausn? Eñ sie þad þiñ Vilie DRotteñ JEsu, Og hafer þu fyrerhugad ad eg skule lifa þiñ Gledérijka Tilkomu Dag, þa verde þiñ Vilie miñ Endurlausnare. Laat mig fagna og gledjast vid Hliood þiñar Basonu, eñ skielfast ecke med þeim Vantrwudu, Helldur vera Reidubweñ ad stockva upp i Lopted i moots vid þig. Eñ laater þu mig sofna fyrre wtaf, og taker mijna Saal i Paradysar Glede og Fognud, Sia, þa er eg til Reidu, Eg vil giarnañ koma þa þu kallar, Eñ a medañ Kalled kiemur ei, þa læt eg ecke af, med Gledelegre Andvarpan, ad akalla þitt Nafn, og seigja: Flijt þier,

Kom

Kom þu snart, Ja miñ HErra JEsu, kom ad dæma
Lifendur og Dauda.

3. Er þad þa þijn vissuleg Trw, ad þesse same Lijkame, hvørn nu berum vier, skule upp aptur rijsa,
Og æsamt med Sæluñe Eilijflega lifa?

Sañlega er þad mijn Trw, Og þetta er þad eg jæta og medgeing i miñe Postulegre Trwarjætningu, þar so stendur. Eg trwe Upprisu Holldsins, Og Eitt eilijft Lijf. Pviad þegar vor DRotteñ JEsus kiemur aptur til Doomsins. Pa munu fyrer hønum samañsafnast allar Piooder, Lifendur og Dauder, Iller og Gooder, Matth. 25. Pa mun Jordeñ giefa fram̃ þa Daudu sem i heñe eru, Lijka eirneñ Sivoreñ, Apoc. 20. Og æ Augabragde munu Sælernar koma aptur i sijna Fram̃lidna Lijkame, og koma so Lifande fram̃ fyrer DRotteñ, og vier sem þa lifum og erum epter ordner, munum under eins med hinum vera upprykter i Lopted, moots vid DRotteñ, 1. Tess. 4. Par mun DRotteñ skilia i sundur Jlla og Gooda, Eins og Hyrder skilur Saude fra Hofrum, og setia Saudeña til Hægre Handar, eñ Hafrana til Vinstre. Par epter verdur Doomureñ upp sagdur, og mun hañ mæla til þeirra sem eru til Hægre Handar: Komed hijngad þier Blessader mijns Fodurs, og erfed þad Rijke sem ydur var fyrer bwed fyrer Upphaf Heimsins. Eñ til þeirra æ Vinstre Hond eru, mun hañ Reiduglega so mæla: Fared burt fra mier þier Bolvader i

Elld

Elld eilijfañ, hvør ed Tilreiddur er Dioflenum og hañs Einglum, og munu þeir þa fara i eilijfar Pijsler, Eñ Utvalder i eilijft Lijf, Matth. 25. Eñ ef þu villt mijn Saal hafa fleire Vitnisburde H. Ritningar, uñ þetta Efne, Pa merk þessar epterfylgiande Greiner.

Peir Daudu munu verda Lifande, og med Lijkom⸗m framkoma, Vakned upp og synged Lof þier sem i Jorduñe ligged.

Hafed þier ecke lesed um Upprisu Framlideña, Pad ydur er sagt af Gude, Par hañ so talar. Eg er Gud Abrahams, Gud Isaachs, Gud Jacobs, Exo. 3. Eñ Gud er ecke Gud þeirra Daudu, helldur þeirra sem eru Lifande, Matth. 12.

Peir Morgu sem liggia og sofa i Jorduñe, munu upp vakna, Sumer til eilijfs Lijfs, Sumer til eilijfrar Sneipu og Skamar, Dan 12.

Eg veit ad miñ Endurlausnare lifer, Og hier epter mun hañ uppvekia mig wr Jorduñe, og eg mun Jklædast þessu mijnu Horunde, og i mijnu Hollde mun eg lijta Gud, Pañ sama mun eg siaa, og mijn Augu munu skoda hañ, og ecke Añarleg, Job. 19.

Sañlega, Sañlega seige eg ydur: Saa Tijme kiemur, og er alla Reidu, ad þeir Daudu munu heyra Rodd Guds Sonar, Og þeir sem hana heyra, Peir munu lifa, Joh. 5. Pad er Vilie hañs sem mig hefur sendt, Ad hvør sem sier Soneñ og trwer aa hañ, hafe eilijft Lijf, og eg mun uppvekia

vekia hañ at Siidasta Deige, Joh. 6.

Eg er Uppriſañ og Lijfed, Hvor ſem trwer a mig, hañ ſkal lifa, þo hañ deye. Og hvor ſem lifer og trwer a mig, ſa ſkal alldrei deya, Joh. 12.

Mijn Saal, Hugleid þu þau Dæme ſem ſkied hafa, Pa ſier þu hvorſu audvellt þad er Almaattugum Gude, þa Framlidnu upp ad vekia, Pvi alla Tijma hefur hañ þad ecke koſtad nema Eitt Ord. Pegar hañ uppvakte Son Eckiuñar i Naim, þa mællte hañ ſo: Ungmeñe, Eg ſeige þier, Rijs þu upp, og jafnſnart reiſte ſa Daude ſig upp, og vard lifande, Luc. 7. J ſama Maata uppvakte hañ med Einu Orde Skoola-Hofdingians Doottur i Capernaum, Seigiande: Stwlka, Eg ſeige þier, Rijs upp, Marc. 5. Eins ſkiede og þegar hañ uppvakte Laſſarum i Bethania, ſa Fioora Daga hafde i Grofeñe leiged, Pa kalladе hañ og ſagde: Laſſare, Kom þu wt, og jafnſnart kom hañ lifande wr Grofeñe, Joh. 11.

Ja mijn Saal, Petta ſijneſt ad ſoñu Omogulegt fyrer Mañlegum Augum og Skynſemeñe, eñ hia Gude DRottne vorum er eckert Omogulegt, Luc. 1. Lijka ſo ſem ein Mooder veit vel, i hvoriu Hwſe eda i hvorre Sæng, hun hefur lagt Barnkynd ſijna til Svefns, þangad kiemur hun ad Morgne, vekur þad upp, tekur þad til ſijn, Eins lijka veit DRotteñ af hvors Mañs Lijkama, Og hvar þeir ſofa ſem hier i Heime hafa vered hañs Muſtere og Bwſtadur, og miklu audvelldara mun

honum

honum vera ad giora aptur lifande vora Dauda, Iskallda, Fwna og Sundurrotna Lijkame, helldur eñ Moodureñe er ad uppvekia sitt Sofanda Barn i Vogguñe.

Ad auk þessa hofum vier vorn liwfa Lausnara JEsum Christum, Sem er Hofud siñar Christelegrar Kyrkiu, 1. Cor. 11. Ecke alleinasta til Eptirdæmis, helldur er hañ Fyrrereñare, Fyrerfare, sa undañ oss hefur geinged, Ja ad vljsu, sa sem er hellsta Ordsok vorrar Upprisu. Þvi hañ er Daeñ vegna vorra Synda, og Jardadur, Eñ a Pridia Deige er hañ med Glede og Fognude upp aptur riseñ, oss til Riettlætingar, Rom. 8. kallar og seiger so til vor allra: Eg life, og þier skulud og eirneñ lifa, Joh. 14.

Ja miñ Lausnare JEsu, med þvi þu lifer, þa munum vier og eirneñ vissulega lifa, Þviad þu ert Hofuded, eñ vier erum Limerner þijns Lijkama, Og fyrst þad þu ert Uppriseñ, þa munum vier og so vissulega upprijsa. Og fyrst þu lifer, Sem ert vort Hofud, þa munum vier og so sañlega verda lifande. Þar fyrer DRotteñ JEsu, bijd eg og vænte epter þiñe Huggunarsamlegu Hijngadkomu, og Andvarpa jafnañ med þessum Ordum.

Kom HErra JEsu, kom snarlega, og gior Enda a þessare vondre Verolldu, og heñar Ogudlegu Athæfe; Tak oss ad þier, i þitt Himneska Rijke, hvort þu hefur fyrerbwed oss, fyrr eñ Heimureñ var giordur, so vier mættum vera hia þier,

þier, fra þijna Dijrd, og eilijflega þig lofa og dijrka med H. Einglum, og Utvoldum þijnum, Amen.

4. Sam̃lega mun þa eilijft Lijf vera miøg Dijrdlegt Lijf, og fram̃ yfer allam̃ Mam̃legam̃ Mæta og Skilning Gledelegt og Ununarsamlegt?

Riett talar þu mijn Sæl, fram̃ yfer Mam̃legam̃ Mæta, Ja, fram̃ yfer allt þad sem nockur Madur kam̃ ad trwa, Hyxa eda skilia. Þvi so talar H. Ritning: Eckert Auga hefur sied, og eckert Eyra hefur heyrt, og ecke er þad komed i nockurs Mam̃s Hiarta, sem Gud hefur bwed til handa þeim sem ham̃ elska, 1. Cor. 2. Esa. 64.

O eilijfur Gud! Hvilijkur Fognudur, Hvilijk Unadsemd, Glede, Dijrd og Sæla mun þar vera? Ja mijn Sæl, Hvor er sa þar vill ecke um̃hyxa Daglega? Hvor vill ecke feigem̃ heyra þar um̃ talad? Þar um̃ sagt og swnged? Hvor vill ecke miklu helldur vera þar, og eignast sodd-am̃ Himneska Sælu? Em̃ hvor vill skijra oss þar fra? Og hvar sæum vier þad heyrt, So vor Hiortu gledjest og ad þau mættu sa Gyrnd og Forleinging þar epter?

Mijn Sæl, Em̃ þo ad sa mikle Spæmadur Esajas, Somuleidis sa Heilage Postule S. Paall drepe ad eins a þetta, og aiete þar i aungvam̃ Mæta fra skijrt, sem ædur var um̃ talad: Samt þa eru margar ægiætar goodar Greiner i H. Ritningu, J hvorium Heilagur Ande talar

um̃ Fognud og Farsælld eilijfs Lijfs, Og hallda ad þad gaange yfer Megn Mañlegrar Mælsku og Skynsemdar, þar um̃ ad tala, þa standa þo i Heilagre Ritningu margar ágiætar Maals-Greiner, J hvorium Heilagur Ande giefur noogslega til Kyñingar hvorneñ hattad er eilijfre Himnarijkis Glede og Farsælld. Sem eru þessar.

Mijner Elskañleger, Vier erum nu Guds Born, Eñ þad er eñ ei augliooſt hvad vier munum verda, Eñ vier vitum þegar JEsus Christus augliijſest, þa munum vier verda honum lijker, Þviad vier munum sia hañ, so sem hañ er, 1. Joh. 3.

Eg mun skoda Gud i mijnu Hollde, Job. 19.

Þa munu Riettlaater liooma so sem Sooleñ i þeirra Fodurs Rijke, Matth. 13.

Þeir odrum kieña Gott, Munu skijna so sem Lioome Himensins, Og þeir ed morgum vijsa til Leidriettingar, so sem Stiornur Æ og ad Eilijfu, Dan. 12.

Gud mun vera allt i ollum, 1. Cor. 12.

Vier munum vera hiaa DRottne alla Tijma, 1. Theſſ. 4.

DRotteñ mun Dijrdarlegañ giora vorn fanijtañ Lijkama, og laata hañ verda lijkañ sijnum Dijrdarſamlega Lijkama, Phil. 3.

J Uppriſuñe munu þeir ecke Kvongaſt nie Gyptaſt, helldur vera lijka eins sem Englar Guds a Himnum, Matth. 22.

Og eg Johañes saa þa Heilogu Borg, þa Nÿju

Jerusalem, Komande ofañ af Himnum fraa Gude, tilbwna lijka so sem prijdda Brwdur sijnum Mañe. Og eg heyrde mikla Raust aa Stoolnum, sem sagde: Siaa þar Tialldbwd Guds med Moñum, og Gud mun bwa hiaa þeim, og þeir munu vera hañs Foolk, og sialfur Gud med þeim mun vera þeirra Gud. Og Gud mun afþurka Taareñ af allra þeirra Augum, og Daudeñ mun ecke vera leingur, eige Mootgaangur, nie Harmur, nie Pijna, Þvi þad Fyrsta er um̃lided. Og saa sem sat aa Stoolnum sagde: Siaa eg giore þad allt nijtt. Og ecke saa eg nockurt Mustere þar iñe, Þvi DRotteñ Almaattugur er þeirra Mustere, og Lambed, Og Stadur saa þarf ecke vid Soolarnie Tungls, ad lijsa þeim, Þviad Dyrd Guds upplijser þaa, og þeirra Lioos er Lambed, og þeir Heidingiar sem Saaluhoolpner verda munu gaanga i þvi sama Lioose. Og Kongarner aa Jordune munu flytia sijna Dijrd þar iñ, og þess Stadar Dyr munu ecke aptur laatnar verda aa Dageñ, þvi þar verdur eingeñ Noott.

Stooll Guds Lambsins mun vera þar iñe, og hañs Pienarar munu þioona hönum, og lijta hañs Andlit, og hañs Nafn mun i þeirra Eñum vera, og eingeñ Noott mun þar vera, og ecke mun þar þurfa vid nockrar Lijsingar, eda Soolar Liooss. Þviad Gud DRotteñ mun sialfur lijsa þeim, og þeir munu rijkia um̃ Allder og ad Eilijfu, Apoc. 22.

Faa eru þesse Ord, mijn Saal, eñ full eru þau

Dum-

Dumrædelegrar Glede, Sætleiks og Unadsemdar. Hviad þo Heilog Ritning hefde margt og miked hier um̃ skrifad, þa eru vor aumu Hiortu so veyk, og vort Skilningsleyse er so miked, ad vier kuñum ecke þad ad skilia nie skynia. Þar fyrer lætur Heilagur Ande upp fyrer oss, med þessum fáum Ordum, so sem Glugga lijteñ, til ad horfa þar iñ, so ad vier skulum vita, hvad vier eigum ad trwa og vona, og hvar vid vier eigum ad glediast, Eñ þegar vier erum þar komner, og vier erum eigande ordner ad þessare Himneskre Sælu, þa munum vier segia hvor vid aññ, Eins og su Gamla Elisabeth mællte vid Jomfrw Mariu, Segiande: Sæl ertu sem Trwder.

S. Augustinus.

Oh þad eilijfa Lijf! Oh Dyrdarlegt Lijf, þad Lifanda Lijf, J hvoriu ad er eilijfur Fognudur aan Hrygdar, Eilijf Hvijld aan Erfvidis, Eilijf Dijrd aan Otta, Eilijfur Rijkdoomur aan Skada, Jafnleg Heilbrygde aan alls Siwkdooms. J þier er allt þad sem Mañsins Hiarta kañ ad hafa Lyst aa, og þar vantar eckert. O þu eilijfa Jerusalem, Þu Heilaga Borg Guds, þu elskulegasta Brwdur mijns DRottens JEsu Christi, Eg elska þig i mijnu Hiarta, og i mijnu Hugskote forleinger mig epter þiñe Fegurd, Oho! hvorsu fogur, hvorsu Dijrdarleg og Prijdeleg ertu? Þu ert ollum fegre og Dijrdlegre, Og þu hefur aungva Fleckan. Þegar eg hugsa um̃ þig Jerusalem, Sem ert þar

 uppe,

uppe, Sal. 4. Pa laungar mitt Hiarta til þijn, Ja til þijn Jerusalem sem ert mijn Mooder hin sætasta, og mitt Himneska Fodur-Land, Mig laungar og til þijn JEsu Christe, Pu sem i þeirre Himnesku Jerusalem ert Hofuded, Liooſed, HErra og eilijfur Hirder.

Oh! hvorsu Dijrdarlegt, Gledelegt og Lystelegt Lijf mun þad vera, sem Gud hefur bwed til handa þeim sem hañ elska? Pad maa heita lifanda Lijf, Roolegt og Fridsamt Lijf, J hvoriu ad er eingeñ Daude, eingeñ Synd, ecke Kvol, Pijſl nie Pijna nockur, eingeñ Hrygd nie Hrædsla, Ei Vesolld nie Veykleike, Pad Lijf er fullt Dijrdar og Prijde, Sælu og Sæmdar, Par er ecke Ovine ad hrædast, Par er eingeñ Syndsamleg Girnd nie Fijsn, Par er fullkomlegur Kiærleike, Par er eilijfur Dagur, Eirn Ande i ollum, Par siaa Meñ sialfan Gud Auglite til Auglitis, Par verdur hvors Mañs Hiarta yferfliootañlega sadt og mettad med Lijfsins Fædu. Mig lyster og laungar til ad siaa þa Dijrd, og mitt Hiarta hefur stoora Girnd til þiñar Sælu, Pess meir sem eg hugsa þar uñ, þess kraunkare verd eg af Ast og Elsku þeirre, sem eg hefe a þier.

O! hvorsu sæl ertu mijn Saal, þegar þu skilur vid þeñan Daudlega Jardneska Lijkama þiñ, og fer i Himerijke? Par ertu vel komeñ, Par fagna þier Guds Utvalder, Par þarftu ecke ad Ottast Dauda nie Diofful, Par verdur þu alla Tijma hiaa DRottne Gude þijnum Endurlausnara, og

skodar

skodar hañs Andlit Oaflaataañlega. Sem er saa
Allra Friidaste aa medal Mañaña Sona.

So sem Hiortureñ kallar epter fersku Vatne, so kallar myn Saal til þiin miñ Gud, Mijna Saal þyrster epter mijnum Gude, epter þeim Lifanda Gude, Nær mun eg þar koma, so eg meige saa ad siaa þitt bliida Blessada Andlit? Ps. 42. Oh! þu Bruñur Lijssins, Þu Bruñur allrar Huggunar, alls Fagnadar, Nær mun eg drecka af lifande Vatne þiñar Huggunar, Nær mun eg komast wr þessum Eymdardal, og siaa og skoda þijna Dyrd? Miñ Gud og miñ DRotteñ! Af Hiarta laangar mijna Saal til þijn, hana þyrster epter þier, Oh! laat mig koma og siaa þitt bliida Blessada Andlit.

Kom HErra JEsu Christe, kom og dvel ecke leinge, Kom þu miñ Endurlausnare, Kom þu Huggun allra Pioda, Kom þu mitt Lioos, lijstu Saalu miñe wr Myrkvastofu þessa auma Lijfs, so ad eg kome og prijse þitt Heilaga Nafn eilijflega.

Oh! þu eilijft Oforgeingelegt Rijke Himnaña, J þier er þad eilijfa Lioos og Fridur Guds, saa Edre er ollum Skilninge, J þier hafa Saaler Heilagra hæga Roo og Hvijld, Eilijfur Fognudur er yfer þeirra Hofdum, Esa 35. DRotteñ miñ Gud, Hvad Dijrdarlegt er þitt Himerijke, J hvoriu aller Heilager Drottna og Rijkia med þier, Klædder Soolar Byrtu og Liooma, hafande Gullegar Coronur sier aa Hofdum, þeirlijts

þig Andlite til Andlitis, og þu gledur þar med Sælu og Sæluhialp.

Þar er eilijf Sæla eñ eingeñ Hrygd, eilijf Glede og Fognudur, eñ eingeñ Pijna, Velferd aan Sorgar, eilijft Lioos aan Myrkra, Þar er eilijft Lijf, eñ eingeñ Daude, Þar er eilijf Æska fyrer utañ alla Elle, eilijf Heilbrygde, fyrer utañ allañ Siwkdoom, Þar er Kiærleike fyrer utañ allt Hatur, Þar er eilijfur Fognudur og Oendañleg Glede; Og sæler eru þeir ad Eilijfu, sem frelsader og leyster eru fraa Anaudum og Eymdum þessa auma Lijfs, og komner eru i Fognud þijns Rijkis.

Eñ hvad verdur af þeim fwlu Illalucktande Hofrum, þeim Ogudlegu til Vinstre Handar, Hvert fara þeir? Þeir fara med Lijfe og Sælu i eilijfar Pijsler. Jaa ad vijsu mijn Sal, Lijka so sem Glede og Sæla Utvaldra, er Oumrædeleg, Og um hana verdur ecke talad so sem hun er, so kañ og einskis Mañs Tunga ad skijra fraa þeim Hrædelegu, Hryggelegu Kvolum og Pijslum, sem þeir Ogudlegu og Fordæmdu verda ad lijda. Þo hafa þeir Gomlu bunded þad samañ i faaum Ordum, Segiande:

Fyrst munu Pijsler og Kvaler Fordæmdra i Helvijte vera so margfalldar og miklar, ad þær kañ eingeñ Madur ad segia nie telia. Þviad so talar H. Ritning: Þeim mun kastad verda i hin ytstu Myrkur, hvar ed vera mun Oop og Tañagnystran, Matth. 22. Þeir eru i Helvijte og Kvol-

Kvolunum, Luc. 16. DRotteñ mun laata rig-
na yfer þaa Ogudlegu, Elldingum, Ellde og Bre-
ñesteine, Storm mun hañ giefa þeim i Laun, Ps.
11. Þeirra Ormur mun alldrei deya, og þeirra
Elldur mun alldrei wtslokna, og þeir munu verda
Andstygd ollu Hollde. Skielfing, Angist og
Pijna mun koma yfer þaa, Þeir munu Hugsiwk-
er verda, lijka sem sw ed fæda skal, Hvor þeirra
mun hrædast añañ Þeirra Andlit munu verda so
raud sem Elldur, Esa 13. Molureñ mun vera
þeirra Under Dijna, og Madkarner þeirra Abrei-
da, Esa. 41.

Siaa þu hier Saal min, med þessum og þvilijk-
um Hrædelegum Heitingum, vottar heiløg Ritn-
ing, fyrer þeim Ogudlegu, hvad þeir eiga fyrer
Hondum, og ad allur Kross og Mootgaangur,
Allar Pijsler og Plaagur, Saarinde, Siwkdoo-
mar, Daudeñ, hvorsu saar og grimlegur sem hañ
kañ mest ad vera, og allt hvad huxast eda nefnast
kañ, þad mun þar ad fylgiast, og aller Helvijtsker
Andar og Arar munu þaa Fordæmdu hid Grim-
legasta pijna og kvelia ad Eilijfu.

Þar næst hafa þeir Gomlu so talad. Þær
margvijslegu Helvijtsku Kvaler og Pijsler munu
verda so Hrædelegar, þwngar og beiskar, ad þeim
Fordæmdu munu þær vera Olijdañlegar, Obære-
legar, eñ þo samt verda þeir og hlioota þeir þær ad
lijda og þola um alla Eilijfd. Þeir munu af stoor-
re Angist leita Daudans, og fiña hañ ecke; Þeir

munu gyrnast ad deya, eñ Daudeñ mun flija fra̋ þeim, Apoc. 9.

Ad viisu miin Saal, Pad maa heita ad þad sie hvorke Liif, ei helldur Daude, helldur munu þeir Fordæmdu velkiast og velltast i mille Liifs og Dauda, J Oum̃rædelegum Piislum og Plaagum, aliika so sem glooande Jaarn-Hnottur i loganđe Smidiu Afle, So munu þeir Fordæmdu verda gaagnheiter, og i þeim Helviitska Elde bardar, Slegner, Lemstrader, aan Enda ad eiliifu.

J Pridiu Grein hafa þeir Gomlu so skrifad. Sliikar margfalldar og Obærelegar Kvaler Piislar og Plaagur, munu ecke skam̃a Stund vara, ecke um̃ laangañ Tiima, Pviad þad laangt er, þad er ecke eiliift, helldur seger Gud so: Peir munu fara i Elld eiliifañ, Matth. 25. Jaa miin Saal, þo þeirra Piisler mættu vara um̃ Pusund Ar, Tiju, Sextiju, eda Hundrad Pusund Ar, þa feinge þær Enda um̃ siider, Eñ þad skiedur ecke, þad Eiliift er, hefur aungvañ Enda. Landed þeirra (Fordæmdu) mun verda ad breñande Bike, Esa. 34. Pad hvorke Noott nie Dag wtslocknar, og Reikur þeirra Kvala mun upp stiiga fraa Eiliifd til Eiliifdar, og ecke munu þeir hafa Hviilld Noott nie Dag, Apoc. 14.

Hugleid þu med þier miin Saal, Ef nockur Madur ætte ad liggia eiliiflega aa mioukre Sæng, Neyta besta Matar, og dreckа forkostulega Dryckе, og være bundeñ vid þa Sæng, so hañ kiæmest

alldrei

alldrei lifande þadañ, Sañlega munde saa Madur ei Offa fier laangra Lijfdaga. Eñ i Helvijte vellt-ast þeir Fordæmdu, ecke i Kræsingum nie Vellyst-ingum, helldur i Oendañlegum Helvijtskum Elldé, J eilijfre Angist, i Fijlu og Froste, og þreifanleg-um Myrkrum, so ad alldrei saa þeir nockra Hugg-un, Vokvan Eda Vatns Dropa, Eda nockra Hugsvalan ad Eilijfu.

Pier Aum og Blind Heimsins Born, Heyre þier þetta, Laated ydur slijkt gaanga til Hiarta. Pier sem elsked þeñañ Heim og Holldsins Girnd-er, Og seged: Hier er Gott ad vera, hier er Gott ad vera. Eñ siaa þu, Saa Tijme mun koma, og er ecke laangt til, ad þu med þeim Rijka Fordæm-da Mañe, munt kalla, klaga og segia: Eg kvelst i þessum Loga. Jaa, Pu munt Klaga og Kalla, Hier er ei Gott ad vera, hier er ei Gott, og hlijtur þo samt þar ad vera eilijflega, Pu hlijtur þad ad lijda, og þar eilijflega ad kveliast og pijnast, eñ deya alldrei, J Orædelegum og Olijdañlegum Kvol-um og Pijslum aan alls Enda.

HErra JEsu Christe, Sonur Lifanda Guds, Gief þu mier Eyru so eg meige heyra og hlijda þijnum Sende-Bodum og Pienurum, so eg giøre Ydran, og sie alla Tij-ma fraaskilen Myrkrañа Bornum. Hiaalpa þu mier, so eg hegde og breyte ecke epter Framferde og Athæfe þessa Heims, uppaa þad eg med hønum ecke verde kastadur i Hel-vijtis Kvaler og Pijsler. Stijr þu mier, Kieñ þu mier, Leid þu mig med þijnum Heilaga Anda, so eg Daglega lære ad lifa Sparlega, Riettferduglega og Gudlega, og Deya sijdañ Christelega, so eg kome ecke i Kvala-Stade Helvijtis-

ra Pijſla, helldur ad eg med þier miñ Lauſnare og Frelſare, og med þijnum Heilogum, mætte ſia og ødlaſt þad Gledelega eilijfa Lijf Himneſkrar Dijrdar, og Farſælldar, AMEN.

ENDER.

Epterfylgia nockrar ægiætar

# ANDVARPANER.

D. JOHANNIS Havermanns,

Til ad brwka i Soottum og Siwkdoomum.

## Bæn um̃ Chriſtelegañ Afgæng.

Dv Goode Gud Þu ſem hefur ſett Mañeſkiuñe Skamt ſiña Lijf Daga; Hvort Matier Madureñ kañ ecke yfer ad gæanga. Þvi hañ hefur ſijna ætkvardada Lijfs Tijd, og hañs Mæanada Tal ſtendur hiæ þier. Alla voora Daga hefur þu taled, Hvo' ier þo lijda ſkyndelega i burtu, ſo ſem Eirn Framflıootande Straumur, So ſem flıwgum vier þar i frœ. Oll vor Aar eru ſo ſem Reykur eda Skugge, Hvor ſkyndelega forgeingur. Mañeſkiañ er ſo ſem Gras, þad ſem ſkıootlega þornar, og ſvo ſem Bloomſtur æ Morkeñe, ſem ſnarlega viſnar: Þvi kieñdu mier nu ad Hugleida, og vid ad kañaſt, ad mijner Dagar hlioota Enda ad taka, og mitt Lijf hefur ſijna

sijna Mæling, og eg blijt burt ad fara. Siaa, mijner Dagar eru so sem Ein Þverhandar-Breidd, og mitt Lijf er so sem ecke neitt fyrer þier. Hvorsu aller Meñ eru olldungis ecke neitt, Hvorier þo lifa so Ugglauser. O Drotteñ, Kieñ þu mier ad Hugleida, ad eg hlijt ad deya, Og ad eg hefe hier onevañ lanevarande Samastad a þessare Pilagrijms Reysu. Gior þu mier kuñuga mijna stutta og Forgeingelega Æfe, Svo eg huxe Opt og Osialldañ uñ mijn Æfelok, so ad eg i þessum Heime, ecke sialfsum mier, helldur þier Life og Deye. Ad eg bijde so med Glede og Fognude i Trwñe mijns Heimferdar-Dags og Opeñberunar þijns Elskulega Sonar JEsu Christi, og reide mig þar til med Heilogu Framferde og Gudlegu Athæfe. Naada þu mig med einum Hiaalpsamlegum Afgange, þegar mijn Sijdasta Stund tekur ad nalgast, So eg deye Christelega og fae Skynsamleg Æfelok, i saññre Vidurkieñingu, so eg verde ecke fyrdtur mijnu Vite og Skyne, Og ad eg tale ecke af neinu Ovite, nockur Gudlostunar Ord a moote þier mijnum Drottne og moote miñe Saaluhiaalp. Vardveittu mig fyrer Ovarlegum og Illum Dauda, og fyrer Eilijfre Fyrerdæmingu. Laattu ecke mijna Sijdustu Dauda-Stund hvatskeytlega yfer mig falla, helldur so ad eg bwe mig adur til, med riettre Trw og saññre Ydran, og þegar sw sama Stund ad Hondum kiemur, þa gior þu mig Oruggvañ, Svo eg kvijde

ecke

ecke Ofmiög vid þeim Stundlega Dauda, Hvør mier er ecke utañ ſaa er Dyrunum upplijkur til Eilijfs Lijfs. Og laat mig þa þiñ Pienara i Friide fara, Þviad mijn Augu hafa ſied þañ Heilſugiafara, hvørn þu hefur fyrerbwed øllum Pioodum, Eitt Lioos til Uppliijſingar Heidnum Moñum, og til Dijrdar þijnu Foolke Iſrael. Gief ad mitt Sijdaſta Ord ſie þad, ſem þiñ Elſkulegur Sonur talade aa Kroſſenum, Fader J Þijnar Hendur, Befala Eg Miñ Anda, Og þegar eg kañ ecke leingur ad tala, þa Bænheyr þu mijna Sijduſtu Andvarpan, Fyrer JEſum Chriſtum, Amen.

## Bæn Eins Siwks Mañs.

Ø HErra Gud Himneſke Fader! Þu ert viſſulega Eirn Trwfaſtur Gud, og lætur øngvañ Freyſtadañ verda fram yfer ſitt Megn, helldur giører þu þad, ad Freyſtingeñ fær þañ eirn Enda, ſem viergietum vel bored. Eg bid þig i þeſſare miñe ſtooru Neyd og Harmkvælum, Laattu þeñañ Kroſsburd, ecke vera mier Ofþwngañ, Styrktu mig ſo eg kuñe ad bera hañ med Poleñmæde, og Efaſt alldrei um þijna Myſk nſeme. O JEſu Chriſte! Lifande Guds Son, Þu ſem Kroſſens Pijnu hefur fyrer mig lided, og ert viſſulega Daaeñ fyrer mijnar Synder, Til þijn kalla eg af Jñnſta Hiartans Gruñe, Myſkuna þu mier Aumre og Syndugre Mañeſkiu, og fyrergief mier alla mijna Misgiørninga, ſem eg heſe giørt aa moote

te þier, alla mijna Lijf-Daga. Laattu mig ecke Efaſt i Trwñe. O Gud Heilage Ande! Þu ſañe Huggare, J allre Neyd, Vardveittu mig i Þol-eñmædeñe, og i riettu Bæna-Akalle, Helga þu mig med Soñu Trwnadar Trauſte, og vijk ecke fraa mier i miñe Sijduſtu Neyd, Leidtu mig af þeſſ-um Eymdar-Dal, J þad Rietta Fodur-Land, AMEN.

## Auñur Siwks Mañs Bæn.

Almaattuge Gud og Himneſke Fader! Epter þvi ad þu hefur boded oſs og ſagt, Akalla þu mig i Neydeñe, So vil eg Bænheyra þig, og þu ſkallt Prijſa mig. Þeſs vegna kalla eg til þijn i þeſſare miñe ſtooru Anaud, Fyrer JEſum Chriſtum þiñ Elſkulegañ Son, ad þu vilier ecke yfergiefa mig Auma og Synduga Mañeſkiu. Og ef þeſſe miñ Krankleike er ecke til Dauda, þa Hi-alpa mier Saker þiñar mikellrar Myſkunar, So eg meige Prijſa og Vijdfrægia þijna Magt og Krapt ſem þu audſyner a mier, Eñ ef mier er hitt Nytſamlegra nu Stundlega ad deya, eñ ad vera hier leingur i þeſſum Eymdar-Dal, J þeſſu auma Lijfe, þa verde þiñ Guddoomlegur Vilie, So a Jordu ſem a Himne. Veittu mier eirneñ þijna Naad, ad eg giefe mig med ollu under þiñ Vilia, Hvor alla Tijma er hiñ Beſte. Halltu mier Stadfaſtlega i Chriſtelegre Trw og ſañarlegre Vidurkieñingu allt til miña Æfeloka, Laattu mig

Alldrei

alldrei verda fraa hier skilen, helldur tak þu miina Saal til þijn i þitt Rijke, Fyrer þan sama þin Elskulega Son vorn HErra JEsum Christum, Amen.

## Pridia Bæn Þess Siwka.

Þu Almaattuge Gud! Þu sem ert Naadugur og Myskunsamur, Þolenmoodur og Mikellrar Giæsku og Trwfeste, og fyrergiefur Syndernar og Misgiørdernar. Til þijn kalla eg, ad þu vilier af þine Naad Fyrergiefa mier allar mijnar Synder, og styrkia og Vardveita mijna Saal aa moote Allshaattadre Freystne og Astrijdu. Kom þu mier til Hiaalpar og statt hiaa mier, so ad mijn Trw veykest ecke, og Vonen Efest ecke, og Kiærleikuren koolne ecke, og Mannlegur Veykleike Underþryckest ecke af Dandans Oon og Skielfingu. Og þegar mijn Andlaats Stund er komen, þa laattu mig i Fride fara, Þvi mijn Augu hafa sied þitt Hiaalpraad, Hvert þu hefur fyrerbwed ollu Foolke, Eitt Lioos til Uppbyrtingar Heidnum Mønnum, og til Dijrdar þijnu Foolke Israel. A þan Heilsugiafara Treyste eg, aa han Vona eg. O HErra Gud! Laat þu mig ecke til Skammar verda, Þvi ad þu ert mijn Hiaalp og min Styrkur, Alijttu mig med þijnum Myskunar Augum, Og snw þine Fodurlegre Hiaalp til mijn, Fyrer Þin Kiæra Son JEsum Christum, Hvor med sine Heilogu Þijnu og Dauda, hefur wtvegad oss Eilijfa Endurlausn, AMEN.

Fioorda

# Fioorda Bæn Peß Siwka.

O Fader Allrar Naadar! Vertu Myskunsamur miñe aumu Saal, Fyrergief mier allar mijnar Synder, sem eg hefe giort a moote þier. Forsmaadu ecke þijna aumu Skiepnu, og fyrerlijt mig ecke, Þvi eg er Verk þiña Handa, og lat hañ ecke Fyrerfarast, Hvorn þu hefur Giort og Skapad. Þvi a þig vona eg. Þu ert mijn Hialp og miñ Gud. O! HErra JEsu Christe, þu Sañe Heilsugiafare, Þu sem ert þad Guds Lamb, sem ber allar Veralldareñar Synder, og hefur Hreinsad þær og Af þveiged med þijnu Bloode. Eg bid þig fyrer þijna Beisku Pijnu, Sierdeilis og allra hellst fyrer þa stooru Angist sem þu þolder a þeirre Stundu, þegar þijn Allra Helgasta Saal skildest vid þiñ Helgasta Lijkama, Myskuna þu miñe aumu Saal i heñar Utfør, og leid hana til þess Eilijfa Lijfs. O þu goode Heilage Ande! Þu Sæte Huggare, Varveittu mitt Hiarta a moote ollum Freystingum þess vonda Diofuls, Styrk mitt Trwnadar-Traust, So eg Trwe stoduglega um Syndaña Fyrergiefning, og þad Eilijfa Lijf. So Bijsala eg ny, O! þu Heilaga Preñing, miñ Anda i þijnar Hendur, þu Trwfaste Gud, Þu hefur mig Endurleyst, Þu sem Lifer og Rijker ad Eilijfu, AMEN.

* * * * * *
* * *

Ein

## Ein Bæn fyrer þaa sem stadder eru hiaa þeim Siwka, Sem komeñ er i Andlaated.

Þu Almaattuge Goode Gud! Þu sem vardveiter vort Lijf i Andlaatenu og Daud Danum, Vier bidium þig, ad þu vilier snwa þijnum Myskunar-Augum til þessarar Siwku Mañeskiu, og Endurlijfga hana aa Saalu og Lijkama, og af þiñe Naad fyrergiefa honum allar sijnar Synder. Medtak þu Offur þess Saklausa Dauda þijns Elskulega Sonar JEsu Christi i Betaling fyrer hañs Misgiorninga, Þvi hañ er eirneñ i þess sama Nafne Skijrdur, og med þess hins sama Bloode Þveigeñ og Hreinsadur: So Frelsa þu hañ (hana) nu af þessare Lijkamlegre Kvøl og Pijnu. Styttu hañs Harmkvælingar og Vardveit hañ aa moote Samvitskuñar Aklogun og aa moote øllum Freystingum þess vonda Diøfuls, so hañ strijde Mañlega i Trwñe, og faae yferuñed. Veittu honum Hiaalpsamlegañ Afgaang, og Heimfør til þess Eilijfa Lijfs. Send þu hijngad Heilaga Eingla, ad þeir leide hañ til Safnadar allra þiña Utvaldra, Fyrer JEsum Christum, AMEN.



